# ÍSLENSKT MÁLSHÁTTASAFN

FINNUR JÓNSSON
SETTI SAMAN

GEFIÐ ÚT AF
HINU ÍSLENSKA FRÆÐAFJELAGI
Í KAUPMANNAHÖFN




KAUPMANNAHÖFN - MDCCCCXX
PRENTSMIÐJA GYLDENDALS

# Formáli.

1. Í daglegu tali eru oft við hafðar einstöku setníngar eða málsgreinar, oftast með alveg sömu orðum eða þá með litlum afbrigðum; felast í þeim ýms reynslusannindi, sannindi um líf og hugsunarhátt manna; annaðhvort alvörufullar eða gamansamar (bitrar, háðfullar osfrv.). Þær eru oft blátt áfram, einfaldar og einræðar, t. d. eins og þessi: „Alt verður einu sinni fyrst“. Þetta er oft nefnt „spakmæli“. En mjög oft — ef til vill oftast — eru þær tvíræðar, þ. e. hafðar í óeiginlegri merkíngu, t. d. „Allir eldar brenna út um síðir“; auk þess einfalda sannleiks, sem í orðunum liggur, er setníngin heimfærð upp á ýmislegt annað; hún getur „táknað“ ýmislegt; ef til dæmis piltur eða stúlka barmaði sjer yfir að ástir annars (stúlku eða pilts) dofnuðu eða sloknuðu, þá mætti þar um segja: „Allir eldar osfrv.“. Það er helst þetta, sem í daglegu máli er nefnt „málshættir“. Hvorar tveggju þessa konar setníngar eru til hjá öllum þjóðum, Forn-Ebreum — Salómons orðskviðir —, Forn-Grikkjum, Rómverjum osfrv., og ekki síður hjá Forn-Germönum og norrænum þjóðum. Svo lángt sem komist verður aftur í tímann voru þessar setníngar notaðar af forfeðrum vorum með fullri meðvitund um eðli þeirra og aldur. Þær voru með rjettu álitnar gamlar; „forn orð“ eru þær nefndar í *Málsháttakvæði* — sem síðar mun nánar verða nefnt — („færa ætlum forn orð saman“ segir höf.); og um þær eru höfð orðatiltæki sem „fornmæli“, „fornkveðinn“, „fornmæltur“. En algengasta nafnið á þeim var „orðskviður“; nú mun „málsháttur“ vera tíðhafðast; það kemur og fyrir í fornöld, en er í rauninni

ekki eins gott og orðskviður, því að „málsháttur“ er í sjálfu sjer mjög víðtækt; mætti hafa um hvað sem er einkennilegt í málinu. En nú hefur það fengið þessa — þrengri — merkíng, og má því vel hlíta. „Talsháttur“ er raunar sömu merkíngar, en hefur líka fengið þrengri merkíngu og er haft um setníngar líkrar en þó nokkuð annarar tegundar (jeg vísa þar um til ritgjörðar minnar í Skírni 1912).

Í fornritum (sögum) eru fjöldamargir málshættir við hafðir, og eru þá tilfærðir með einkennilegum inngángsorðum, svo sem „það er forn orðskviður að“, með ýmsum tilbreytíngum („sannaðist f. o.“ osfrv., „hjer kom fram sá o.“ osfrv.), „það er fornt mál að“ osfrv., „fornkveðið orð er“; mjög alment er: „sannast e. sannaðist það sem mælt er að“, eða „satt er það sem mælt er að“, „kom að því sem mælt er að“, „oft er mælt að“, „var þá sem oft kann verða að“, osfrv.[1])

Í þessu safni er ekki gerður neinn munur á þeim 2 tegundum, sem hjer hafa verið nefndar, fremur en í öðrum söfnum, enda lítil ástæða til þess.

2. Sem getið var eru þessar setníngar, málshættir, mjög gamlar, og menn tóku fljótt eftir þeim og gildi þeirra. Í elstu kvæðum — bæði eddukvæðum og skáldakvæðum — eru þær notaðar, og vjer finnum ýmsar af þeim líka annarstaðar á norðurlöndum en í Noregi (Íslandi); svo finst t. d. setníngin: sjaldan liggjandi úlfr lær um getr né sofandi maðr sigr (Hávamál 58) hjá Saxa, söguritara Dana; þar hljóðar hún svo: Nemo stertendo victoriam cepit nec luporum quisquam cubando cadaver invenit, og fleira mætti nefna þess kyns. Í Hávamálum og öðrum kvæðum líks efnis eru fjöldamargar setníngar, er líta út sem málshættir; en hjer vandast málið. Bragarhátturinn er þannig lagaður, að hann var sem skapaður til að mynda kjarnyrtar stuttar setníngar af sjálfum sjer, svo að það er oft, eða oftast, ómögulegt að vita, hvað er (forn) málsháttur og hvað stafar frá höfundinum sjálfum; einkum á þetta við setníngarnar í 3. og 6. vísuorði. T. d. að taka vísuorðið:

---

[1]) Hjer um má vísa til ritgjörðar H. Gerings í Arkiv f. nord. fil. XXXII, 1—6.

nýtr mangi nás; er það höfundarins orð eða málsháttur? A. Heusler hefur í góðri ritgjörð: Sprichwörter in den eddischen sittengedichten [1]) reynt til þess að tína upp málshætti úr þeim kvæðum, sem koma til greina. Þó þetta sje skarplega gert og oft með líkindum, er það þó ekki nema tilraun; jeg hef ekki getað gengið í spor hans að öllu leyti og ekki tekið í þetta safn nema þær setníngar, er jeg þóttist vera fullviss um að væru málshættir.

Söfnun málshátta í fornöld vitum vjer ekki aðra en þá, er geymist í hinu svonefnda Málsháttakvæði, er áður var getið. Í sama handriti, sem Snorra Edda er í og nú er geymt í hinni konúnglegu bókhlöðu í Kaupmannahöfn, eru aftast rituð tvö kvæði, Jómsvíkíngadrápa Bjarna biskups Kolbeinssonar í Orkneyjum (d. 1222) og þetta kvæði, er kallað hefur verið svo. Mart þykir benda til þess, að kvæðið eða drápa þessi sje líka eftir Bjarna; þó furðanlegt megi þykja er kvæðið ekki annað en ástarsaga skáldsins, sagan um hina harmþrúngnu ófarsælu ást til kvennmanns, er hefur brugðið heitum sínum við skáldið, en þessi saga er öll fram sett í málsháttum og nokkrum öðrum setníngum; í Jómsvíkíngadr. er hljóðið líkt; þar, einkum í stefinu, drepur skáldið á líka ástasögu. Í Málsháttakv. koma og fyrir orðmyndir, er ekki þykja íslenskar (t. d. muli, fúa, fröskr) og meiri líkur til að sjeu orkneyskar. Höf. hefur ekki safnað málsháttunum þeirra vegna sjálfra eða til að búa til málsháttasafn, heldur, sem sagt, hefur hann notað þá til þess að segja raunasögu sína — en öll hefur hún fremur gamansaman blæ eða, rjettara sagt, kaldahláturs. Kvæðið er nú 29 vísur og upphafið á þeirri 30., eða, að því sleptu, 232 vísuorð (hvert vísuorð er víðast setníng út af fyrir sig). En nú eru nokkur vísuorð ekki málshættir, heldur það sem höf. nefnir „forn minni“ (t. d. „Bjarki átti hugarkorn hart“), og í öðru lagi eru nokkur vísuorð frá hans eigin brjósti og ekki málshættir; þeir eru því töluvert færri en vísuorðin í kvæðinu, og ekki fleiri en um 120 í mesta lagi; stundum er vafasamt, hvort setníng sje málsháttur eða ekki. Þetta safn er afar mikils virði og

[1]) Í Zeitschr. des vereins für volkskunde in Berlin 1915 og 1916.

einstakt í sinni röð. Er í þetta safn tekið úr því alt sem tækt þótti og er merkt M. En þess ber að gæta, að höf. hefur orðið, bragarháttarins vegna, að breyta málsháttunum, eins og þeir hljóðuðu í daglegu tali, og víkja þeim við nokkuð (t. d. segja „skips láta menn skammar rár“ í stað „skammar eru skips rár“, svo sem málsh. hljóðar í Hávamálum).

Hvort Snorri Sturluson hefur haft orðskviðasafn, er óvíst, en í Háttatali hans heitir einn bragarhátturinn „orðskviðuháttr“ (líklega fyrir -kviða-), og er í vísunni með þeim hætti (þeirri 26. í kvæðinu) við hafðir 4 málshættir (í öðru hverju vísuorði, t. d. „fens; bregðr hönd á venju“).

Hugsvinnsmál, sem er þýðíng frá 13. öld af latínsku kvæði (miklu eldra, Disticha Catonis), eru lík Hávamálum og eru í þeim margar setníngar, er líkjast málsháttum, en hjer er eins aftur óvíst, hvað sjeu málshættir í raun og veru.

Svo líður og bíður — fram á 16. öld. Meðal handrita í Árnasafni er eitt, sem ekki er talið ýngra en frá þeim tíma og heldur ekki mikið eldra; það er hin mikla rímnabók í safninu 604, 4to. Skrifarinn sjálfur hefur gert það að gamni sínu að skrifa á spássíur, einkum neðan máls, ýmislegar setníngar, og mest málshætti, og eru þeir nú rúmlega 200, en hafa upphaflega verið fleiri, því að týnst hafa úr handritinu bæði blöð og heil kver. Þetta safn er mjög merkilegt. Gaf dr. Kr. Kålund það út í „Småstykker“, er „Samfund til udg. af gml. nord. litteratur“ ljet prenta 1886. Hvort skrifarinn hefur haft eldra ritað safn fyrir sjer, má ef til vill telja óvíst; dr. Kålund álítur, að svo hafi ekki verið. Merkt K.

Þetta safn stendur svo nærri fornöldinni, að vel má verja, að taka það saman við alla þá málshætti, er safna má úr sögum og fornaldarkvæðum. Þegar jeg fyrir mörgum árum fór yfir sögurnar og önnur fornrit vor, skrifaði jeg upp að gamni mínu þá málshætti, sem jeg rakst á; þó var það þá ekki tilgángur minn að gefa þá út í einni heild. En af því að svo var og eins hins vegna, að mjer datt þetta ekki í hug frá fyrsta upphafi, náði jeg ekki öllum málsháttunum, sem fyrir koma. Samt sem áður þótti mjer ekki óráðlegt, að koma þessu safni á prent,

vegna þess hvað það mætti þykja merkilegt að hafa sem mest af fornum málsháttum í einum stað. Jeg steypti þá rímnabókarsafninu eftir útgáfunni saman við mitt safn og gaf alt út með þýðíngum og skýríngum í Arkiv f. nord. fil., 30. bindi.

Nú reyndist svo, sem jeg vissi ekki af, að prófessor dr. Hugo Gering hafði líka safnað málsháttum úr gömlum kvæðum og sögum. Við samanburð fann hann, að jeg hafði ekki til tínt alla þá staði, sem hver málsháttur fanst — það hafði heldur ekki verið tilgángur minn — og líka hitt, að jeg hafði ekki náð í þá alla, að minsta kosti ekki alla þá, sem hann hafði safnað. Hann gaf svo út þessa viðbót við mitt safn í þeirri ritgjörð, sem áður var nefnd, í sama tímariti, 32. bindi. Þetta safn er hjer merkt G. Má því nú ætla, að þurtíndir sjeu málshættir úr fornritunum, að svo miklu leyti sem slíkt er hægt. Jeg verð þó að geta þess, að jeg get ekki viðurkent, að alt það sem Gering hefur til tínt sjeu málshættir í raun og veru, og þeim setníngum sem svo eru, og þær eru ekki allfáar, hef jeg ekki ljeð rúm í þessu safni, sem hjer birtist.

Áður en jeg fer út í að telja ýngri íslensk söfn, verð jeg að geta eins útlends, dansks, safns af málsháttum; það er það sem kent er við Peder Låle eða Pjetur lálendíng, sem hann mætti nefna á íslensku (eða Pjetur Láli, stytt úr hinu). Eiginlega vita menn ekkert um þennan mann, nema að hann hefur lifað á síðara helmíng 14. aldar. Þetta málsháttasafn var fyrst prentað 1506 (svo 1508, 1515) og síðast gefið út með nákvæmum skýríngum og formála af þeim Svíunum A. Kock og C. af Petersens 1889—94 (í tveim bindum); þó undarlegt megi þykja var þetta skólabók til að læra latínu á. Hverjum málshætti fylgir latnesk þýðíng, sem skólasveinar áttu að læra utanbókar; þó að þetta væri aðaltilgángurinn þykir mjer ekki ólíklegt, að höf. hafi ætlast til, að efnið í málsháttunum ætti líka að vera fræðandi og siðbætandi. Í hinni síðustu útgáfu eru málshættirnir alls rúm 12 hundruð, en þar við er að athuga, að sami málshátturinn kemur oft fyrir tvisvar, og stundum þrisvar, svo að alls munu málshættirnir ekki fara mikið fram úr 1100. Þetta málsháttasafn hefur eflaust — prentað,

og það má sjá, að það var útgáfan 1515 — komist til Íslands, þegar á 16. öld; í syrpu Gottskálks prests Jónssonar finst tilfærður málsháttur — eða tveir þó — sem eru teknir úr safni Pjeturs,[1]) en Gottskálk dó 1593. Málsháttasafnið hefur eflaust verið mest alt þýtt á íslensku, því að í hinum prentuðu söfnum Guðm. Jónssonar og Hallgr. Schevings, sem síðar mun talað um, finnast um 400—500 — og ef til vill enn fleiri —, sem auðsjáanlega stafa frá bók Pjeturs. Mjög mart af þeim er nú ekki annað en pappírsmálshættir, þ. e. málshættir, sem aldrei hafa orðið alþýðlegir og máltamir; en eflaust hafa þó margir orðið það; bæði eru þeir svo vel þýddir — t. d. með hljóðstöfum í —, og svo eru sumir notaðir enn í dag. Hins vegar er það líka víst, að sumir af málsháttum Pjeturs eru samnorrænir. Jeg vík síðar aftur að þessu safni og íslenskun þess.

200 árum síðar safnaði annar, nafnkunnur, danskur maður, einn hinn mesti fræðimaður sinna tíma, Peder Syv (1631—1702), dönskum málsháttum (I—II, 1682 og 1688). Með hans safni komum vjer aftur að íslenskum málsháttum. Aftan við fyrra bindið hefur Syv látið prenta ekki alllítið safn af íslenskum málsháttum, og segir hann í formálanum, að þá hafi hann fengið hjá Hannesi Þorleifssyni (hann dó 1682); líklega hefur Hannes safnað þeim einmitt eftir áskorun Syvs; Hannes varð konúnglegur fornfræðíngur (antiqvarius) 1681. Safn Hannesar er allgott, en fáir eru þar málshættir, sem ekki sjeu í hinum síðari meiri söfnum. Hann hefur efalaust tekið þá eftir minni sínu. Þeir sem þaðan stafa eru merktir PS. Hálfdán Einarsson nefnir þetta safn í sinni Bókmentasögu (I, 6), 1777, en getur ekki þess, að eða hvar það sje prentað. Samastaðar nefnir hann aðra málsháttasafnara, Guðmund Ólafsson hjá Svíum (það mun vera safnið í Stokkhólmi, 35, 4to á pappír), Eyjólf prest á Völlum (um 3000 málshátta safn), Jón Ólafsson grunnvíkíng, Ólaf Gunnlaugsson föður þeirra Eggerts, Jóns og Magnúsar, Ólaf Brynjólfsson, prest í Görðum á Akranesi, Björn á Skarðsá og Jón Hálf-

[1]) Sjá greinarkorn dr. Kålunds í Arkiv XII, 387; dr. Jón Þorkelsson hafði fullkomlega misskilið málið í Arkiv VIII, 218 og XII, 70.

dánarson, er báðir hafa sett þá í ljóð. Vjer munum síðar hverfa aftur að sumum þessara. Til eru ýms söfn, t. d. hjer í Árnasafni og í Landsbókasafninu, sumt líks eðlis og Pjeturs Lála (latínskar setníngar þýddar).

Og svo kemur í byrjun 19. aldar hið mikla safn Guðmundar Jónssonar, prests á Staðarstað (1763—1836), er Bókmentafjelagið ljet prenta 1830. Formáli sjera Guðmundar er undirskrifaður 10. júlí 1823. Fullur titill safnsins er: Safn af íslenskum orðskviðum, fornmælum, heilræðum, snilliyrðum, sannmælum og málsgreinum. Titillinn sýnir eða á að sýna, hve víðtækt safnið er, enda ber safnið nafn með rentu, sem síðar skal á minst. Í formála sínum getur Guðmundur þeirra heimilda, er hann hafi notað, allrækilega. Hann segist fyrst hafa fengið 2 eða 3 málsháttasöfn, „mjög óorðulega niðurskipuð og smáaukin“; hann skipaði þeim „í reglulega stafrófsröð“ og jók við þau „þeim er mjer þá í bráð fjellu í hug“ og þeim, er finnast í „Orðskviðaklasa, Hrakfallabálk, Stöfunarkveri prófasts síra Gunnars sál. Pálssonar osfrv.“. Með þessu hafði hann fengið um 2400 málshætti. En svo fjekk sjera Guðmundur hjá Boga Benediktssyni — hinum alkunna fræðimanni — aðrar og miklu fullkomnari málsháttabækur; það voru: Málsháttasafn sjera Eyjólfs, — einmitt það er áður var nefnt —, aukið bæði af sjera Benedikt Pálssyni á Stað og sjera Gunnari, bróður hans, — annað safn með hendi Haldórs konrektors Hjálmarssonar, en það var aftur ritað eftir handriti Hálfdánar Einarssonar (með viðbótum Jóns grunnvíkíngs) — þriðja safn eftir Ólaf Gunnlaugsson. Þetta eru, að minsta kosti það fyrsta og þriðja, einmitt sömu aðalsöfnin sem Hálfdán nefndi í sinni bók, og líklega er handrit hans sjálfs ekki annað en uppskrift af handritum í Árnasafni eða safn Jóns Ólafssonar, sem hann nefnir. Sjera Guðmundur hefur þá haft með höndum efalaust öll þau hin mestu og helstu söfn sem til voru, og hann hefur ausið dyggilega úr þeim; eftir hans safni að dæma er það víst, að hann hefur tekið mest alt sem tækt var með nokkru móti, og eiginlega miklu meira; og þar til svarar titillinn á bók hans. Í henni eru nefnilega setníngar, svo hundruðum,

segja má þúsundum, skiftir, sem alls ekki eru málshættir og hafa aldrei verið; það eru „heilræði, snilliyrði, sannmæli og málsgreinar“, er alt einu nafni mætti kalla „greinar með siðferðisreglum“, setníngar sem „Guð rætir þá oft upp, sem hann gefur mikla lukku“, „Hjer eru göfugheit á allar síður“ (!), „Sjer prjedikar samviskan hið sannasta“, „Væri ei sjúkdómur þyrfti ekki nein læknismeðul“ osfrv., osfrv. Það er ljóst, að mikill þorri þessara „málsgreina“, sem als ekki eru málshættir, er þýddur, og oft illa þýddur úr dönsku („Vöndurinn er óvitans tugtmeistari“). Vafalaust er mikið af þessu tekið úr safni sjera Ólafs, því að það einkendi sig með þessu eftir titlinum sjálfum, sem stendur á 16. bls. í bók Guðmundar; sjera Ólafur hafði einmitt og sjerstaklega safnað siðferðisreglum „úr ýmsum bókum“, þar á meðal dönskum, en verst er viðbótin: „item er mart af eigin eftirtekt og reynslu diktað“. Það er auðvitað ekki hægt að segja nema með samanburði, hvað í safni Guðmundar stafi frá bók Ólafs, en eflaust er það ekki lítið (þó tók hann ekki alt); öllu þessu verður hver sá að fleygja í burt, sem safna vill málsháttum; því að siðferðisreglur sjera Ólafs eiga þar engan samastað, og síst þær sem hann „diktaði“ sjálfur. Með því að taka alt þetta rusl upp í safn sitt tókst sjera Guðmundi að fá hið víðtækasta safn, sem til hefur verið. Safnið er rúmar 402 síður, og ef gerðir eru 30 málshættir upp og niður á síðu, þá verða 12000 „málshættir“ eða vel það als. Þess skal enn getið, að sjera Guðmundur segir, að Bjarni amtmaður Thorsteinsson hafi farið yfir handritið, og hafi hann strikað út nokkrar af setníngum sjera Ólafs (þess var von og vísa Bjarna, en hann hefði átt að strika fleiri út), en aftur bætt nokkrum málsháttum við úr safni Jóns Árnasonar, Hólaökónóms.

Í safninu hef jeg, sem áður segir, fundið um 350—400 — ekki allfáa þar að auk í safni H. Schevings — úr safni Pjeturs Lála, en það er ekki Guðmundur sjálfur, sem hefur sótt þá þángað, heldur eru þeir teknir úr eldri söfnum; margir þeirra, og ef til vill flestir, eru þó, sem sagt var, ekki annað en pappírsmálshættir, er aldrei

hafa lifað á vörum þjóðarinnar; þó er nú ilt um það að dæma með fullri vissu.

Röðin hjá Guðmundi er sú sama sem hjá öllum eða flestum, sem nokkra röð höfðu, það er að skilja stafrófsröð eftir fyrsta stafnum í málshætti hverjum. Þetta er hin versta röðun, sem hægt er að fá; með henni greinist alt í sundur sem saman á, og alt verður eintómur hrærigrautur. Afleiðíngin af þessu er líka sú, að sami málshátturinn getur staðið oftar en einu sinni, tvisvar og jafnvel þrisvar, af því að hann getur byrjað með mismunandi orðum og þó verið allur hinn sami. Slíkt hittist oft hjá Guðmundi, t. d. Ekki er hundrað í hættunni (67) = Það er ekki hundrað í h. (363); Nú ber vel í veiði (241) = Það b. v. í v. (359) osfrv.; eða líka finst sami málsh. lítið breyttur tvisvar, t. d. Finna má minna grand í mat sínum en músina (106) = Sjá má m. gr. í m. s. (313), Hann ann böggum Hildar en Hildi ei sjálfri (129) = Hann er með böggum Hildar (132; eflaust afbakaður hjer) osfrv.

Af þessu sjest, að safn Guðmundar er að þessu leyti ókrítiskt. En það er það líka því miður á margan annan veg. Málshættirnir eru oft alla vega herfilega afbakaðir og það svo, að þeir verða lítt skiljanlegir eða óskiljandi með öllu. Þetta má segja ekki einúngis um þá, sem eru útlendir, teknir t. d. úr safni Pjeturs Lála, heldur og um gamlar norrænar setníngar. Setníngar úr Hávamálum og öðrum eddukvæðum finnast alloft, en mjög afbakaðar og auðsjáanlega teknar eftir slæmum pappírsuppskriftum; svo eru t. d. Hal ber öld hvar (128; fyrir halb, = hálf, er osfrv.), Leiðist margur ef gott getur (197; f. mangi), Margur er sá hvatur, er hjör nje reiðir annars brjósti (217; f. hjör nje rýður annars brjóstum í), Nornir kjósa mögur (fóstur) frá mæðrum (240; f. kjósa mæðr frá mögum, eins og stendur í Fáfnismálum), Ofdrykkja öls vegur margan velli að (247; þessi vitleysa er tilbúin úr: vegnest verra vegrat (= ber maður ekki) velli at en sé ofdrykkja öls), Oft bilar hinn betri þá hinn verri er vígur (251; f. verri vegur), Sá er vinur öðrum sem vilt (heilt eitt) segir (283; f. Era sá . . . sem vilt eitt s.); Hávam. 85.—89. v. er að mestu tekin upp, en alt í

ruglíngi og með afbökunum (337); Þaðan er mjer úlfs von, er eg einn (!) sje (359; f. eyrun), Ærna mælir sá sem espa þegnar (419; þessi vitleysa byggist á: Ærna mælir, sá er aldrei þegir, staðlausu stafi, Hávam. 29), Ör ergist við gest (422; f. órir gestr við gest) osfrv. Aðrar vitleysur eru t. d. þessar: Ekki er Óðins tryggðum að týna (68), stafar víst frá: Hvat skal hans (Óðins) tryggðum trúa (Hávam.); Eldi heitari brennur með illum vinum (88), vantar áframhaldið: friður í fimm daga; Hátt hlakka ernir yfir hræfníngi (!) (140; á að vera: hræfángi); Hirtu ei að segja þó vitir hvassorðan (168), er afbakað úr: Hirð ei að senna þótt satt vitir við hvassorða hali (Hugsv.m. 26); Mínar eru sagnir þúngar sem blý (233; f. sorgir); Oft deilir litur kosti (251; f. ok eigi d. l. k., eins og stendur í Njálu, 50. kap.); Oft er vel drukkið en ei til mikils (256; afbakað úr orðum Útgarðaloka við Þór: Vel er drukkit ok eigi til mikit, SnEdda); Logið hefur Baldur að Baldri (207; er byrjun á vísu þeirra Haralds harðráða og Þjóðólfs, og setníngin er ófullkomin); Þú þykist auðnu fótum í etju standa (416; f. öllum og etu — af eta = jata —; orð Gísla Súrss. við Þorkel bróður hans); Margur á jörð í annars fari (214; f. orð); Ekki er afnámsfje að arfa slíkum (f. í aumra flíkum); málleysa sem trýr f. trúir kemur fyrir í Hver guði trýr hann er órýr (160). Hvað er „fres" í Sjaldan er fres í feigs rúmi (308)? Kátlegur mislestur finst í Stattu kyrr hafa skaltu þrjú krúð (321); hvað er krúð, ?, = púður? Hjer er krúð blátt áfram mislesið úr c$^{ruð}$ = hundruð; og málshátturinn á við það sem segir í Sturlúngu (I, 181) um málalyktir; þar voru Þorsteini nokkrum dæmd 3 hundruð „fyrir þat er hann hafði haldinn verit", og þá var í skopi þessi málsháttur búinn til. Hvort hann hefur orðið almennur er óvíst.

Vjer skulum nú sjá dæmi þess, hvernig hinir dönsku málshættir Pjeturs Lála líta sumir hverjir út í hinni íslensku þýðíngu í útgáfunni. Jeg set hjer þá, sem jeg hef fundið athugaverða í þeirri grein, sem hjer um ræðir, af fleirum ástæðum en einni. Að gefa illum ráð, er sem að ausa vatni á gras (!) (21; gras er óskiljanlegt, á að vera gás, á d. At sige dåre råd det er som at slå koldt vand

på gås).[1]) Betra er að flýja en flökta (!) illa (45; f. fikta, á d. Bedre er at fly end ilde at fikte ɔ: fægte). Blómstrið er snjósins festipeníngur (56; f. frjósins, af frjó, á d. Blomster er frugtens fæstepenning). Dægileg er konan sem kálið gerði (63; fullkomlega misskilið, á d. Thelig er konen sem kålen hun gjorde = Þvílík er konan sem kálið er hún gerði (sauð); Thelig = dæilegur!). Eg gef ei mitt höfuð fyrir hundrað merkur (82; þessi málsh. lítur allíslenskulega út, en höfuð er rángþýtt eða afbakað úr håb, á d. Jeg giver ej mit håb (= von) for hundrede mark).[2]) Gamlan skal færa en úngan læra (117; færa f. æra, á d. Den gamle skal man ære osfrv.). Gjarnan liggur úngur rakki meðan gamall hundur vill (119; liggur f. leikur, á d. Ej leger rakke osfrv., á lat. ludit). Hald þú taum í höndum þá hamíngjan fer að þjer (128; taum f. þumal(fíngur), á. d. Hold 'tummen' (ɔ: tommelen) i næven når dig falder lykken til). Hver sem leitar í mörgum brunnum finnur eld (!) í einhverjum (165; eld f. eitur, á d. Hvo som leder mange vand han finder edder i somme). Kasta mjer hvar þú vilt, kvað vantrúin, nema í vatnið (188; vantrúin?!, hvernig í ósköpunum á það að skiljast?; hjer er dæmi tvenns, mislesturs og tilraunar til umbótar; í frumhdr. hefur staðið ot^v^in, þetta verið lesið sem „ótrúin" og það svo gert að betri íslensku með því að setja „vantrúin" í staðinn; en „ot^v^in" átti að lesa „oturinn", og þá verður alt skiljanlegra; á d. Kast mig hvart (= hvorhen) du vil, sagde odderen, uden i vandet). Láttu upp sekkinn meðan gæsin gefst (196; þetta er eiginlega óskiljanlegt; á. d. Lad op sækken medens grisen gives; þ. e. opnaðu sekkinn, þegar grísinn er þjer gefinn, ɔ: til þess að flytja hann í). Lítil er vilja raun ef ekki er nema ein baun (205; hjer er „baun" óskiljandi, en rímar við „raun" og svarar til d. Liden er vilje rön, var det ej uden en bön, en „bön" er = bón, og þetta hefur Guðmundur sett í sviga). Margir hlutir ifast (efast) áðren satt kennist (214; hjer er ránglesið „ifast" f. „ífast" þ. e. ýfast, á d. Mange ting öppes

---

[1]) Jeg rita dönsku málshættina með nútíðarrjettritun.
[2]) St. hefur hop eða hóp og er það nær því rjetta.

og sandhed rönes). Nær konan er drukkin, er kossinn falur (245; hjer er „kossinn“ tæplega sett fegurðar eða blygðunartilfinníngar vegna, heldur af hreinum misskilníngi; í d. stendur orð með u f. o). Svo góð er ósk í dag sem önnur á morgun (329; hjer má skilja það sem stendur, en efalaust er „önnur“ rángt fyrir „tvær“ — „ii“ líklega mislesið —; á d. Så godt er ønske i år som to ad åre). Þræll ber þrá í leik (410; þræll f. tröll = þussi; á d. Trold bærer trå i leg). Í málsh. Girð svo garð, að gap (hlið) sje við endann (120) vantar víst „ei“ á eftir „sje“ (sbr. d. „at der vorder ej gab“).[1]) Alveg óskiljandi er: Húngrað malt dregur annað í hári (157); það er á d. Et hungred mål drager andet i hår, meiníngin er: „máltíð sem maður gengur húngraður frá, heimtar bráðlega nýja máltíð“.

Sumt af þessum vitleysum er, eins og sjá má, mislestur á skrifuðum orðum, hvort sem það er mislestur Guðmundar sjálfs eða hann er eldri; hvort sem heldur er, sýnir það greindarskort hans, að hann hefur tekið þessar afbakanir og annað sem óskiljanlegt var upp í safn sitt. Aftur annað er auðsjáanlega misskilníngi þess, sem þýddi orðskviði Pjeturs úr dönsku, að kenna. En þetta sýnir aftur efalaust, að þeir málshættir frá Pjetri, sem eru að finna í söfnum og ekki eru samnorrænir (eldri), eru pappírsþýðíngar einhvers, líklegast þegar á 16. öld, og hafa svo smám saman afbakast í meðferðinni, að svo miklu leyti sem afbökunin (eða misskilníngurinn) stafaði ekki frá þýðandanum.[2])

Alt þetta, sem hjer hefur verið sýnt, veldur því, að beita verður mestu varkárni og krítík við safn Guðmundar og notkun þess, og hef jeg grun um, að fleira sje rángt og afbakað en það, sem jeg hef fundið. Ýmislegt fleira má að finna; Guðmundur hefur oft ekki vitað, við hvað var átt; þegar „kálfskinn“ er ritað með litlum staf í „Á Kálfskinni var Hrærekur mest metinn“, er það rángt; hjer er átt við bæinn Kálfskinn í Eyjafirði,

[1]) Vantar ekki líka „ekki“ í málsh. Það eru alt stúdentar sem lángan hafa lokkinn (375)?

[2]) Annars verður ekki annað sagt en að þýðíngarnar sjeu fremur góðar og oft smellnar, en oft er orðum vikið við og getur þar af leitt, að skilníngurinn víkst eða vinst ofurlítið.

þar sem Hrærekur konúngur lifði sína síðustu daga (sbr. Ólafss. helga), og fleira er þesskonar (t. d. „sveinn“ og „steinn“ á víst að skrifa með stórum staf 84: Einn er leppur á Sveini, annar á Steini). Málshættir úr bók Guðmundar eru oftast ekki merktir, en einstöku sinnum með GJ.

Í tveimur Bessastaðaskólaboðsritum (1843 og 1847) gaf Hallgrímur Schevíng út málsháttasafn eða -söfn. Í formála sínum (1843) skýrir hann frá heimildum sínum; þær eru: handrit með safni sjera Eyjólfs á Völlum, aukið af Jóni Árnasyni (sbr. áður); Hallgrímur segist hafa fundið þar nokkra málshætti, sem GJ (safn Guðmundar) hafi ekki; — nokkur blöð með málsháttum frá sjera Jóhanni Tómassyni eftir föður hans; — tvö söfn frá sjera Einari Thorlacius í Saurbæ; — fornkvæðisbrot ɔ: Málsháttakvæði; — nokkur málsháttakvæði frá síðari tímum (Bjarna Gissurssonar ofl.); — fornsögur; — íslensk og norsk lög; — og loks daglegt mál. Málsháttasafn Schevíngs er efalaust hið sjálfstæðasta og besta, sem gert hefur verið, en tilgángur hans var að safna „viðbót“ við hin eldri söfnin; því er það ekki svo víðtækt (þó bæði heftin til samans 91 síða; ef gerðir eru 30 málshættir á hverri síðu — sem lætur nærri — að jafnaði, verða það um 2800. Þó hefur Schevíng ekki allfáa, sem og finnast í GJ. Stafrófsröðin er notuð. Söfn Schevíngs eru merkt S.

Loks er málsháttasafn nokkuð í 4 árgöngum af almanaki Þjóðvinafjelagsins, 1903—5 og 1907, í stafrófsröð. Hvernig það er tilkomið, veit jeg ekki; úr Guðmundarsafni er það ekki beinlínis tekið vegna smáafbrigða, sem þar eru, en annars eru flestir málshættirnir þeir sömu sem þar; nokkrir eru ekki í GJ. Merktir A.

Jeg skal nú gera grein fyrir þessu mínu safni. Jeg hef þegar sagt, að jeg hafi sjálfur tínt málshættina úr fornritum og kvæðum, og jeg hef getið um safnið í rímnabókinni. Alt það sem tækt var af þessum málsháttum, svo og úr safni H. Gerings, er hjer í safninu. Svo er tínt úr öllum hinum söfnunum, er nefnd hafa verið, alt það er tækt þótti; og ef til vill meira en minna, en það vildi jeg heldur en hitt. Jeg hef tekið alla þá málshætti, sem svo mega kallast eftir íslenskum skilníngi. Hvort

það sjeu nú málshættir alt saman, er notaðir hafi verið svo og svo lengi þar eða þar, getur enginn sagt. Sumir málshættir eru algengir um alt land og það frá fornöld, en aðrir hafa vafalaust verið og eru enn bundnir við einstöku hjeruð; margir hafa dáið út og aðrir fæðst í staðinn eins og alt annað. Af ýmsum orðum og framburði þeirra má stundum sjá hve gamall málsh. er; þannig er t. d. málsh. Betra er að breyta vel en heita vel ýngri en segjum 1550; ey er hjer borið fram sem ei. Samanlagðir ættu þeir að sýna hugsunarhátt Íslendínga, lífsskoðun þeirra, þeirra „náttúrlegu heimspeki“ (philosophia popularis í formálanum fyrir Guðmundar bók).

Það sjest af öllu þessu, að fyrir mjer hefur ekki vakað að safna nútíðarmálshættum eingöngu, heldur hef jeg viljað búa til sögulegt safn, og frá því sjónarmiði vildi jeg láta skoða safnið. Jeg bið sjerstaklega þá, sem ætla sjer að dæma það, að gæta þessa atriðis.

Nú mætti segja, að jeg hefði átt að taka úr handritunum sjálfum eftir aldri þeirra og tilgreina þau. Þá mundi fást enn betra yfirlit yfir sögu málsháttanna. En þessu er ekki svo farið. Söfnin sjálf eru auðvitað ófullkomin og af handahófi gerð, og þessi handrit sýna als ekki aldur málsháttanna. Ýngstu handritin geta vel haft málshætti eldri en þá sem handrit einu eða tveim hundruðum árum eldri hafa og væri því ekki nema villandi að tilgreina handritin. Það er enginn vafi á því að flestir af þeim málsháttum, sem til eru, eru eldri en segjum frá því um siðbót. Annað mál er það, hvort ekki sje rjett að gefa út þessi málsháttasöfn eða þau helstu þeirra. Það væri allerfitt og kostnaðarsamt verk og að minni hyggju lítt þarft — og margar endurtekníngar af því sama; þó mætti komast hjá þeim. Slíka útgáfu hefur als ekki verið minn tilgángur að láta í tje.

Fjöldinn allur af þessum málsháttum er af útlendum rótum runninn og miklu fleiri en getið er í skýríngargreinunum, eins og síðar verður á drepið. Í þessu safni eru t. d. vel 250 komnir frá Pjetri Lála. Mjer þótti það varúðarvert að sleppa þeim öllum, sem frá honum stafa; bæði eru sumir samnorrænir, og margir aðrir gætu verið það, og svo vel eru þeir margir samdir á íslensku, að

ætla má, að þeir hafi verið hafðir um hönd, og er það ekki óeðlilegt og því síður ómögulegt, þó að þeir sjeu til komnir eins og áður var frá skýrt. Sumir eru vitanlega hafðir um hönd enn í dag.

Meðan jeg dvaldist í Reykjavík sumarið 1920 rannsakaði jeg málsháttasöfn þau, sem eru í Landsbókasafninu; en á þeim var lítið að græða, því flest alt af því sem þar finst er og í öðrum söfnum. Þó fann jeg nokkra þar, sem jeg hafði ekki áður fundið; þá merkustu hef jeg tekið upp í Viðbætinn. Þau handrit sem hjer koma til greina helst eru: 225, 4to, allmikið safn einkum eftir Hannes Finnsson, 240, 4to, 241, 4to og sjerílagi 300, 4to. Þar er allmikið safn (eða söfn), sem Páll Pálsson hefur verið viðriðinn, fylt og aukið og tilgreint heimildir. En í þeim söfnum er líka mart, sem ekki eru málshættir.

Loks er safn af málsháttum í 35, 4to (pap.) í ísl. safninu í Stokkhólmi; það eru 33 blöð, en vantar í mjög mikið (frá því í b til í f, alt g og upphafið á h, frá því í m og aftur í þ og vantar þar að auk meira af endanum). Þetta safn hefur verið allstórt og eitt af þeim eldri (frá 17. öld). Það er hjer merkt St., en ekki ýkja margir málshættir nýjir teknir upp úr því í Viðbætinn.

Jeg hef því miður engin föng haft á að safna málsháttum, er nú tíðist á Íslandi; og býst jeg því við að margs verði saknað af hinum og þessum lesanda. Væri mjer kært ef lesendur vildu senda mjer málshætti, er nú tíðkast og ekki eru í safninu; ef nógu margir kæmust mjer í hendur, mætti búa til viðaukasafn, og einmitt hægra um vik að gera það, nú þegar þetta safn er út komið.

Málsháttunum hef jeg skipað eftir því sem nú tíðkast, eftir aðalorðinu, sem í þeim eru, og aðalorðunum eftir stafrófsröð. Reyndar getur stundum verið álitamál, hvað aðalorðið sje, og stundum eru þau fleiri en eitt, tvö og jafnvel þrjú; ætti þá málshátturinn að standa tvisvar (eða þrisvar); það þykir óþarfi, og má fullvel ráða bót á því með tilvísunum, og svo er hjer gert. Tæplega hygg jeg, að skotaskuld verði úr því að finna það, sem leitað er að.

Málsháttunum við hvert orð hef jeg reynt að skipa samstæðilega eftir skyldleik þeirra á milli, en slíkt er oft hægara sagt en gert, og þar að auk komið undir

áliti. Sumstaðar er slíkt auðvitað ómögulegt. Verst hef jeg átt með málshættina með „illur“.

Það er auðvitað, að jeg hef notað helstu rit við samníngu þessa safns, er til greina þurfa að koma. Tel jeg þar helst til hið norska safn Ívars í Ási (Ivar Aasen), 2. útg. 1881, hið mikla danska safn E. Maus, útg. 1879, og svo hina ágætu útgáfu A. Kocks og C. af Petersens af málsháttabók P. Låles 1889—94; þar er einatt vísað til íslensku þýðínganna. P. Syv: Almindelige danske ordsprog I—II 1682—88 hef jeg og notað.

Í skýríngargreinunum hef jeg einkum getið þess, hverjir málshættir sjeu hjá Ívari Aasen og Pjetri Lála, er svari til hinna íslensku. Málshættir Ívars eru flestir erfðir frá fornöldinni og eru því skilgetnir bræður hinna íslensku; og er fróðlegt að sjá skyldleikann; sumir eru líklega teknir frá Pjetri eða komnir til Noregs frá Dönum, og er þá líka fróðlegt að sjá það. Jeg hef vísað til málsh. „á d.“, og er þá átt við safn E. Maus, en þar er alt safn Pjeturs Lála og P. Syvs. Svíar eiga líka merkileg málsháttasöfn (einkum eitt eftir Grubb), en hjer hefur ekki verið ástæða til að nota þau, því að það var ekki tilgángur minn að rekja uppruna allra málshátta eða bera þá saman við málshætti annara þjóða, það hefði orðið óþrotlegt starf.

3. Hver sem með athygli rannsakar íslenska málshætti mun brátt komast að raun um, að þeir skiftast í 2 aðalflokka eftir því hvort þeir eru innlendir eða útlendir. Það væri mesti misskilníngur að halda, að þeir væru allir eða jafnvel flestir innlendir (þ. e. norrænir, stafandi frá Noregi líka og komnir með landnámsmönnum). Málshættir eru, eins og ævintýrin og svo mart í þjóðtrúnni, allra landa góss. Vjer finnum oft sama málsháttinn í öðrum löndum bæði að fornu og nýju; vjer finnum þá hjá Rómverjum og Grikkjum og í miðaldalatínu; jafnvel þá, sem minst varði. T. d. málshátturinn í hinu gamla kvæði: „Tungan leikr við tanna sár“ (þ. e. við sár við tennurnar eða tannbrot) finst á latínu svo: Huc ubi dens sensit læsuram lingua frequens it [1]); Hamra skal járn meðan heitt er = lat. Ferrum lumen

[1]) Þessi latínsku dæmi eru tekin úr formálanum fyrir útg. af P. Låle.

dum est in eo feriendum; Ekki fellur trje við fyrsta högg = Quercus magna solo non est ictu data solo, osfrv. Og vera má, að einmitt flestir af málsháttunum sje ekki „innfæddir“, ef vel væri athugað. Allir þeir málshættir, er eiga við það, sem ekki er til á Íslandi, eru auðvitað útlendir; allir þeir sem eiga við dýr, sem ekki hafa verið á Íslandi (úlfa, birni, hjera osfrv.), allir þeir sem benda til siða, menníngar og þess konar, sem aldrei hefur íslenskt verið, bera það með sjer, að þeir eru ekki til orðnir á Íslandi, og þeir eru æðimargir. En hitt er líka eins víst, að margir bera það með sjer, að þeir hafi myndast á Íslandi, en örsjaldan fáum vjer vitneskju um tímann og staðinn. Þó er að minsta kosti svo um nokkra, t. d. einmitt um málsháttinn, sem áður var getið: Stattu kyrr, hafa skaltu þrjú hundruð; á meðan á bardaga stóð hjeldu tveir menn öðrum manni, er til móts var, svo að hann gat ekkert aðhafst, fjekk heldur ekkert sár; þó voru honum dæmd 3 hundruð fyrir haldið, og úr því varð málshátturinn til, og er ekki laus við háðblæ. Annar er: Höfum nú veisubragð; frá uppruna hans er skýrt í Ljósvetníngasögu (Ísl. forns. I, 212). Á líkan hátt hafa og ýmsir aðrir myndast, þar sem annaðhvort íslensk mannanöfn eða staða koma fyrir, þó að nú sje sagan gleymd, t. d. Kemur til Teits og Siggu, Kemur að gátu Guddu, Hvað skulu börn í bát við Björn, Nú er gleði (glatt hef jeg heyrt) á Hjalla, Hjer land og þar land og nóg er alt Ísland, Grimmur er sá góudagur sem ekki tekur í Hlíðarfjall osfrv. Heldur ekki er vafi á því, að ýmsir af málsháttunum um sauð og ref, kú og hest og hrafn eru upphaflega íslenskir; eða málshættir sem Betri er lítil rekavon en mikil skriðuvon, Ekki verður grunnúnginum ginskortur, Það stenst á endum strokkurinn og mjaltirnar — og þar fram eftir götunum. Ekki má það villa mann, að málshættirnir eru stundum eða oft sem vísuorð með hljóðstöfum eða jafnvel tvö vísuorð. Málshátturinn getur verið útlendur fyrir því. T. d. Fanta knífur er fyrstur í fat, Sá deyr enginn sem dýrt kaupir, Oft gjalda stofudyr stafkarla reiði, Margur fær lof fyrir lítið og last fyrir ekkert (ekki parið sagði skáldið) (á d. Man fanger ofte lov for lidet og last for halve mindre).

Ein tegund málshátta eru þær setníngar, er hafðar eru eftir manni, hvort sem hann er nafngreindur eða ekki; er þá sagt „sagði N. N." (eða karl, kerlíng osfrv.). Ef til vill hefði verið rjettast að hafa þessa málshætti í flokki sjer, en jeg hef ekki álitið það nauðsynlegt, og hef þar fylgt skipulagi Maus; Ívar í Ási hefur þess konar málshætti meðal talshátta aftan við aðalsafnið, en það er óefað miður rjett, og að minsta kosti rengra en að slengja þeim saman við þá.

Að lyktum skal þess getið, að jeg hef svo að segja ætíð tekið málshættina óbreytta, eins og þeir eru í söfnum Guðmundar, Schevíngs og öðrum, en stundum bætt við helstu afbrigðum í svigum. Aftur á móti hef jeg ekki tekið þau afbrigði, er að eins eru þýðíngarlaus orðamunur (orðin í annari röð, „sjaldan" f. „ekki" eða þess konar). Það má því búast við, að sá og sá lesandi þekki ýmsa málshætti í ögn annari mynd en þeir hafa hjer.

Kaupmannahöfn, í septembermán. 1920.

*Finnur Jónsson.*

# A

**á** At ósi skal á stemma (SnE. I 288).
Allar girnast ár í sjá (M).
= Allar ár falla í sjáinn.
Sbr. bekkur 2.
**ábati** Mikið er til ábatans unnið (S).
**abbadís** sjá broslegur.
**ábótavant** Öllum er nokkuð ábótavant.
**ábóti** Seint heilsar ábóti systur sinni.
Sbr. brotlegur, múnkur.
**aðfángadagskvöld** Ekki er ætíð aðfángadagskvöld (S).
**af** Af er það sem áður var (S).
**afarmenni** Ilt er að egna afarmenni (S).
**áfátt** Sjaldan er það að einkis sje áfátt (Tristrs. 8).
Sbr., baugur.
**afbragð** Afbragð elska flestir.
**afbrigði** Það er ekki afbrigði sem allir hafa (S).
**afdrif** Að afdrifunum spyrja allflestir. Sbr. lok.
**afglapi** Ómæt eru afglapa orð (Laxd. 303).
Seint er afglapa að snotra (Fas. III 585).
Eitt er afglapa tíðast.
**afi** Oft er honum afa mínum brugðið.
**afl** Afl fylgir aldri (S).
Afl er best í hverjum leik (S).
A aflið treysta allflestir.

Í áþrifum sjest aflið best.
Oftæki hnekkir afli (S).

**afnámsfje** sjá arfi 1.

**afsprengi** Oft skammast afsprengi ættar sinnar (S).

**afspríngur** Oft verður af litlum upptökum mikill afspríngur (S).

**afturrjettíngur** Afturrjettíngar láta mest.

**agi** Betri er agi en ofmikið sjálfræði (S).

**ágirnd** Ágirnd vex með eyri hverjum.
Ágirnd etur sig aldrei metta (S).
= Aldrei verður ágirnd södd.
Sbr. kvörn.

**ágjarn** Als þykist ágjarn þurfa (A).
Seint leiðist ágjörnum aurasafnið.
Alt eykur ágjörnum áhyggju.
Óttinn kvelur ágjarnan (S).
Ágjarn veldur sjálfur sinni eymd.
Ágjarnir menn eru þurfamanna þrælar.
Ágjarn er í ætt við þjóf (S).

**agn** Ilt er að sækja agn í arnarklær.

**ágæti** Hver hefur til síns (sjer til) ágætis nokkuð (Nj. 366, S).

**ágætur** Enginn verður ágætur af engu.
— Fátt er svo ágætt að eigi finnist annað slíkt (Máguss. 2).

**áhyggja** Áhyggja bítur sárt sem bíldur (Parcev.s. 18).
Aldrei dettur áhyggjan um koll ef atorka fylgir.

**aka** Þeim á ekki úr að aka sem alstaðar fer á kaldan klaka (S).

**ákefð** Betri er ákefð en áranna fjöldi.

**Áki** Ilt hefur Áka verið, hann vildi ekki grautinn.
Ekki bíta járn á Áka.

**akur** Frjósamur er fátækra akur.

**alda** Eftir storminn lifir aldan.

**aldraður** Aldraða láttu ofarlega sitja.

**aldur** Oss var áður of markaður aldur (úr vísu Hrómundar Ldn. 162).
Einu dægri var mjer aldur af skapaður (Skírnism.).
Alt á sjer aldur og æfitjón.
Ekki fer alt eftir aldrinum (S).
Aldur er misjafnastur.
Aldur væntir elli.
**algerður** Að augnabragði verður enginn algerður.
**áll** 1 Nú skyggir í álinn.
**áll** 2 Ilt (Afslept GJ) er áls haldið (S).
**allur** Alt er til einhvers (S).
Alt tekur enda um síðir (S).
Þá er alt þegar þrent er.
Enginn hefur alt og engan vantar alt.
Engum er alt ljeð, nje als varnað (Heil.m.s. II 46).
Enginn kann alt og engum sómir alt.
Alla brestur eitthvað (S).
Ekki hleðst svo alt á einn að ekki fylgi löstur neinn (S).
Als er vant þeim ekkert á (S).
Að öllu þykir nokkuð (S).
Ekki er hver allur þar sem hann er sjeður (S).
Þar er allur sem unir.
Muna far alt í sundi (Sig. sk.).
**almannarómur** Sjaldan lýgur almannarómur.
**almæli** Mikið skal til almælis hafa (K).
**alvaldur** sjá raun.
**alvara** Öllu gamni fylgir nokkur alvara (S).
Alvara og gaman eiga illa saman.
**amboð** Amboðalaus er altnær handlaus.
**amen** Það er seint að segja amen þegar allir djáknarnir eru þagnaðir (S).
**ami** Amalaus er enginn maður.
**án** Það er minstur án að vera ils án (PS).

**andlit** Enginn skyldi ilt mark á andliti sínu taka (eða: ólund á andliti marka).
**andremma** Andremmu sína engi kennir sjálfur.
**annar** Hver ætlar annan eftir sjer (S).
= Maður þekkir a. af s.
Annars ræðir margur of far (M).
Auðsjenna er annars vamm (M).
Engi knettur of annars mein (M).
Fáir gráta lengi annars ógæfu.
Fáir sníða sjer mjóa lengju af annars húð.
Margur teygir annan á tíkarroðinu.
Engum er ár í annars óförum.
Engum er happ í annars falli.
Ekki er það mjer gott þó öðrum fjeni, sagði eigingjarn (S).
Bágt er fyrir annars geð að gera.
Bágt er öðrum mat að kjósa (S).
Enginn sjer annan lengra en til tannanna.
Ilt er að vera upp á aðra kominn (S).
Ilt er að ljá það annar á (S).
Afslept er annars (láns) glys(ið).
Þar vill annar til fjalls, annar til fjöru.
Önnur eys en önnur fyllir.
Sbr. ágætur, auður, ör.
**annes** Ekki verður fyrir öll annesin girt (PS) (nesin róið).
**annmarki** Enginn veit sinn annmarka.
**annríki** Oft er æði í annríki.
**annvirki** Legið hafa mjer annvirki nær garði (Grett. 73).
**ánægja** Ánægjan er auðlegð betri (A).
—**api** Api er api þó af honum sje stýfður halinn.
Alt hermir apinn eftir (S).
Margur verður af aurum api (Hávam.)
**ár** 1 Mart ár mart fár. Sbr. ákefð.

**ár** 2 Misjafnt koma menn ár sinni fyrir borð.
Mörgum flotar ein ár til lands (S).
Það er uggvænt hvar áralaus lendir.
**arður** Betri er sígandi arður en snúandi (Bisk. I 139).
**arfi** Hvergi vex arfi utan á haugum.
**árflóð** Jafnan verður að árflóð stakar (M).
**arfur** Fleira er í arf að taka en auðæfi ein (K).
Margur skiftir auði fyrr en arfur fellur.
Margur hlýtur (verður) óskapa arfinn.
**árgali** Eldist árgalinn nú (Mork. 51).
**argur** Argur er sá að engu verndar (K) (sem engu verst GJ).
Bágt er argan að arta.
Engi er svo argur, að ekki fylgi nokkuð gott (S).
Engi er svo argur, að eigi megi á hann ljúga (S).
Enginn er svo argur, að hann eigi sjer eigi stallbróður (K).
Hvað skulu örgum auðæfi.
Þar er örg vættur sem hún er nefnd (Fas. II 254).
Sbr. þræll.
**árla** Sá árla rís verður margs vís (S).
Árla á fætur bú bætir (S).
Árla skal rísa sá gull vill í götu finna (A).
**armur** Fáir þykjast armir í ölteiti.
**ársæll** Ekki eru allir eins ársælir (ást-).
**árvakur** Árvakur þrífst en fátækt fylgir lötum.
**ásjóna** Hægt er að venjast ófríðri ásjónu (S).
**aska** Ekki veit hvað í öskunni er fólgið.
**asni** Auðkendur er asninn á eyrunum (S).
**ást** Hvarkvæm (við- GJ) er ástin (Herm. og Jarlm.s.).
Ást er öllum hlutum kærari (Parc. 22).
*Ástin spyr ei að jafnræði.
Svíða sætar ástir (Flóv. 161).
Ástar hugar oftast saman rata.

Ástin dregur sig ekki í hlje (S).
Ást er ei auðfólgin.
Ástin hefur augun í hnakkanum.
Ástin er ei álitsvönd.
Ást hylur lýti.
Ást fæðir auðsveipan (S).
Sú er ástin heitust sem með meinum er bundin.
Ilt er að leggja ást við þann sem enga kann á móti.
Ekki eru allar ástir í andliti fólgnar.
Brigðul er kvenna ást (S).
Þángað leitar ástin sem auðurinn er fyrir (S).
Lengi býr um barnaást (S).
Heit er lánardrottins ást (G).
Svo fyrnast ástir sem fundir.
Ást vex með vana (PS).

**ástfóstur** Auðþekt er ástfóstrið.
**ástsæll** Oft á sjer ástsæll öfundarmann.
**áta** sjá drekka.
**atburður** Atburður er til als fyrst.
**atföng** Atföng skal auka sem engin sjeu.
**atgeir** Heima er atgeirinn.
**athuga** Athuga þig, oddur er líka á ör minni.
**athugi** Athugi varnar best voðanum.
Hlýtur jafnan ilt af athugaleysi (Grett. 94).
**atkvæði** Atkvæði verður öllu að fylgja.
**Atli** Atli sveik hann Börk.
**atlæti** Gott atlæti er gjöfum betra.
**atorka** sjá áhyggja.
**Auðbjörn** Ekki hafði Auðbjörn alt það hann þurfti.
**auðbúi** sjá auðna.
**auðfengi** Óvirt er auðfengi en ofvirt torgæti (S).
**auðgintur** Auðgintur fær ætíð spje.
**auðinn** Fer þá sem auðið verður (Reykd. 31).
Alt tekst sem auðið skal verða (S).

**auðlegð** sjá auður.
**auðna** Engi ræður auðnu sinni sjálfur (S).
Auðna styður öflgan hug (S).
= A. ræður öllum hag.
Auðnan er einhlítust.
Ilt er að sigra auðnumanninn (S).
Allir spjá auðnulausan (S).
Oft eru auð(n)búar auðnulitlir (S).
Bágt er að koma saman ógiftu og auðnu.
Blanda ei ógiftu við auðnu.
Af útförum sjest auðna seggja.
Sbr. iðni.
**auðnbúi** sjá auðna.
**auðugur** Hver er auðugri en þykist (Fas. II 359).
Fáir verða auðugir af ærlömbum og innhýsíngum.
Álnir hamla auðugum að flýja (S).
Mart háir auðugs fje.
**auður** 1 Auðurinn er afl þeirra hluta sem gera skal.
Auðurinn bætir alla skák, ef ei er mát á borði.
Auðlegðin eflir dug en eykur hug.
Lítið stoðar auður án yndis (S).
Auðs er vant við iðjusemi.
Svo er auður sem augabragð (Hávam.).
Ilt er auði að trúa.
Margan hefur auður apað (Sól.).
Rángfenginn auður er volæði verri (A).
Auðs af illum gróða ei gleðst þriðji niður.
Auðurinn er ekki húsbóndavandur (A).
Oft gengur auður fyrir mannkostum (S).
Margur hyggur auð í annars garði.
Sbr. ánægja, ást, fátækt.
**auður** 2 Ekki er þar autt sem hnoðrinn húkir.
**auðæfi** sjá arfur, argur.
**auga** Betur sjá augu en auga.

Auga sjer alt og sjer þó ei sjálft sig (Heilm.s. I 454).
Það sjá augun síst sem nefinu er næst.
Augun eru best í hverjum leik.
Engum er gagn að þeim augunum sem hann sjer ekki með (S).
Ekki er alt sem augun dæma (S).
Unir auga meðan á sjer (Völs. 10).
= Þar er auga sem unir (S).
Eigi leyna augu ef ann kona manni (Gunnl.s., K, oft).
Augað gerir margan uppvísan (S).
Fýsir augun ilt að sjá og eyrun ilt að heyra.
—Aldrei skyldi ilt auga gott sjá.
Fleiri hafa augu en ernir.
Verkir í veik augu (K).
= Ekki er sá heill er í augun verkir (Fóstbr. 64).
Hætt er einu auganu nema vel fari (A).
Glögt er auga á annars lýti (S).
Honum (ágjörnum) eru gerari augun en maginn.
Skjótt fyllist karlmanns augað (PS).
Margur er augnaskálkurinn.
Súrnar nú sjáldur í augum.
**auka** Nokkuð eykur alt, sagði marflóin, hún meig í sjóinn.
**auli** Tregur gengur auladrengur illa grýttan veg.
**aumíngi** Aumínginn sem ekkert á einatt kinn má væta.
**aumur** Ekki er afnámsfje í aumra flíkum (S).
Aumur er sá sem enginn hnjóðar í (S).
—Aumur er sá sem enginn ann.
Fátt er aumum ofgefið.
Flest vill aums fje ama (S).
Auman er fljótt að firta.
Aumur jafnan vosi venst (S).
= Venst aumur (vesæll GJ) vosi (S).
Aumur er ærulaus (aga-, ást-, iðju-, öfund-) maður.

Ást fylgir aums gjöfum (Hugsv. 36).
Ekki eru einskis virðandi aumra ráð (S).
**aurar** sjá api.
**ausa** Ausa verður þó á gefi.

## B

**baðstofa** Mart er baðstofu (sjómanna, selkvenna) hjalið.
**baga** 1 Ber ei fram bögur, lýti eru fáum fögur.
Þú brosir að bögum, lætur lítt yfir lögum.
**baga** 2 Altjend bagar eitthvað.
**baggi** Jafnir baggar fara best.
Hollur er heimafenginn baggi.
Rýr er heimburðarbagginn.
Ekki veit hvar bagga rekur að landi.
Honum er ekki um baggana þína.
Laus er bandlaus baggi (PS).
Hann er með (ann) böggum Hildar en Hildi ei sjálfri.
**bak** Margur beygir bakið en ber þó lítið heim.
Ber er hver á bakinu nema sjer bróður eigi (Grett. 185).
Breiðari mun um bakið (Nj. 94).
Sbr. bróðir.
**baka** Baka þig meðan eldurinn brennur.
**bakarabarn** Ekki þarf að gefa bakarabarni brauð.
**bál** Af litlum neista verður oft mikið bál (A).
**Baldur** 1 Fátt er ljótt á Baldri.
**baldur** 2 Það er hvers baldur sem hann ber (S).
**banabára** Enginn stýrir banabáru.
**banadægur** Bregður hverjum á banadægri (S).
**banasár** Ekki tjáir að binda um banasárið.
**banaspjót** Hver ber eftir öðrum banaspjótið.
**band** Aldrei er bagi að bandi (S).
Á öllum böndum liggur nokkuð.
**bandíngi** Æ kveða bandíngja bifast (Fáfn.).

**Bár** Það er ekki mjer í hendi sem úti er í Bár.

**bára** Oft rís bára af bröttum grunni.

Þegar ein báran rís er önnur vís (S).

Sjaldan er ein bára stök.

Margan blekkir báran.

**Barði** Brimar (bryddir) fyrir Barða (S).

Seint bólar á Barða.

**barmsparað** Betra er barmsparað en botnskafið (S).

**barmur** Barmurinn er heimskra manna hirsla.

Þú tekur ekkert úr þínum barmi nema flær og lýs.

**barn** Barnalán er betra en fje (A).

Daufur er barnlaus bær.

Gaman er að börnunum, sagði karl, átti 7 börn og áttunda umskiftíng.

Sæll er sá í heiminum sem engin börnin á.

Barna mæður skaltu þjer bestar velja.

Barn er móðurinnar besta yndi.

Bundin (birg) er sú sem barnið geymir.

Þekt hefur yngra barn móður sína.

Gott gengur barninu til að berja hann föður sinn.

Hvert skal barninu bregða.

Bregður barni til ættar.

Betra er að barn gráti en faðirinn fargist.

Eitt barn er sem ekki neitt, tvö sem tíu (S).

Fáir kunna eitt barn að eiga (A).

Fáir kunna eitt barn að aga.

Brauð er barns leika (K) (leikur, huggun GJ).

Á misjöfnu þrífast börnin best.

Barn það hefur lítið sem bítur sinn borðdisk.

Blindur er barns magi.

Vaxa börn þó vatn drekki.

Annars barn er sem úlf að frjá (M).

Barn er barn.

Barn gefur barns svör (S).

Allir hafa börn verið (S).
Skal nú hafa barn það er brekar (Þiðr. I 168).
Þángað stundar barn sem það finnur sinn líka (S).
Lík börn leika best.
Tamur er barns vaninn.
Gef ei barni nema biðji.
Mæla börn það vilja.
Það er ekki alt best sem barninu þykir.
Bráðir eru barns hugir (Beverss. 262) (barns þörfin GJ).
= Bráðlát er barns lund (S).
Lítil er barns huggun (K).
Lítilþæg eru litlu börnin (S; smáþæg eru b. GJ).
Hægt er brátt barnahönd að fylla.
Þegir barnið meðan það borðar skötufótinn.
Hafi það barnið sem betur tekur við.
Bragð er að þá barnið finnur (S).
Lengi muna (vita) börn hvað við sig er átt (S).
Ekki grætur barnið ef það fær allan sinn vilja (S).
Barna mátt vænta sem breytir við feðgin.
Blautt er barns holdið.
Gott barn kveður góða vísu (S).
Samt er gott barn við sig.
Auðgint er barn í bernsku sinni (A).
Barn segir jafnan sannleik.
Á gólfi skyldi gott barn sitja.
Brent barn forðast eldinn.
Flest eru börn gædd með brekum.
Lengi grætur hálfbarið barn.
Þúngt stynur þrábarið barn.
Barn má skríða til þess gengið getur.
Með bössum verða börnin.
Bera skal barn heldur en draga.
Oft mega börn bera brixli foreldra.
Gott er að hafa barn til blóra (S).

Fjandur eru börn á búi.
Vex börnum vit sem vetur fjölga (S).
Vægja skal viti barna.
Virðíngar ráða viti barna (PS).
Berja skal barn til batnaðar (ástar S).
Heimskt er heimaalið barn (S).
Læra börn það á bæ er títt (S).
Á báðar hendur skal til barnanna líta.
Agalaust barn verður ófyrirlátsamt.
Barn er svo í bý bært sem það er heima lært.
Gera skal börnum upp orðin.
Því læra börnin málið að það er fyrir þeim haft.
Spakt skyldi elsta barn og vel vanið (K).
Að þykir barninu þá það grætur (K).
Mart er barna bölið (S).
Snemma taka börn til meina.
Ekki veit að hverju gagni barn verður (S).
Barnið vex en brókin ekki (S).
Oft verður eftirlætisbarn ángur sinna foreldra.
Hvað skulu börn í bát við Björn.
Kemur enn barn frá Hólmi.
Vel stíga börnin.
Þar er ei við börn að berjast sem hann er.
Þessi börn draga það út.
Sbr. belgur, brek, brunnur, dreyma, fátækur, fóstra, móðir.

**barnkona** Það gildir einu hvað í barnkonu er borið (S).

**barnórar** Oft brjótast með þeim barnórar, sem saman eiga að búa (S).

**barnæska** Mörgum bregður (Bregður hverjum) til barnæsku.
Brekul er barnæskan.
Fáir vilja sína barnæsku muna.

**bás** Honum er ekki markaður bás sem hvergi á heima.

**básálfur** sjá hor.
**bati** Öllum (Engum) er batinn boðinn (bannaður; S).
**batna** Oft batnar við beiskan drykk.
Ekki batnar alt þó bíði.
Hann fer batnandi sem úngur skolli.
**bátur** Sá verður að laumast með landi sem lekan hefur bát.
**baugur** Ekki þarf holan baug um það að klappa (Sex sög. 52).
Fár er svo með baugi borinn, að ei sje nokkuð áfátt (S).
**beiða** sjá brek.
**bein** a) Það þurfa sterk bein til að standast (þola) góða daga.
Betra er að hafa bein sín heil en brotin illa.
Stirð eru stöðubeinin (S).
Þess kennir á beini hvar brostin er hosa (S).
Digur bein draga best.
Ekki er smábeinum hætt.
Sjaldan brotnar bein á huldu.
Þá brann ei bein er betur skein.
b) Betra er bert bein en alls ekki.
Ekki þarf að bíta bein fyrir þann sjálfur getur.
Hverju beini verður að fylgja nokkuð (S).
Sá þarf ekki að bíta bein sem að heimboði situr (sem í hófið er settur; S).
**beina** Ekki er hægt að beina þá brjóstið er ekki heima.
**beinfiskur** Bíta mætti nú beinfiskur, ef að borði yrði dreginn (Gísl. Súrss. 135).
**beinsár** Betra er beinsár en bleyðitár.
**beinserkur** Bágt er beinserkjum að beygjast á hlið.
**beiskur** Þú hefur ekki bitið á beisku.
**beita** Flest er betri beita en berir önglar.
Oft verður beita anndrjúg þá farið er að tolla hana (S).

**bekkur** 1 Nú er setinn bekkurinn (Kvíabekkur).
Hann kann að sitja á báðum bekkjunum.
Þunnskipað er á þægri bekk.
**bekkur** 2 Betra er að stilla í bekk en á.
**belgur** Það fer úr hverjum belg sem í hann er látið (A).
Gataður belgur glopar öllu.
Þángað stundar belgur sem borinn er (S).
Betri er belgur en barn.
**bella** Ball þjer nú bófi (Eyrb. 86).
**ber** 1 Ber er hver borinn. Sbr. bak.
**ber** 2 Ef ekki er vísirinn þá er ekki berið (S).
Þessi eru berin í skyrinu.
Sbr. vísir.
**bera** Sá hlýtur að bera er veit (S).
Hann ber vel sína byrði sem aldrei þreytist.
Nær er að bera inn en út.
Fáir vilja bera af öðrum blakið.
Til als ber nokkuð (Hrólfss. 47).
Mart kann öðruvísi til að bera en menn hyggja (Mött. 22).
Margur berst á sem ekkert á (S).
Margur er borinn á bölsdegi.
**berfættur** Betra er berfættum en brókarlausum að vera (S).
**berja** Sá verður enginn barinn sem húsbóndans skipun gerir (S).
Þú vilda eg værir barin Þorfinna frú.
Betra á sá sem berst en hinn sem óþrífst (S).
Það er mánaðarbjörg að berja sjer.
**berlæraður** Sá kann ekki að bæta brók annars sem berlæraður er sjálfur (S).
**bernska** Bernska er brátt geð (Fsk. 245).
Bráðgerð er bernskan (Mork. 22; verða úngmenni; Fms. VI 195).
Sbr. barn.

**bernskur** Bernskur er brjálsamur (bráðsinnaður) maður.
**bessi** Það er ekki heiglum hent að eiga við hann bessa (S).
Lángar eigu þeir bessi nætur (M).
Hefkat ek spurt at bessa kali (M).
Vandgeymt er bessaleyfið.
Sbr. björn.
**bið** Betri er bið en bráðræði (bráður fengur; S).
Sjaldan er bið til batnaðar (S).
Bið býður öðrum inn.
**bíða** Hvað (Hver GJ) bíður sinnar stundar (Nj. 228 og o.).
Bíða má sjer til batnaðar (S).
Bíðendur eiga byr, en bráðir andróða (Alex. 119 og o.).
Sá bíður ekki lengi sem fljóta úrlausn (fl. náttverð) fær.
Lángt þykir þeim, sem búinn bíður (K).
Margur á sín lengi að bíða.
Sbr. bila.
**biðill** Biðill margur er undir blökkum stakki.
Oft er biðill seint á ferð (S).
**biðja** Ekki hefur sá einskis biðr (Þrændlur V 3).
Sá verður að biðja er bjóðendur á fá (Mág. 67).
Betra er að bjargast við sitt en biðja aðra.
Betra er að bánga en biðja.
Betra er að biðja en stela (S).
Að biðja er mönnum misjafnt lagið.
Eigi skal lengi lítils biðja (Ljósv. 215 og o.).
Brjóstgóðan er best að biðja.
Þeim er bágt að biðja um gjöf sem borga verður.
**biðlund** Biðlund á bið.
Betri er biðlund beðin en bráðlega ráðin.
Flest böl bætir biðlund góð.
**bikar** Einhver drekkur óskilabikar. Sbr. málvinur.
**bikkja** Ilt er af bikkjum bein að toga.
Af bjórum verða bikkjur leðurætnar (S).
**bila** Bilar hvern þá boðið er.

Bágt er að blindur leiði blindan.
Blindan skal á braut leiða.
Ekki eru blindir brautargengir.
Blindur ratar sjaldan rjett.
Blindur er hver í sjálfs síns sök.
Sbr. biti, bók.

**bljúgur** Betra er að vera bljúgur en blygðunarlaus.
**blóð** Þunt er það blóð sem ekki er þykkra en vatn (S).
Blóðið rennur til skyldunnar.
Þykt er það blóð sem ekki rennur til skyldunnar (S).
**blóðnætur** Blóðnætur eru hverjum bráðastar (Vígagl. 25 og o.).
**blót** Blót er breytni ljót.
**blæða** Einhvern tíma (Oft) hefur betur blætt.
**blæja** Skammur (Misheitur GJ) er blæju bríminn (S).
Blítt er blæju brumið.
**boð** Mörgum verður bilt við boð.
Oft verða beinaspjöll á boðinu.
**boði** Banahætt er á boðanum.
Brotna skal boði á skeri (S).
**boðskapur** Boðskap má jeg bera, andsvar kann jeg ei kjósa.
**boðsletta** Boðsletta hefur hvassan kníf og húngrað líf.
**bófi** Oft er bófinn ófeilinn (S).
Bófi, bófi, haf þig í hófi.
Sbr. bella.
**bogi** 1 Fyrr skýtur bogi en flýgur dúfa.
Oftar hótar boginn en hann hæfir.
Skjótt er að skjóta af skömmum boga.
Svigna má bogi fyrr en brestur.
Ef boginn er bentur um of mun hann bresta.
Boga skyldi enginn oflángt toga.
Ilt er þeim með boga sem ekki kann upp að toga (S).
= Sá fer margur með bogann sem ekki kann að toga hann.

**Bogi** 2 Allir eru börn hjá Boga (S).
**boginn** Það má ekki alt rjetta sem bogið er.
**bogna** Eigi skal bogna, kvað karl og skeit standandi (K).
Sbr. bresta.
**bók** Fyrir mörgu gerir bókin ráð.
— Blindur er bóklaus maður.
Allir voru þeir á eina bók lærðir (Þiðr. I 255).
Sbr. brjóst, blindur.
**bóla** sjá enni.
**boli** Seint fer boli og sjer þó fyrir klaufunum.
Stenst boli bragð.
Sbr. bíða.
**bolur** Bolur er kyrr þá burt er haus.
Nú gengur bolur undan höfði.
**bón** Bón vill hafa bón til launa.
Bón fylgir brjefi hverju.
Fáir neita fyrstu bón (S).
Bónasekkinn er bágt að fylla.
Bónkjálkar brotna síst (S).
Sbr. bæn.
**bóndi** Bóndinn styður bóginn undir ríkinu (S).
Bóndi á hýbýlum (húsum GJ) að ráða (Þórð. hreð. 47).
Hann er bæði bóndinn og húsfreyjan.
Bóndi er best verður, húsfreyja þar næst.
Ekki skyldi bóndinn insti koppur í búri.
Allir (flestir) eru bændur til jóla (S).
Gjarnan sem bændur gera að trana sjer í turna.
Bóndi skal beð verma, en brúður í fyrsta sinn.
Mikill er bónda rjettur (K).
Sbr. brúður.
**borð** Betra er að hafa (Ætla skal) borð fyrir báru.
**borða** Hann má borða þó hann bíti ei steikur.
**borgun** Vís er borgun hjá Brandi.
**bót** Engum er bót í annars böli (S).

Bágt er að blindur leiði blindan.
Blindan skal á braut leiða.
Ekki eru blindir brautargengir.
Blindur ratar sjaldan rjett.
Blindur er hver í sjálfs síns sök.
Sbr. biti, bók.
**bljúgur** Betra er að vera bljúgur en blygðunarlaus.
**blóð** Þunt er það blóð sem ekki er þykkra en vatn (S).
Blóðið rennur til skyldunnar.
Þykt er það blóð sem ekki rennur til skyldunnar (S).
**blóðnætur** Blóðnætur eru hverjum bráðastar (Vígagl. 25 og o.).
**blót** Blót er breytni ljót.
**blæða** Einhvern tíma (Oft) hefur betur blætt.
**blæja** Skammur (Misheitur GJ) er blæju bríminn (S).
Blítt er blæju brumið.
**boð** Mörgum verður bilt við boð.
Oft verða beinaspjöll á boðinu.
**boði** Banahætt er á boðanum.
Brotna skal boði á skeri (S).
**boðskapur** Boðskap má jeg bera, andsvar kann jeg ei kjósa.
**boðsletta** Boðsletta hefur hvassan kníf og húngrað líf.
**bófi** Oft er bófinn ófeilinn (S).
Bófi, bófi, haf þig í hófi.
Sbr. bella.
**bogi** 1 Fyrr skýtur bogi en flýgur dúfa.
Oftar hótar boginn en hann hæfir.
Skjótt er að skjóta af skömmum boga.
Svigna má bogi fyrr en brestur.
Ef boginn er bentur um of mun hann bresta.
Boga skyldi enginn oflángt toga.
Ilt er þeim með boga sem ekki kann upp að toga (S).
= Sá fer margur með bogann sem ekki kann að toga hann.

**Bogi** 2 Allir eru börn hjá Boga (S).
**boginn** Það má ekki alt rjetta sem bogið er.
**bogna** Eigi skal bogna, kvað karl og skeit standandi (K).
Sbr. bresta.
**bók** Fyrir mörgu gerir bókin ráð.
— Blindur er bóklaus maður.
Allir voru þeir á eina bók lærðir (Þiðr. I 255).
Sbr. brjóst, blindur.
**bóla** sjá enni.
**boli** Seint fer boli og sjer þó fyrir klaufunum.
Stenst boli bragð.
Sbr. bíða.
**bolur** Bolur er kyrr þá burt er haus.
Nú gengur bolur undan höfði.
**bón** Bón vill hafa bón til launa.
Bón fylgir brjefi hverju.
Fáir neita fyrstu bón (S).
Bónasekkinn er bágt að fylla.
Bónkjálkar brotna síst (S).
Sbr. bæn.
**bóndi** Bóndinn styður bóginn undir ríkinu (S).
Bóndi á hýbýlum (húsum GJ) að ráða (Þórð. hreð. 47).
Hann er bæði bóndinn og húsfreyjan.
Bóndi er best verður, húsfreyja þar næst.
Ekki skyldi bóndinn insti koppur í búri.
Allir (flestir) eru bændur til jóla (S).
Gjarnan sem bændur gera að trana sjer í turna.
Bóndi skal beð verma, en brúður í fyrsta sinn.
Mikill er bónda rjettur (K).
Sbr. brúður.
**borð** Betra er að hafa (Ætla skal) borð fyrir báru.
**borða** Hann má borða þó hann bíti ei steikur.
**borgun** Vís er borgun hjá Brandi.
**bót** Engum er bót í annars böli (S).

Oft kemur bót eftir böl.
Ekki er það einum bót þó annar sje verri.
Þá er bótin næst er bölið er hæst (Heilms. I 445).
Bót (Bætur) liggur til hvers hlutar (als; K, Fas. III 522).
Betri er bót en gloppa (S).
Ein bót nægir í senn.
Enginn lætur nýja bót á gamalt fat.
Þunnar bætur þykja mjer vestar.
Gott er að hafa bót í bíngi (S).
Sbr. böl, brot, yfirbót.

**botn** Sá í botninn fer veit hversu bjart þar er.

**botnskafið** sjá barmsparað.

**bráðfengi** Bráðfengi vara sjaldan lengi (S).

**bráðgjör** Fátt er bæði bráðgjört og lángætt (K).

**bráðræði** Fyrir bráðræði sitt má margur blygðast.

**bráðsjeð (-litið)** Bráðsjeð láta bragnar oft (M).
Bráðlitið gerir þú á þetta (Fóstbr. 85).

**bráður** sjá bíða.

**bragð** Bragð er þó gott bragð sje.
Flestir hafa brögð undir brúnum.
Einhvern tíma koma kann (Oft kemur) krókur á móti bragði.
Margur fellur á sjálfs síns bragði.
Ýmsir verða brögðum fegnir (vísa Svarfd. 60).
Sbr. barn.

**bragur** Hverjum brag hæfir sitt lag.

**brák** Það er brák að bera í bakkafullan læk (S).

**bráka** Bilar flest sem brákað er (S).

**brandur** 1 Betri er bitlaus brandur en brýndur á sunnudag.

**brandur** 2 Sjaldan brennur einn brandur lengi.

**brattur** Brattara bauðst á Bratthálsi og rjeðst vel úr.

**brauð** Bágt er að hnoða brauð af steinum.
Betra er hálft brauð en alt mist.

Aldrei blessast ófrjálst brauð þó ávaxtist.
Oft er í hofgörðum ótrútt brauð.
Brauð er barna matur.
Sbr. barn, brúður.

**brautíngi** Bráð eru brautíngja erindi (Mág. 34 og o.).

**bregða** Bregður flestum á banadægri.
Ekki bregður öllum eins við undrin.
Honum skal jeg við bregða.
Fár bregður (Fáir bregða GJ) hinu betra, ef hann veit hið verra (Nj. 748).

**breiður** sjá bak.

**brek** Sá hefur (Hafi sá GJ) brek er beiðist (Grett. 135).
= Best er sá fái brek sem biður.
Þeim er brek að brasta sem bröltir á hækjunum.

**brenna** 1 Einhvern tíma brennir sá sig sem öll soð vill smakka.

**brenna** 2 Þeir brenna er ofnærri eldi sitja.
= Sá brennur fyrst sem eldinum er næst (S).
Ilt er að brenna en verra að vinna til þess.
Brann hús mitt og brann til batnaðar (PM).

**bresta** Annað brast, annað bilaði.
Betra er að bogna en bresta.
Engan brestur það hann á (S).

**brestur** Allir hafa einhvern brest.
Sinn brest láir hver mest (S).
Eitt er að bresti, annað að fjörlesti.

**breyskur** Fleiri eru breyskir en Björn.

**breyta** Vandi er að breyta þá vel fellur.
Betra er að breyta vel en heita vel (S).

**brim** Oft er brim með háflæði.

**brixl** Brixl eru blossa efni (S).
Brixl eru vondra verja (S).
Blygðast flestir við brixlyrðin sönn.
Brixlyrðum skal beita við engan.

**brjál** Sjaldan batar nokkur sig á brjáli (S).
**brjóst** Byrgt er annars brjóst.
Blint er í annars brjóst að geta (S).
Hann er ekki nema brjóstið.
Betra er brjóstvit en bókvit (S).
**brjóta** Hægt er að brjóta það sem brákað er (S).
Sbr. Ekki má alt brjóta sem brákað er (S).
= Það má ei alt brjóta sem brestur er á (S).
Fátt er betra brotið en heilt (K).
Aldrei er svo brotið bætt að ei sje betra heilt.
Bætt er það sem brotið dreymir.
**bróðir** Ber er hver á bakinu nema bróður eigi.
Saman er bræðra eign best að líta (Gísl. Súrs. 17).
Allir bræður mega eitt kál súpa.
Jöfn eru bræðra býti (S).
Oft gerir uppfóstrið ólíka bræðurna.
Smækka nú bræður.
Illur bróðir er mörgum óvin verri.
Enginn er annars bróðir í leik.
Engi er bróðir í annars neyð (S).
Sbr. bak, vinur.
**broddsviðið** Betra er broddsviðið en brent (S).
**broddur** Bágt er að spyrna móti broddunum.
**brók** Gyrði jeg mig enn í brók, sagði drengurinn.
Brókin fylgir bolfötunum.
Ekki bætir brókin um fyrir bolfötunum.
Bætir sá ei brók annars (Sá kann ekki að b. br.) sem ber er um rassinn sjálfur (S).
Þú gerir fyrr brókina (hornið) en barnið.
Sbr. berlæraður.
**brot** Hjer stendur hvert brotið upp af öðru.
Aldrei er svo brot bætt að betra sje eigi heilt (A).
Allra brota er einhver bót.
Bótavant er gamalt brot (S).

**brotlegur** Öll erum vjer brotleg, kvað abbadís, hún hafði brók ábóta undir höfði (S).

**brúður** Fyrr skulu menn fá sjer brauð en brúði (A).

Byrst er brúður við fyrsta biðli en blíðkast síðar (S).

Á bekk skal brúði festa.

Alt er gott við brúði að skifta.

Brúður á beð að verma (Dínúss.).

Oft er brigð undir brúðar líni (S).

Misjöfn er brúðanna blíða.

Ekki er þar við blámenn að berjast sem brúðir eiga land að verja.

Hvað skulu brúðir í bardaga.

Sbr. bóndi.

**brullaup** Bráðfengur þykir (Stuttur er GJ) brullaups frami (M).

**brunnur** Aldrei er svo djúpur brunnur að ei verði uppausinn.

Brunnur sá er óbirgur sem bera þarf vatn í (S).

Brattan skal til brunns grafa.

Enginn veit í hverjum brunni vatn verst lengst.

Ekki þarf að sækja vatn í annars brunn ef nóg er heima.

Alla (Margan GJ) ber að sama brunni (S).

Ekki ber alla að sama brunni.

Seint er að byrgja brunninn þá barnið er dottið ofan í (S).

Hver sem leitar í mörgum brunnum finnur eitur í einhverjum.

**bryggja** Hætt er að gánga á hálli bryggju.

**brynja** sjá feigur.

**bryti** Sá er brytinn vestur, er sjálfan sig tælir (Mág. 3).

**brytja** Sjaldan brytja tveir sterkir smátt.

**bú** Sveltur sauðlaust bú (K).

Flest er sætt á sjálfs búi.

Margs þarf búið með.
Lítið bú þarf litla hirðíng.
Hjúanna trú styrkir bóndans bú (A).
Bættu svo bú þitt að eigi annan skaðir (A).
Bagi er oft bú sitt að flytja (A).
Þar verður sjaldan búdrjúgt sem margar eru matseljur (S).
Oft er böl í bústángi.
Sjaldan er búbætir í bónarverði nje bjarnarslátri.
Sjaldan græðir búsmali á stöðli.

**búa** (Að) efnum (sínu) þykir (er) best að búa (M).
Er gott um örugt (heilt) að búa (Karlam. 8).
= Um örugt er best að búa (S).
Búðu að þínu en eltu ekki óvíst.
Sjerhver býr sitt bólið best.
Fleira þarf en flasið til að búa.
Búa verður sem í bæ er títt (S).
Hvað skal þeim að búa sem öll hjú hata (S).
Enginn má bögulaust búa.
Best er til hófs að búa (S).
Lengi býr að fyrstu gerð.
Betra er svo búið en ver búið.
Lengi býr um barnaskap.
Fáir kunna sig í fögru veðri heiman að búa.

**budda** Hver vill sína buddu birgasta.

**búkur** Eg hef nú nær því búkinn í blæjunni.
Á fullum búk stendur fatt (hýrt) höfuð.
Býlífið gerir búkinn sjúkan.

**búland** Nú er fundið búland.

**búmaður** Mörg er búmanns raunin (A).
Gamlir búmenn bila síst (S).
Það er ekki búmaður sem ekki kann að berja sjer (S).
Blástu á búmaður, blátt er undir, vera mun, sem vant er, vatn undir flautum.

**búníngur** Mörgum skipast við góðan búníng.
Mörgum verður búníngurinn að bana.
**búnki** Háll er oft hallur búnki.
**bú(r)kona** Sjaldan deyja bú(r)konur fyrir búrdyrum (S).
**buxa** Það sem jeg hugsa, kvað buxa, það skal jeg segja þjer treyja (PS).
**bý** Svǫ bjargast bý sem birnir.
Ekki eru bý bjarnar hræða.
**býlífi** sjá búkur.
**bylja** Mest bylur í tómri tunnu (S).
Lengi bylur á Láka.
**byr** Fleira er byr en vindur í voðum.
Ekki sigla allir sama byr (S).
Bíðendur eiga byr en bráðir andróður (S; sbr. bíða).
Þeir fá byr sem bíða (S).
Einhvern tíma batnar byr þó blási nú á móti.
Njóta skal byrjar þá býðst (PS).
Sbr. kaupmaður.
**byrði** Hver hefur sína byrði að bera (S).
Annars byrði er öðrum ljett.
(Altjafnt GJ) fellur fótlaus byrði (S).
Æ fellur nokkuð úr faranda byrði (S).
**byrlari** Bollar margir byrlarann trylla.
**býsn** Býsn skulu fádæmum sæta.
**býsna** Býsna skal til batnaðar (að betur verði) (Flat. I 231, K og o.).
**bæn** Margur sigrast af mjúkri bæn (S). Sbr. bón.
**bær** sjá barn.
**bögusmiður** Bráður er bögusmiður (S).
**böl** Böl gervir mann fölvan (Rúnakv.).
Bölið köllum vjer ilt til litar (M).
Fátt er bótalaust böl (S).
Bót fylgir böli hverju.
Bótin er næst þá bölið er hæst.

Svo skal böl bæta að bíða annað meira (Grett. 108).
Ekki er eitt böl með öðru bætt.
Þúngt er þegjandi böl.
Sá er eigi líkur böl að bera er eigi má bíða (G).
Allir vilja síns böls blindir vera.
Ljúft er að minnast liðins böls (PM).
Sbr. biðlund, bót.

## D

**dafna** Nú dafnar það er doðna skyldi.
**dáð-** Djarft má fyrir dáðaverk svara (S).
Ilt er að vera dáðlaus þá duga skal.
Dáðlítill oft drjúglega lætur.
**dagur** Mörg eru dags augu (Háv.).
Ekki skína allir dagar eins heitt.
Allir dagar eiga kvöld.
Að kveldi skal dag leyfa (Háv.).
Enginn dagur er til enda tryggur.
Ekki er allra daga komið kvöld.
Ekki er sest sól allra daga.
Fyrr lægir ljós en lokið er kveldi.
Svo verður dagur drjúgur sem snemma er tekinn (PS).
Hver dagur hefur sína mæðu.
Seint líður (Svikull er PS) sólarlaus dagur (S).
Dagur er altíð nóttu nálægur.
Ekki ber alt upp á einn daginn.
Seinna koma sumir dagar og koma þó (S).
Aldrei kemur góður dagur of snemma.
Dagur kemur eftir þennan dag.
Á morgun kemur dagur og þá koma ráð.
Einn dagur tekur annars björg í burt.
Ekki er að kvíða ókomnum degi.
Þeim dugir ekki dagur sem drekka fram á nótt.
Í dag mjer, á morgun þjer.

**dalur** Eigi er ólíklegt að dalur mæti hóli (Laxd. 134).

**dámur** Hvað dregur dám af öðru.

= Hver dregur dám af sínum sessunaut.

= Dregur hver dám af sínum legunaut, siði af sínum sessunaut.

**dándis-** Dándiskvinnu kaupir enginn ofdýrt.

**dánu-** Dánumenn segja til sín.

**dans** Dans er gárúnga glys.

Ein griðka gerir engan dans.

Fleira þarf í dansinn en fagra skóna.

Far þú í dans, en gættu hvar þú stígur.

Þú hefur farið fyrr í dans og fundið lag á kvæðum.

Margur er dapur eftir dansleik.

Oft kemst sá í krappan dans sem ekki leitar fyrir sjer (S).

**dansa** Margur dansar þó hann dansi nauðugur (S).

**danska** Auðnæm er ill danska.

**dári** Fús er dárinn í fárin (A).

Dárar eru djarfastir (S).

**dauði** Dauðinn er öllum auðinn (PS).

Betri er dauði en aumt (sjúkt) líf.

Dauði er als ils endir.

Daprast flest við dauðans þyt (A).

Blindur er dauðadagur.

Dauðinn lætur ei þeyta lúður fyrir sjer.

Dauðinn er allgóður dótturmágur.

Eins dauði er annars brauð.

**dauður** Alt er dautt sem ekki er rautt.

Fyrr er dapur en dauður.

Dauðar eru (ei altíð GJ) dauðs manns sakir (S).

Dauðir eru dauðs manns vinir (S).

Fáir eru drengir hins dauða.

Dælt er (Það er ekki dælt) á dauðan að ljúga (S).

Betra er dauður að vera en um húsgáng að fara.

Sá dauði hefur sinn dóm með sjer.

**daufur** Daufur veit ei deili á hljóðum.
Dælt þykir við daufan.
Hvað skal daufum hörpusláttur.
Ilt er daufum kvæði að kveða (S).
Þá skyldi ei dauft er drekka ætti.
**daunn** Flestum þykir sinn daunn sætur.
**daus** Nú vill ei upp nema dausinn.
**Davíð** Dæmalaust er það um hann Davíð konúng.
**deigur** Deigan skal deigum bjóða.
**deila** 1 Sjaldan veldur einn, ef tveir deila (Fms. IX 508).
Enginn deilir lengi einn (S).
Ilt er við dýran að deila (S).
**deila** 2 Oft verður af litlu efni löng deila (S).
Deila er djöfuls ábreiða.
**detta** Oft dettur um litla þúfu.
Enginn dettur lengra en til jarðar.
Það dettur ei sem ei er við komið.
Hann dettur ei niður við dægramótin.
**deyja** Eitt sinn skal hverr deyja (Völs. 9 og o.).
Enginn deyr oftar en einu sinni.
= Dauður verður hverr (Hallfr., Deyja skal [Deyja verður Örv. 110] hver um sinn).
Fáir reyna nema eitt sinn að deyja.
Dægur eitt er [þjer] dauði ætlaður (Gríp.).
Þá mun hver deyja er feigur er (Reykd. 31).
Margtítt er það þó menn deyji.
Margur hefur dáið á styttri tíma.
Ekki deyja allir þó einn deyji.
Betra er að deyja dýrlega en lifa við skömm (Flóv. 166).
Ilt er að deyja ráðalaus (S).
Ekki dvín eftir þann dauða.
Deyr því margur að enginn bjargar.
Ekki deyr sá dýrt kaupir.
Deyr dugga þótt í dali skríði, þá er öll eru örlög farin (Flóv. 204).

**digur** Ilt er að koma tveim digrum í einn sekkinn (K).
**dís** Ekki eru allar dísir dauðar.
**djákni** Ekki er alt lygi sem djákninn segir.
**djarfur** Djarfur er hver um deildan verð.
**djúp** Botnlaust djúp er bágt að kanna.
**djöfull** Ekki fagna djöflar dansi nema darki með (S).
Af fátækra metnaði skeinir djöfullinn dausinn.
Enginn djöfull í annan fer.
Hver hefur sinn djöful að draga.
Hver djöful vill hræða má hátt kalla.
**dofi** Mart vill dofinn deyfa.
**dómari** Ekki tjáir að deila við dómarann (S).
**dómharður** Oft er sá dómharður sem dómsvald ei ber (S).
**dómur** Dóms er hver verður fyrir sínu að hafa.
Misjafnir eru manna dómar.
**dóttir** Dýr er dóttur gáfan.
Dóttirin klæðist af móður mötli.
Sbr. fótur, mágur.
**draga** Dælla væri að draga ef hálft hleypti (Fbr. 38).
Ekki dregur jafnþúngur annan um garð.
Það verður að draga sem á vill bíta.
Alt dregst til eins um síðir.
= Dregst til þess sem verða vill.
Það dregur hvorugan sem ekkert er.
Dregið er það sem drýpur (S).
**dramb** Eykst dramb sem álnir fjölga (S).
Margur elur dramb sitt á annara sveita.
Dramb er falli næst (S).
**dráttur** Fækkar nú um fengsama drætti (S).
Sjerhver fylgir (Flestum er títt að fylgja) sínum drætti (S).
**draugur** Fáir eru draugar dagljósir.
Betra er að vera laus við hauginn en bundinn við drauginn.

**draumur** Draumarnir gánga eftir daglátum.
Draumar eru oft dáranna spádísir.
Huggar hálfur draumur (S).
Ljótur draumur er oft fyrir litlu (Bisk. II 225).
Oft er mikill draumur fyrir litlu efni (PM).
Draumarnir laða oftast á lygum.
Líkar eru menjar draums og skugga.
Gott er að vakna af vondum draum.
Sá sem vaknar af vondum draum, verður feginn.
Það er ils draums best að vakna sem fyrst.
**dregg** Hafi sá dreggjar er saup af staupinu.
**dreki** Drekarnir rísa oft á sporð (M).
**drekka** Drekka þarf dæstur maður.
Drekk sem gestur, et sem heima alinn.
Hann hefur marga fjöruna drukkið.
Fleira er gaman en drekka.
Drekka býður góð áta.
Drukkins munnur talar (drafar GJ) af hjartans grunn (K).
Drukkins manns orð eru draumi lík.
Við birtu skyldi í botn drekka (PM).
Sbr. dagur.
**drengskapur** Oft verður ódrjúg til drengskaparins hin ófrjálsa ættin (Fms. II 69).
**drengur** Drengur er sá drengsverk vinnur (S).
Sá er drengur sem við gengur (S).
Af dálitlum pilti verður dýr drengur.
Góðum dreng er þar gott sem hann lifir.
Oft er drengur í dánumanns ætt.
**dreyma** Ekki er alt sem dreymir.
Dreymir hvern til daglátanna (S).
= Eftir daglátum dreymir mann (S).
Böl er ef barn dreymir, nema sveinbarn sje og eigir sjálfur.
**drjúgur** Það verður þjer drjúgara en skyrtunnan í skamtinum.

Drjúgt er það sem drýpur (S).
Drjúgt er það sem ætíð fer vaxandi.
Sá varð nú drjúgari er verr vildi.
**dropi** Lengi er dropinn að bora bergið.
Dropinn holar harðan stein (S).
**drós** Fleira er gott en forrík drós (S).
**drottinn** Dýrt er (mun verða, láta menn) drottins orð (Laxd. 182, M og o.).
Drýgst er það sem drottinn gefur (S).
Dáðlaus er drottinsvikari.
**drukna** Má vera að vjer druknum nær landi (Vallalj. 182) (Margur druknar n. l. GJ).
**drykkur** Áfengur drykkur er óminnisöl (S).
Oft skiljast góðir drykkir af dönsku keri.
Sbr. batna.
**dúfa** Ekki kemur dúfa úr hrafns eggi (S).
Þar er lítil duna sem ein dúfa dansar (leikur; S) (Dunar lítið þó ein d. d. S).
Sbr. bogi.
**duga** Sjer duga flestir sjálfum best.
Þeim skal duga sem þörf er meiri (A).
Ekki dugir ófreistað.
**dugnaður** Ekki er dugnaður á einn veg.
**dúkur** Það er góður dúkur sem aldrei festir vott á.
**dul** Margan hefur dulið drepið (K).
Láttu ekki dulinn (!) drepa þig.
**dulinn** Margur er dulinn að sjer (Grett. 157).
**dulur** Oft er dulur undir dökkum feldi (S).
**dust** Ekki er rokið fyrir þjer rófudustið.
**dvergur** Á gulli verða dvergarnir gintir.
**dvína** Dvín það (þá) oft sem (er) duga skyldi.
= Mart dvínar þegar duga skal.
**dyggð** Dyggð eflir sjálfa sig
= lofar sig sjálf.

Dyggðin er með djúpum rótum.
Dyggðin er dýrkeypt.
Vinnan verður keypt en dyggðin aldrei (K).
Betri er dyggð en dýr ætt.
Dyggð er dárum heimska (A).
Þar dofnar dyggð sem sællífið situr (A).
**dyggur** Dyggra er hollast dæmi að fylgja.
**dylja**· Dylja má þess er einn hver segir (M).
Lengi dylst í djúpunum.
**dyr** Hver ver sínar dyr sem hann kann.
Oft gjalda stofudyr stafkarla reiði.
**dýr** Er þá (v. l. annars er þá) eigi dýr í festi (Hrafnk. 27).
**dýrð**. Mikið er nú um dýrðir, kvað Dalskeggur.
**dýrshorn** Enginn gerir dýrshorn úr hundshala.
**dæma** Engi dæmir sjálfan sig (M).
Sjerhver dæmir eftir sínu höfði.
**dæmi** Eins dæmin eru verst.
Æsir óhegnt dæmi (S).
Gott dæmi er á við góða ræðu (S).
Oft hafa lofleg dæmi litla fylgd (S).
Til þess eru vond dæmi að varast þau (S).
Ill dæmi spilla illum og góðum.
Margs hafa dæmin gefist.
Láðu ekki öðrum þín dæmi.
Margur láir sín dæmi.
Fyrr mun dag en dæmi þrjóta.
**dæstur** sjá drekka.
**dögg** Dögg grænkar gras.

## E

**eðli** Ekki breytir eðlið sjer.
**ef** Ef stendur í hverri lögbók.
Ef stendur fyrir hundraðskaupi.

**efamál** Efamálin oft verða brigðul.
**efi** Efinn villir allflesta.
**efna** Auðvelt er að lofa, örðugt að efna (S).
Betra er ólofað en illa efnt (A).
**efnd** Þá er efndanna vant þegar heitið er komið (S).
Efndanna er oft vant þó heitin sjeu góð.
**efni** Efni á ósmið fá (K, E. skyldi ó. hafa GJ).
Efnin þurfa [ɔ: þarf] til alls (S).
Bágt er að gefa af engum efnum.
Sbr. láta.
**eftir** Ekki er eftir það sem af er.
**eftirlæti** Oft verða eftirlætisbörn ættarskömm (S).
**eftirreið** Þúng er eftirreiðin.
**egg** Allflest munu eggin með freknum.
**eiður** Eiður er endir allrar þrætu.
Þar ver eiður sem unninn er (K).
Lítið skyldi í eiði ósært (Grett. 204).
Eigi skal einn eiður alla verða (yfir alla ganga Nj. 61) (Eigi verður (ver) einn eiður alla Bjhitdk. 26 og o.).
Ekki er synd í sönnum eiði.
**eiga** Það á hver hann á.
Best er hver eigi það hann á (S).
Þú átt fátt af því þú nýtir ekki smátt.
Allir eiga nokkuð, kvað álfkonan (K).
Mart er betur átt en óskað (S).
= Betra er að eiga en æskja.
Ekki verður bæði átt og út borið (af sjeð; S).
Fagna ei fyrr en þú átt.
Þú áttir eftir í henni grunnu fleðu.
Lítinn kost á margur und sjer (M).
Sumir hlutir eiga ekki saman nema nafnið.
Hver á við sinn sala.
**eigingjarn** Eigingjarn hlær ef annan flær (S).
**eign** Sú eign er best að eiga sem nægir.

Ríkari er eign en umboð.
Vandfarið er með annars eign.
**eigna** Margur eignar sjer það er hann á ekki par í (K).
**eik** Allar eikur hafa einhverja rót (PS).
Allar eikur fyrnast.
Engin er eik án kvista.
Af ávextinum þekkist eikin (S).
Fyrr má eikin bogna en hún brotin sje.
Þá verður eik að fága er undir skal búa (Egilss. 249).
Hefur eik það er af annari skefur (Grett. 53 og o.).
Öðrum bera eikur ávexti.
Ekki er svo fögur eik hún fölni ekki um síðir (PS).
**einángur** Margir verða vaskir í einángrinum (G).
**einbýli** Fáir lofa einbýli sem vert er.
**eineygður** Betri er eineygður en blindur.
**einfaldur** Ekki þarf brögð að blekkja þann einfalda.
**einhentur** Ekki er einhentum hægt að bjargast.
**einhlítur** Enginn er í öllum hlutum einhlítur.
**einhver** Betra er eitthvað en ekkert ef til einhvers dugir.
**einlífi** Aumt (Ilt) er einlífi (S).
Ef þú hefur einlífi, elska ekki sællífi.
**einn** Einn er hver einn (JÓl.).
Oft er smátt und einum (Hallfr.).
Einn skal við einn eiga nema sje deigur (Örvaro. 99).
Einn skal mót einum ganga nema annarhvor sje ragur.
Betra er einn að vera en illan stallbróður hafa.
Betri er einn með yndi en tveir með trega.
Ekki þarf einum að lá.
Fátt segir frá einum (Sig. þögl.).
Seint er eins lið (K).
Einum þykir dauflegt saman (M).
= Ilt þykir einum saman að vera.
Auðugur þykir einn sjer hvar (M).
**eins** Þar er eins potturinn og haddan.

**einsdæmi** Einsdæmin eru verst (Grett. 29).
**einstæðíngur** Margt er óhægt einstæðíngum (PS).
**einvera** Ill er þeim einvera sem yfir illu býr (S).
**eir** Þeir verða að hafa eirið sem ekki hafa látúnið.
**ekkert** Ekki þarf að geyma það ekkert er.
**ekkja** Oft er úlfur í ekkju fje.
**elda** Gott er að elda gömlum við (S).
Ýmsu eldir.
**eldhús** Ef eldhús rýkur og kostur er í klefa, vantar ei vini.
**eldur** Oft verður mikill eldur (stórt bál) af litlum neista.
Aldrei geisar eldur án reykjar.
Þú kveikir (ei) eld af kaldri ösku.
Lengi lifir eldurinn í öskunni (S).
Sá eld vill fá verður að leita í öskunni (S).
Ekki má eld með eldi slökkva.
Þá er eldur góður inni, þegar frostdíngull hángir úti (S).
Við þann eldinn situr hver sem best brennur.
Sá sem eldinn vill hafa hlýtur reykinn að þola.
Sá hlýtur eldinn skara sem kalda vini vill verma (S).
Kulnar eldur nema kyntur sje (A).
Allir eldar brenna út um síðir.
Ilt er eld bera í sínu skauti.
Betra er að stíga í eldinn en að standa í honum.
Sá er eldurinn heitastur er á sjálfum liggur (brennur S) (Grett. 136).
Hjer mun eldur af verða, sagði refur, dreit á ísinn.
Sbr. neisti.
**elja** Elja er annarar konu vefur.
**elli** Allir ellina kjósa en engir fenginni hrósa (A).
Bágt er að tefja fyrir ellinni.
Oft hefur ellin æskunnar not.
Flest fylgir ellinni (K).
= Flest fer með elli.
Aldrei er elli einfara (S).

**elska** 1 Elskan dregur elsku að sjer.
Alt vinnur elskan.
Margur hefur krækt sig á kvenna elsku.
Blint er elsku augað (S).
Oft er elskan amalynd (S).
**elska** 2 Allir elska eitthvað.
Hvað elskar sjer líkt.
**elskhugi** Aftur fýsir elskhuga síns augnagamans (S).
Þángað fýsir elskhugann sem unnustan er (S).
**enda** Eftir er að enda þá búið er að lofa.
**endir** Endirinn skyldi í upphafinu skoða (A).
Alt tekur enda um síðir (S).
Þá endirinn er góður, er alt gott (S).
**engi** Oft er fen í fögru engi (S).
**enni** Bólan gerir ófagurt enni.
**epli** Sæt epli falla af sætu trje (G).
(Hjer fljótum GJ) vjer eplin með, sögðu hrossataðs-kögglarnir (S).
Betra er eplið gefið en jetið.
**erfð** Aum er sú erfðin að eiga mök við tröll.
**erfiði** Drýgja þarf erfiði meðan líf lafir.
Lángt erfiði gerir stutta nótt (A).
Oft spillir lítil stund löngu erfiði.
Erfiðið en ekki annað, sagði steinninn.
**erfíngi** Erfíngjans grátur er innra hlátur (S).
**ergjast** Svo ergist hver sem hann eldist (Hkr. II 344 og o.).
**erindi** Oft eru smá erindi á vorin (S).
**erja** Erja má jörð ef ávöxt skal bera. Sbr. seinn.
**erkibiskup** Aldrei verður góður erkibiskup af ofneyslu-manni (S).
**eta** Þar etur hver sitt.
Vissi hver eta átti.
Lengi getur fullur etið og latur legið.
Sá etur flest sem fæst á.

Það er mart í búri etandi (er) ekki er á borð berandi (K).
Hann vill ei eta nema rautt eitt úr eggi.
Hann etur skarnið undan nöglunum á sjer.
Ekki er alt fyrir augunum sem eta skal.
Vantar það sem við skal eta (S).
Á engum hrín ójetið.
Þeir (ɔ: úlfar) etast þar til að halanum kemur og finna ei fyr (Band. 35).
Svángur er sá er eftir etur (S).
Sbr. fat, leifa.

**ey** Allar eyjar eru með annmarka.

**eyða** Eins og aflast eins eyðist.
Eyðist það sem af er tekið.
Eyðist hvað sem upp er spent.

**eyðifugl** Hefur eyðifuglinn útsúngið.

**eyjamaður** sjá landmaður.

**eykur** Það er illur eykur sem ekki endist kirkjuleið (S).
Gengur eykur þó ei sje ávalt barinn.

**eymd** Ein eymdin býður annari heim.

**eyra** Þar eru eyru sæmst sem óxu (Nj. 233 og o.).
Fáir (Engi) hafa sín eyru á annara (allra, annars) höfði (S).
Seint þreytist eyrað að heyra.
Kvöl er að heyra með kerlíngar eyra (S).
Mörgum klæjar eyrun við kvisið.
Ljá skal óhljóðs eyru ef illa er talað (S).
Mörg eru konúngs eyru (S).
Sbr. auga, úlfur.

**eyrir** Eyrir er eyris virði.
Menn njóta ójafnt auranna.
Einn eyrir verður annan að leysa ef eigi er skileyrir til.
Útfús er illa fenginn eyrir (S).
Ilt er að halda útfúsum eyri (K).
Ódrjúgur verður útborinn eyrir (S).

# F

**fá** Það fær hver sem fer á leit (K).
Sá fær er fríar (Hávam., sem falar GJ).
Þeir fá sem fyrst koma.
Lítið fær sá litlu sær (S).
Fagnar hver þá fengið er (S).
Ekki vantar það sem fengið er.
Fyrnist þá fengið er (S).
Svo ferst hvað sem fengið er (S).
**fábreytt** Fábreytt fer ei altíð betur en óbreytt.
**faðir** Fár er sem faðir, enginn sem móðir (S).
Hver mun mjer þá trúr ef faðirinn bregst (G).
Fáir þekkja föður sinn rjett.
Ekki ná allir fótsporum feðra.
**fáförull** Fákunnandi skyldi fáförull vera.
**fagna** Fár veit hverju fagna skal.
**fagur** Alt fagurt er augum þekt.
Fár er fagur ef grætur (Flat. I 566).
Fár verður fagur af sárum (Þormóðr).
Eigi aðeins í fögru er fengur (M).
Það gildir einu hvar fagurt flakir (S).
Margur mælir fagurt er hann hyggur flátt (G).
**fágætur** Fágætt þykir það sem fæst sjaldan.
**fáheyrður** Fáheyrt er oft furðanlegt.
**falda** Þjer ferst að falda tröfin.
**fálki** Með tómum höndum tekur enginn fálka.
**fall** Fall er farar heill (Hkr. III 204; frá bæ en ekki til GJ).
Í flótta er fall verst (G).
Þeim er falls von sem flasar (A).
Þeim er búið fall sem byrgir sín augu (A).
Hætt er þeim við falli sem hátt hreykist (S).
Sá nýtur falls sem fær af betra.
**falla** Sá fellur oft sem fángið býður.
= Opt fellr sá er fáng býðr (Karl. 393).

Sá fellur oft fyrri sem frægri er (S).
Sá fellur harðast sem á hæl dettur (A).
Hver hart fellur stendur verkjandi upp.
Fellur hver þó frækinn sje.
Fallinn er hver þá fótanna missir.
Það fellur eins og flís við rass.
Stundum fellur og stundum flæðir (S).
Sjaldan fitnar enn fallni (G).

**falsari** Fánýtt er falsarans lof (S).

**fáng** Sá hefur fult í fángi sem við fjandann glímir.
Sbr. falla, úlfur.

**fantur** Fantur vill hafa sjer fant.
Fanta knífur er fyrstur í smjör (S; mat GJ).
Fljótur er fantur í mat.
Ilt er að keppa við kjöftugan fant.

**fánýtur** Fátt er svo fánýtt að ekki megi nokkuð afnýta.
Oft verður fánýtt að fullu gagni.

**far** sjá allur.

**fár** 1 Ekki er það svo fátt sem það er smátt (Sturl. I 523).
Fár er sjer fullnógur (S).

**fár** 2 Hver fárið elskar fargast í því.
Ýmsir bjóða öðrum fár (M).

**fara** Vel fór sá fyrsti.
Það mun fara að hinum fornu brautunum.
Hann fór undan með stöfum.
Hjá mun farast hvatur og fælinn (klókur og óklókur).
Það fer sem farlegt er.
Verður hver með sjálfum sjer lengst að fara (Gísl. Súrs. 25).
Svo fer hver sem fær er (S).
Aldrei er of varlega farið.
Betur er farið en heima setið.
Mart fer vel en fátt of vel.
Það sem fara á betur en vel fer oft ver en illa.
Þá fer vel ef ei má að finna.

Það er vel ef vel fer (K).
Fátt er betra en fara vel (K).
Ekki fer ætíð betur þá breytt er.
Fátt fer svo vel að eigi megi betur fara.
Nú fór ver en vildi.
Illa fer ef aldrei nýtur.
Flest of fer um síðir flatt (S).
Það fer sem má.
Mart fer öðruvísi en á horfist (ætlað er GJ; S).
Svo fer þegar ekki vill veiðast.
Mjer fer sem fæstum.
Flest fer vænum vel.
Mjer fer það ekki úr fötum.
Þá fer hverjum aftur að fullfarið er fram.
Það fór sem hjelt.
Farið hefur fjelegra, dáið dámlegra.
Sbr. fylgja.

**fáráður** Fáráður er forsvars þurfi.
**farandkona** Oft er lygð í farandkonu (S).
**fasta** Sá má fullvel fasta sem fisk hefur á borði.
**fat** 1 Sá jetur mest úr fatinu sem fjærst því situr.
**fat** 2 Aftur sækir fat í fornar hrukkur (S).
**fátækt** Fátækt er elli fylgispök.
Fátæktin er lötum fylgisöm (S).
Fátækt er ei í útlegð elt.
Betri er seyrulaus fátækt en illa fenginn auður (S).
Sbr. árvakur, fje.

**fátækur** Fátækur er hver fjarri sínu.
Fátækur má ei fríða konu eiga nje fagran hest.
Jafnan hefur fátækur bú á baki.
Fátækum gerir fátt að ama.
Fátæks manns forði er altíð auðkendur.
Fátæks manns vinur er flóttagjarn.
Fátæks manns festi hefur marga hlekki (A).

Fár er verri þó fátækur sje (G).
Fátækur má snemma fara að hátta (S).
Fánýt eru fátæks plögg (S).
Fátækir verða frestskuldum fegnir (S).
Hvergi er fátækum krókur.
Ölföng forðast fátæks göng (S).
Flest er fátækum fullgott.
Margir fæða heldur mús en fátæka.
Þá fátækur fær kæti, fær hann ólæti (S).
Ekki er vandskírt fátæks manns barn (S).
Af litlu fær fátæk kona barn.
Sbr. akur, djöfull, heilsa, ríkur.

**fávís** Frægur verður sjaldan sá fávísi (A).

**feginn** Tvisvar sinnum verður sá feginn sem rekur á grunn (K; sem á steininn sest GJ).
Kveldi verður feginn sá fyrir kaup sig leigði (A).

**feigur, feigð** Ekki má feigum forða (Alex. 105 og o.).
Frammi eru feigs götur (Sól.).
Verður hver þá að fara er hann er feigur (Grett. 156).
Allir fara (Fara verður) þá er feigðin kallar (Fas. I 420).
Þeir verða að falla er feigir eru (Þiðr. II 252).
Alt (Autt GJ) er feigs forað (Fáfn.).
Margur er feigs voðinn (S).
Fátt verður feigum til tafar.
Fljót er feigs manns ferð.
Sjaldan hittist feigs vök frörin (M).
= Auð (Opin GJ) er feigs vök (S).
Brynja gefur ei feigum fjör (S).
Blind eru feigs manns för (S).
Blindur er feigs vegur (S).
Alt sýnist feigum fært (S).
Hverjum bergur nokkuð er eigi er feigur (Fbr. 100 og o.).
Skilur á milli feigs og ófeigs (S).

Eitthvað legst þeim til sem ekki er feigur (S).
Ekki veit hvar feigur flækist.
Fært er farið feigum og gömlum.
Sjaldan sýður feigs manns matur á gólfi.
Feigð er flestra voði.
Engi má feigð sinni forða.
**feitur** Enginn verður af einum bita feitur.
Margur verður feitur af annars fje (S).
Hið feita vill ætíð upp fljóta.
Sbr. fríður.
**fela** Ekki er svo fólgið að ei verði fundið.
**fella** Fremd er ei að fella þann sem fætur hefur enga.
**fen** Fen er oft fótum nær en hyggur.
**fengur** Illur fengur illa forgengur (S).
**ferð** Hver ferð er fjár verð.
Ekki verða allar ferðir til fjár (S).
**feykir** Mikið er um í feykirnum.
**fífill** Hann má muna fífil sinn fegri.
**fífl** Því er fífl að fátt er kent.
Fíflinu skal yfir foraðið vísa en afglapa á ísa.
Fíflin eru getspökust.
Flest verður fíflinu að orðum.
Sjaldan er fíflum frama skortur.
Á gulli skal fífl ginna.
Hjer tefla tvö fífl.
Sbr. ofurhugi.
**fíkja** Ekki eru firn í fíkjunni.
**fíll** Fast stendur fullur fíll.
Fíll þekkir sinn aðal.
**fíngur** Þess minnast fíngur er forðum unnu (S).
Allir fíngur eru jafnlángir þá þeir eru í lófann lagðir.
Sá þarf að hafa fíngur af járni sem fjandann vill flá.
Sbr. frágángur, Pjetur, rass.
**finna** Það má alt finnast sem ekki er falið (K).

Það finst í hlákunni sem falið er í snjónum.
Hver finnur það hann fá vill.
Það finnur hver sem um er hugað (K).
Hver finnur til sín.
Bragð er að ef sjálfur finnur (K).
Að flestu má eitthvað finna (S).
Hægra er að finna að en gera betur (S).

**Finnar** Snælega snuggir, kváðu Finnar, áttu andra fala (Mork. 138).
Feitgjarn er finnurinn.

**firn** Flest eru firn þeim fátt hafa sjeð (S).
Firn koma móti fádæmum.

**fis** Kulvíst er fisið forna.
Oft verður fis að fótakefli.

**fiskimaður** Nú er illa beygður góður fiskimaður.

**fiskisaga** Fer fiskisaga en flýgur hvalsaga (K).

**fiskur** Allir fiskar eru með uggum.
Það eru ekki alt góðir fiskar sem synda.
Fyrst fúnar fiskur á höfði.
Fiskur tekur beitu en öngull fisk (S).
Vesall fiskur fer í vesals manns net.
Enginn dregur þó ætli sjer annars fisk úr sjó.
Þar (Hann veit hvar) liggur fiskur undir steini.
Gott á fiskurinn, hann má drekka þegar hann vill, sagði drykkjurúturinn (S).
Betri er lítill fiskur en tómur diskur.
Svo má það vera fiskur og smjer, að það drepi mann.
Lýist fiskur ef lengi er barinn.
Jafnir fiskar spyrðast best.
Sbr. vesall.

**fitla** Ekki fitlar við á Læk.

**fitna** Fáir fitna af fjártökum.
Sjaldan fitnar enn fallni (G).
Sbr. orð.

**fjall** Annað vill til fjalls en annað til fjöru.
Flest eru fjöll með hrjóstrum.
**fjandinn** Ekki er fjandinn iðjulaus (S).
Þar sem fjandinn ekki er þar hefur hann sína.
Ekki er það laust sem fjandinn heldur.
Illa má ygla sig ef fjandann skal fæla.
Sínum er fjandinn verstur (S).
Ekki er fjandinn frændrækinn.
Þegar hver hefur sitt hefur fjandinn ekki neitt.
Þar hefur fjandinn fundið móður sína (Valdimarss.).
Fjandinn lætur altíð fúlt eftir sig.
Ilt er fleira en fjandinn sjálfur.
Það má fjandinn gera að vera dauður og jeta ekki.
Sbr. fáng, fíngur, fleygja, flóki.
**fjara** Verða menn þeir er uppi fjarar (M).
**fje** Alt verður til fjárins unnið (Grett. 133).
Fús er hver til fjárins (S).
Njóta skal fjárins meðan kostur er (S).
Hirtu vel fengið fje.
Svo er fje sem fáendur duga.
Frjósa verður til fjár síns.
= Kala skal og húngra til fjár síns.
Mörgum þykir fullgott fje (M).
Láttu þig ei fje tæla þó fagurt sje.
Er fje (Alt er GJ) fjörvi firra (Nj. 393).
Mart er fríðara en fje.
Rýrt er óskafjeð.
Ekki fylgir alt fjenu (S).
Fje veldur frænda rógi (Rúnakv.).
Betra er að manninn vanti fje en fje vanti manninn.
Aumt er ástlaust fje.
Til þess er fje að flíka því (S).
Fje er drotni glíkt (Vígagl. 38, K).
Fje frekar hug, fátækt mínkar dug (A).

Afgjarnt verður (er GJ) öfundarfje (G).
Fáir munu njóta fólgins fjár.
Ekki eiga allir fjárheill saman.
Ekki er afnámsfje í annara flíkum (S).
Fje er best eftir feigan (Gíslas. kap. 30).
Í mörgu fje er misjafn sauður (S).
Víða stendur fje fótum.
Bágt er að bæsa ófæddu fje.

**fjebætur** Fleira er gleði en fjebætur einar.

**fjegirnd** Fjegirndin hefur margan felt.

**fjegjöfull** Fjegjöfull eyðir en fjedrögull seiðir (S).

**fjelagi** Sá sem hefur knött og knattdrep fær einhvern fjelaga.

**fjelaus** Fúll er hver fjelaus (S).
Betra er að vera fjelaus en ærulaus.

**fjórði** Í fjórða sinn er fullreynt (S).

**fjós** Byrg þú fjósið meðan baulan er úti.

**fjöður** sjá nef.

**fjöl** Hann hefur látið fjölina fljóta.
Hann er ekki við eina fjölina feldur.

**fjör** Hver er frekur til fjörsins (Fas. II 150 og o.).
Alt lætur fjörvi fyr (Laxd. 227).
Fjör er flestum sárast.
Verða flestir fjörlausn þola (Hyndl.).
Flestir verða fjörlausn fegnir.
Fjör er sem hángi á hör.
Sbr. fje.

**flá** Sá flær sem fantur sem fær ei kropp úr skinni.

**flagð** Oft er flagð (fox GJ) í fögru skinni (Eyrb. 81 og o.) (fögrum ham GJ).
Oft fellur flagð af litlu.
Ekki er landsskaði í ljótu flagði.
Hafa skal það af flagðinu sem fá má.

**flár** Æ hlær flár þá annar hlær (S).
Oft mælir sá fagurt er flátt hyggur (A).
**fláráður** Fláráðum má trautt of trúa (M).
**flas** Flas er falli næst (S).
Margan hefur flasið felt (S).
Sjaldan er flas til fagnaðar.
Flas gerir engan flýtir.
Flas og slys eru förunautar (A).
**flasa** Margur flasar fús til síns skaða.
**flaustra** Að flaustra er ekki að flýta sjer (S).
**flautir** Vera mun sem vant er vatn undir flautum.
Saman dregur flauta menn og maura.
**fleinn** Fleinn veit feigs stöðu.
**flesk** Lengi má fleskið hánga, sje ei á því tekið.
Ekki þarf að smjörga það fleskið sem nóg er feitt.
Feitt flesk fjell þjer í ketil ef þú kant að súpa (Fms. XI 348).
Sbr. hundur, smjör.
**fleygja** Þeim fleygir fúsum sem fjandinn eltir.
**fleygur** Menn reka helst þann fleyginn sem best gengur (S).
**flík** Ekki er fjefurða í flíkinni.
**flís** Þar er flís sem við rís.
**fljóta** Flýtur meðan að ekki sökkur (K).
Flýtur upp þó fari í kaf (S).
**fljúga** Svo verður hver að fljúga sem hann er fjaðraður (S).
Ilt er að fljúga fjaðralaus (S).
**fló** Minna sækja flær tvo menn í rekkju en einn (Þiðr. I 230).
**flóki** Þú ert fullur af flókum sem fjandinn af krókum.
**flot** Fínt er flot og ket en fullkaupa má það.
Hvað skal flot við feitum sel.
Síst mun eg flotinu neita.
**flóttamaður** Flóttamanninn er ei hægt að hefta (Sturl. II 24).
**flótti** Flótti er falli næst (S).
Í flótta er fall verst (Fms. VIII 117).

**fluga** Illa höggva húngraðar flugur.
Sjaldan er fluga í feigs mat nema dauð dálpi (K = GJ).
**flýja** Sá sem flýr ber sökina á baki sjer.
Betra er að flýja en flökta illa.
Ilt er flýjanda að hefta (Fms. IX 370).
Sbr. flóttamaður.
**flykki** sjá gagn.
**flýta** Ekki er til fagnaðar að flýta sjer.
**flærð** Svei þjer flærð, þú ert ekki á bók lærð (S).
**fóðurpeníngur** Á sinu feitist eigi fóðurpeníngur (S).
**fól, fóli** Seint er að kenna fóli vísdóm (Parc. 10).
Ekkert er það fól að engi þurfi tól (S).
Fyrst er fólið í skál (S).
Fóli skal á foræði hleypa (S).
Stendur fóli uns fætur verkjar (S).
**foli** Oft verður galinn foli góður hestur (S).
Úngir folar dansa sem hestar.
**fólskur** Jafnan vinnur fólskur maður fyrsta leik (S).
Tamt er fólskum friði að spilla (A).
**forað** Foruðin sjást best við (Orkn. 207). Sbr. feigur.
**fordild** Sína fordild sækir hver.
**foreldri** Fár gleðst foreldris bana.
**foríngi** Góðum foríngja er gott að fylgja.
**forlög** Sínum forlögum verður hver að fylgja (S).
Verður hver eftir sínum forlögum að leita (Vatnsd. 11).
Forlögunum fresta má en fyrir þau ekki komast (S).
Óhægt mun forlögin að flýja (Vatnsd. 20).
Enginn fær sín forlög flúið.
Torsótt er að forðast forlögin (Vatnsd. 24).
**forneskja** Fátt er rammara en forneskjan (Grett. 159).
Lengi fylgir forneskjan.
**fornmæli** Fregnast fornmæli öll (K).
**fors** Fors hæfir heimskum, hyggnum ei.
**forsjón** Forsjónin skyldi í fordyrum standa.

**forvitinn** Sá sem aldrei er forvitinn verður aldrei fróður.
Forvitinn vill alt vita nema sína eigin vömm (S).
**forvitni** Fáa leiðir gott af forvitninni.
**forvitur** Fálátur er oft hinn forvitri.
**fóstra** 1 Sá er ógöfgari er öðrum fóstrar barn (Mork. 2).
**fóstra** 2 Sjaldan (aldrei) bregst fóstra barni (S).
Fóstran drekkur það barnið leifir.
Hann ann barninu vegna fóstrunnar.
**fóstri** Ærnar á fóstri minn flakspildur.
**fóstur** Fjórðúngi bregður til fósturs (Nj. 177). Sbr. fje.
**fótlaus** Hægt er að fella fótlausan.
**fótur** Hann sjer hvar hann stígur niður fætinum.
Græ̈r gángandi fótur, sveltur sitjandi kráka (S).
Viljugur er fótur til vinar húsa (S).
Ekki tjáir að gefa upp á sjer fótinn.
Hann brá undir sig betra fætinum.
Sá drepur oft fæti er augnanna missir (Bisk. I 742).
Heldur kemur oft við sáran fót (M).
Oft kemur við stirða hönd og sáran fót.
Þú færist ekki fótum saman.
Þeir mega hafa fattar fætur sem fallegar eiga dætur.
Engi hnekkir á annars fæti (S).
Hann hefur annan fótinn í gröfinni.
Einn er á fæti, annar uppskorinn.
Ilt er á einum fæti að standa (PS).
Sbr. hönd.
**fox** Fox kann nóga flærð.
Fox er ilt að erta.
**frágángur** Svo er frágángur sem fíngurnir unnu (S).
**Frakkland** Ekki týnir Frakkland lofi sínu.
**frami** Framkvæmd fylgir frami og gæfa (S).
**framliðinn** Fátt um framliðna (fjarlæga).
**framsýni** Framsýni er flasi betri (S).
**framsýnn** Sjer framsýnn veg þó sitji í myrkri (A).

**fregvís** Fróður er hver fregvís (Parc. 4, S).
**freista** Freistað er eigi fullgert.
**frelsi** Frelsi er fje betra (A).
**fremd** Fremd er eigi að fella þann sem fætur hefur enga (A).
**frest** Mörgu svara frestin (Bósas. 30).
**fresta** Ekki er að (má) fresta því sem framm á að gánga (fara) (S).
**frestskuld** Frestskuldum ei fagna skal (S).
**frestverk** Fáir verða frestverkum fegnir (K).
**fretkarl** Hvað skulu fretkarli góð vopn.
Fúllega skilst fretkarl við öndina (K).
**fretur** Oft spáir fretur fyrir fylli.
**freyja** Þángaðtil má kreista freyjuna að hún skræki.
Þú gefur freyjunni að drekka.
**fríðleikur** Mætur er fríðleikur ef mannkostir fylgja (S).
**fríður** Frítt er fögnuður augna.
Oft er innan fríður, utan ljótur (S).
Fáir verða fríðari þó þeir frýni sig (S).
Ekki er í fríðu einu fengur nje feitu einu matur.
Fáir eru fríðari ef þeir gráta.
Fáir eru fríðir í fiskivoðum.
**friður** Friðurinn er fyrir öllu.
Betri er friður en bardagi.
Friðurinn teður tún og engi (S).
Fljótt (Flótti) er friðarmark.
**frilla** Betra er að vera góðs manns frilla en gefin illa.
**frjett** Fáir fara svo með frjettir að ei bæti við.
**frjetta** Frjettir oft sá er fjarri sitr (Geðraunir VI, 12).
= Frjetta þeir er fyrir (rángt f. firr) sitja (GJ).
**fróður** Fás er fróðum vant (Hávam.).
Flest verður fróðum að kvæði (S).
Sbr. fregvís.

**frómur** Fult skal frómum (föntum) bera, þó skal (og ekki) borð á vera.
**frost** Frost vita á fáar stjörnur.
Hætt er á milli frosts og funa.
**frumsmíð** Flest frumsmíð stendur til bóta (SnE. I 622).
**frægð** Betri er frægð en fje (S).
Frægð er elli fylgispök.
**frægur** Engi verður frægur af engu (Bósas. 25, K).
Enginn þykist offrægur vera.
Fyrst skal frægan telja (frægum bjóða).
Fyrst er alt frægast.
Oft verður sá frægur sem fyrri kemur á hólm.
**frækn** Skriðna kann fótur þeim frækna.
**frændi** Frændi er fastur eyrir.
Frændur bornir skyli bræði bindast (Sigvatr).
Fjörður skyldi milli frænda og vík á milli vina (S).
Ekki er djúpsett frænda fylgið.
Frændur eru frændum verstir (kvað refur, sá mórauðan hund) (S).
Frændi, frændi, sagði refur við rauðan hund.
Fúll er frænda rógur (S).
**frændsemi** Ekki stendur fast frændsemi.
**fúa (= fóa)** Brögðótt reyndist gemlu fúa (M).
**fugl** Allir fuglar úr eggi skríða.
Fyrr skríður fugl úr eggi en fleygur sje.
Hver fugl syngur með sínu nefi.
Svo syngur hver fugl sem hann er nefjaður til (S).
Af kvaki best má kenna fugla.
Svo flýgur hver fugl sem hann er fjaðraður.
= Hver fugl verður að fljúga eftir því sem hann er fiðraður.
Á fjöðrum skal fugl kenna en fásjenu manninn.
Af hreiðri má hyggja hver fugl þar býr.
Litlum fuglum lítið hreiður lætur best.

Betur draga tveir fuglar til hreiðurs en einn.
Fleiri fuglar fljúga sjer að bráð en haukar einir.
Sá er fuglinn verstur sem í sjálfs síns hreiður drítur.
Illir fuglar boða sjaldan vært veður.
Allir fuglar eru eigi haukar.
Hverjum þykir sinn fugl fagur (S).
Skjóta mun verða til fugls áður fái (Orkn. 237).
Betri er einn fugl í hendi en tveir í skógi.
Hver fugl er kjörinn sem í hendi er.
Fyrsti fugl fær hið fyrsta korn.

**fúll** Fúl orð koma úr fúlum belg.

**fullboðið** Fullboðið er þó um sinn sje.

**fullgóður** Fullgóðan telur sig sá falinn er lýtum.

**fullhugi** Nú óttast fullhuginn flest.

**fullsæll** Fátt amar fullsælum.

**fullur** Fyrr er fult en útaf flói.
Fullur kann til flest ráð (K; kunna flest GJ).
Fullur heitir föstu.
Fullur kroppur heimskur haus.
Fullur veit eigi hvar svángur situr (A).
Misfullir þrífast best.
Sbr. eta.

**fundur** Sá á fund sem finnur, ef enginn finst eigandinn.
Að leyna fundi er að líkjast þjóf (S).

**fylgi** Betra er gott fylgi en frændastoð (S).
Betra er fylgi en fjölmenni.

**fylgja** Mart er það sem (Ekki veit hvað) faranda fylgir.
Það fylgir hverjum sem fast er við hann.
Fylgist að furtur og hnakki (S).

**fylli** Fyllin er öllum óhæg.

**fyrnast** Flest fyrnist þá frá líður.
Fyrnist þegar fengið er.

**fyrri vari (fyrirvari)** Þykir betri enn fyrri vari (Vatnsd. 65).

Fýsa munk ens fyrra vara (M).
Forsjálum dugir fyrirvarinn (S).
**fyrstur** sjá atburður.
**fæða** Enginn fæðist með formenskunni (S).
Fæddu mig í ár, jeg fæði þig að ári (S).
**föðurbetríngur** Fáir eru föðurbetríngar (K).
**föðurhús** Fleygir fúsum að föðurhúsum.
**fölski** Bágt er fölskann að fela.
**för** sjá fall.
**förumaður** Það er ekki fundið eftir förumennina.
Æ hlýst ilt af illum förumönnum.
**föt** Fötin prýða manninn.

## G

**gagn** Hafi sá (Þeir hafa) gagn er guð vill (S).
Að því má gagn verða sem á land kemur.
Hann er ekki nema gagnið og greiðinn.
Skjótt er gagn gert, skerðu af flykkinu (S).
**gagnstígur** Gagnstígar verða oft glapstígar (S).
**gálgi** Búinn er gálginn, en bófana vantar (S).
**gall** Gall er ekki gómsætt (S).
**gamall** Tvisvar verður gamall maður barn.
Lengi er gamall maður barn (K).
Oft er gott það er gamlir kveða (Hávam.).
Oft kann (gefur) gamall maður góð ráð.
Ekki er hægt gamlan að ginna (S).
Gamlan er seint að snotra (S).
Ilt er að kenna afgömlum (S).
Fáir gera gömlum betur.
Gott er að vera gamall og muna mart.
Hann er eldri en tvævetur.
Seigar verða gamals manns sinar (Beverss. 242).
Oft verður sá gamall er með orðum er veginn (S).

Gott þykir gömlum baðið (K).
Ilt er að glettast við gamlan (S).
Þúngt veitir gömlum að gánga í kletta (S).
Stirð eru gömlum stöðubeinin (S).
Þúng verða gamalla manna föll (Fms. III 189).
Hætt er gömlum ef hrasa kann.
Nú ætlar gömlum að glepjast.
Æ skelfur gamall þó yfir glæðum sitji (S).
Ekki er fyrir gömlum að glæpast (S).
Engi er alt í senn úngur og gamall (S).
Úngur má en gamall skal (A).
Svo missjest öldruðum sem úngum (S).
Hann er gamall í hettunni.
Jeg er nú svo gamall sem á grönum má sjá.
Enginn verður eldri en gamall.
Hann hefur ekki lángt líf að missa sem gamall er.
Gamall lifir meðan guð vill (S).
Það er ekki alt gott sem gamalt er.
Sbr. muna.

**gamalmenni** Glestu aldrei við gamalmenni.

**gaman** Ekki er gaman nema gott sje.
Gaman skyldi græskulaust vera.
Mart er (sjer GJ) til gamans gert (K).
Oft verður grátt úr gamni (S).
Eftir gamanið oft er hljótt.
Oft verður ljótt gaman af litlu efni.
Kann eg við gamanið þeirra Gautanna.
Sbr. alvara.

**ganga** Gengið getur brúnkolla þegar hún vill.
Það er lítið sem gángandi manninn munar ekki.
Gekk maður um garð og gat þess ei (S).
Má það er yfir margan gengur (Eyrb. 59 og o.).
Mart gengur verr en varir (S).
Svo gengur hverjum sem hann er góður til (S).

Lengi hefur um gott skeið gengið.
Ýmist gengur með eða mót.
Altjend gengur nokkuð þá að er verið.
Gánga verður sem lagið er.
Þángað gengur sem gefur.
Gengur hverjum nokkuð til þess sem hann gerir.
Sbr. krjúpa, lok.

**garður** Garður er granna sættir (Norges love I 289).
Hver ræðst þar á garðinn sem hann er lægstur (S).
= Þar er dælst á garð að ríða sem lægst er (S).
Þeim skal úr garði fylgja sem maður vill að aftur komi (S).
Ekki (Gott) er um auðugan garð að gresja.

**garðshorn** Ekki er krókur að koma í garðshorn (S).

**garpur** Ekki er gott við garp að klást.

**gás** Þú þarft lás fyrir þína gás. Sbr. gæs.

**gata** Margar eru götur til guðs.

**gáta** Meira er að ráða gátuna en gera hana.
Oft er gáta lygi næst.
Kemur að gátu Guddu.

**gaukur** Sú sýngur sem gaukurinn.

**geð** Gott er þeim sem geð hefur glatt (S).

**geðprýði** sjá gull.

**geðspeki** Geðspeki er gulli betri.

**gefa** Gefið er best að gefa.
Þeim gaf (guð) sem þurfti.
Sá gefur mest sem minst má (S).
Gaf hún enn guðsbarnið, Haukadalinn með öllum hjáleigunum, og skrifa þú, djákni.
Gefðu mjer, sagði hann gefinn, og sleiktu upp allan þefinn.
Margur gefur svo hann glúpnar eftir.
Hver gefur það sem hann girnist á lengi.
Alt er gott gefins.

Svo gefur hverjum sem hann er góður til.
Flest er Gauta vel gefið.
Margur gefst upp á miðri leið.
**geispult** Geispult verður, kvað griðka (S).
**geit** Trauð gengur geit úr garði (S).
Þar bítur geit sem gengur (S).
Genginn er sá dagur þá geitin var feit.
Nú er mjer gengið, sagði geitin, jeg er bæði full og feit.
Margur fer í geitarhús ullar að biðja (Grett. 174).
Í geitarhúsi þarf ei ullar að leita (S).
Það er lítið þarfatal að gífra um geitarhárið (S).
Þú gífrar um geitarhár, kirnir um kálfsróu.
**gengi** Vex hver af gengi (Háttatal 26).
Göfgast mætti af gengi hver (M).
Án er ilt gengi (ils g.) nema heiman hafi (Nj. 70 og o.).
**ger** Það er ilt að vera bæði ger og matvandur (S).
**gera** Bágt er að gera svo öllum líki.
Ger þú heldur lítið en ekkert.
Margur gerir verr en hann veit.
Það gerir hver er honum gott þykir.
Það gerir enginn sem hann getur ekki (S).
Fleira verður að gera en gott þykir.
Gott er að gera vel og hitta sjálfan sig fyrir.
Gott að gera er aldrei ofseint (S).
Margur gerir lítið úr því sem honum er ekki lagið (S).
Ekkert er svo vel gert að ekki verði að því fundið (S).
Gerðu neðan við, gott er upp frá (S).
Það er nú sem gerist (Vígagl. 25).
Sbr. geta.
**gervi** Oft er galli á gervi (S).
**gestur** Guð elur gesti (Bisk. I 247).
Sjálfboðið er góðum gesti (S).
Betri er koma góðs gests en kveðja (PS).
Glögt er gests augað.

Gestur óboðinn byrði.
Sjaldan hlýst gott af gestum.
Þrínættur gestur þykir vestur.
Vondur er vanþakklątur gestur.
Órir gestur við gest (Hávam.).
Sbr. hjú, hús, nafni.

**geta** 1 Sæt er sjálfs geta, ef sjálfur náir að eta.

**geta** 2 Mikið getur sá vel vill.
Geta má þess er gengið hefr (M).
Þess verður þó getið sem gert er (Grett. 96).
Oft verður villur sá (fer sá vilt S) er geta skal (Mork. 107 og o.).
Hver getur sjer næst.
Hver getur þess er hann girnist.

**geyma** Betra er geymt en gleymt.
Betra er að geyma síns en grafast eftir annara.
Illum geymir ef aldrei nýtur (S).
Ekki geyma allir það besta til þess síðasta.
Það er ilt að geyma sem allir girnast (S).
Sá geymir músum er til morguns geymir (S).

**gifta** Giftu skal til göfugra manna sækja.

**giftast** Betra er að giftast en brenna.
Betra er að vera ógiftur en illa giftur.
Ekki er hægt að giftast þá enginn býst.
Sá sem giftist gengur ekki frá skildaganum.
= Giftir gánga til skildaga.

**giftíng** sjá gæfa.

**gikkur** Sá er engi gikkur sem ekki gerir sig það (S).
Margur er gikkur þó hann sje gamall.
Ekki þarf nema einn gikk í hverri veiðistöðu.
Ekki er gikkurinn fjarri þegar til hans heyrist.
Gaman er oft að gikkjum hent (S).
Hældu gikknum ef þú vilt hafa gagn af honum.
Hver sem glettist við gikkinn fær af honum hnykkinn (S).

Hvað skal gull í gikksins hönd.
Eftir útlendri þjóð apar gikkurinn (S).
**gildra** Gildrur eru gerðar til vjela.
**gilja** Lyst og vilji læra sveini að gilja.
**gíll** Sjaldan er gíll fyrir góðu nema úlfur eftir renni (A).
**girnast** Margur girnist margs sem hann þarf þó ekki (S).
**girnd** Það er hvers girnd sem hann gerir.
Það er einskis girnd sem hann getur ekki (S).
Illa gefast girndarráð (S).
**gjald** Gjald er góð vara.
Betra er geymt gjald en gömul sök.
**gjalda** Hann á honum grátt að gjalda.
Hver ei hefur grís að gjalda gjaldi sína húð.
**gjöf** Sælli er gjöf en þága (S).
Gjafafje er fengur rýr (S).
Oft kemur gjöf illa niður.
Sínum gjöfum er hver líkastur (S).
Sýtir æ glöggur við gjöfum (Hávam.).
Ils manns verða aldri grandalausar gjafir (Fas. III 9).
Æ sjer til gildis gjöf (Hávam.).
Oft kemur gjöf til gjalda (K).
Glík skulu gjöld gjöfum (Hávam.).
Eg lofa allar gjafir nema kylfuhögg.
Galli er á gjöf Njarðar.
Sbr. grön.
**gjör** Gott er til gjörs að taka (Hák.mál).
**gjörvileikur** sjá gæfa.
**glaður** Glaður er sá sem gróða hreppir.
Flest verður glöðum að gamni.
Ekki er sá glaður sem annan þreyr (S).
Oft gleður sá aðra sem glaður er (S).
Sbr. kátur.
**glappi** Ilt er gamlan glappa að snotra.
**gleði** Gleðin gerir limina ljetta.

Oft er gleðin aftanmjó.
Sá er ekki gleðivandur sem gamnar sjer að hrosshausnum.
Nú er gleði á Hjalla.
**gleðjast** Gleðst ei af annars gæfuleysi. Sbr. kátur.
**gleipa** Gleipt hefur gípa meira.
Gleymt er þá gleipt er.
**glens** Það er rjett að borga glens með gabbi.
**gleymska** Fyrir gleymsku sakir drekkur margur víti.
**glíma** Þegar tveir glíma fellur sá sem minna má (S).
**glópur** Til þess er glópur að ginna (S).
**glotta** Glotta skyldi um grön ef gletta býr inni.
**gluggi** Kondu á hinn gluggann, segja austanmenn.
**glys** Mart er glysið í mángarans búð (S).
Afsælt verður annarlegt glys (PM).
Sbr. annar.
**glæpur** Sá kaupir glæp er gerir og ekki vill yfir bæta (Parc. 35).
Gjöld eru glæpa fylgjur (S).
**glöggskyggni** Góð er glöggskyggni.
**glöggur** Glöggur er sá sem götuna sparar.
**glöp** Ein glöp sækir jarl hvern (Ól. helg. 60).
Allir eiga glappaskot á æfi sinni.
**glötun** Greiðfær er glötunar leiðin (S).
**góa** Sjaldan er gagn að góu ísi.
Það verður á góunni við ljós.
Grimmur er sá góudagur sem ekki tekur í Hlíðarfjall.
**goð** Nú er sett gullið upp á goðið.
Goðið er öllum gögnum dýrra (PM).
**góður** Sá skyldi góður er grandvar þykist.
Grandvar skyldi enn góði maðr (M).
Sá skal grand varast sem góður þykist (K).
Hægra er að virðast góður en vera það (S).
Enginn er góður sjergóður.

Góður á jafnan góðs von.
Góður gerir það oft sem gikkur lastar.
Góður skal rjett eitt ræða.
Oft á góður granna vondan.
Með góðum ertu góður.
Oft kann góðan grand að henda.
Oft snýst góðum last í lof.
Víða er góðs manns getið.
Mart er líkt með þeim er góðir þykjast (Grett. 99).
Oft enn betri bilar (Hávam.).
Góður maður og gagnlaus er naumast hálfmenni.
Gott af góðu má hljóta (K; hljótast GJ).
Til sín skyldi enu betra snúa (M).
Gott gerir aldrei manninum skaða (K).
Gott hæfir góðum (S).
Það er ekki ætíð best sem blíðast er (S).
Oft grær gott í grend við ilt (S).
Þaðan er góðs von sem gott er fyrir (A).
Alt er gott við góðan að eiga.
Alstaðar er góðum gott.
Margur er með góðum góður, með hinum hitt.
Gott er að vera í góðum hóp og gerast honum líkur.
Gott er góðum að líkjast.
Svo má góðu venjast að gæðalaust þyki.
Sá er sæll er góðs bíður (K).
Ekki þarf góðs að iðrast.
Betra er að vægjast til góðs en bægjast til móðs.
Gæða skal það ei er gott (S).
Fleira þykir gott en sje (M).
Aldrei (Sjaldan) er gott (góðu) oflaunað nema ilt komi á móti (S).
Gott er góðs að njóta (S).
Gott er góðu að una (hrósa; S).
Gott er meðan góðu náir.

Gott er það ekkert sem góðu spillir.
Gott er að eiga góðan að (S).
Gott er að vera (er alt) við góða sáttur (að skifta; S).
Gott er góðum að þjóna (S).
Gott er alt sem að vilja gengur (S).
Betra er að hjer sje en hjer hafi verið (AM 123, 8vo).
Grunt er á því góða.
Gott er með þeim í gær bitust.
Hvað skal góðs án móðs.
Oft er góður gjafalítill (S).

**góðviðri** Bú þig í góðviðrinu við illviðrinu.

**góðvilji** Margur geldur góðviljans.

**góna** Gón ei svo hátt að þú gleypir sólina.

**grafa** Sjer grefur gröf þótt grafi (K).
Enginn veit hver annan grefur.
Sbr. gröf.

**gráhærður** Ekki er gott að glettast við gráhærðan.

**gramur** Oft bítur það gramur sem gæskur sparar (K).

**granni** Hollur granni er gulli betri.
Oft er lígur granna á milli.

**grár** Grátt skal í gráan (gráðugan) fara.
Margur á fyrir grátt að gjalda.
Að breiða grátt ofan á svart er ekki skart.

**gras** Þar grær gras sem girt er um (S).
Sjaldan grær gras á almennings götu.
Ekki spretta öll grös við einsamlan þurk.
Þessi lætur grösin gróa.

**grásleppa** Tak ei grásleppu með gullneti.

**gráta** Sá má lengi gráta sem enginn huggar (S).
Oft kemur grátur eftir skellihlátur.
Ekki skal gráta drengi dauða.
Grátum eigi en munum lengur (Flat. I 129).
Sbr. fagur, fríður.

**grautur** Lengi skyldi góðan graut á gólfi hræra.

Hægt er lítinn graut að súpa.
Mart er grátt í graut etið.
Ýmsir eiga hlut í grautargerð (S).
Ekki er ár í illum staðargraut.
Sbr. Áki.

**greiði** Greiði kemur greiða á mót (S).

**greina** Sjaldan er eins ef tvo greinir (Bisk. II 45).

**greppur** Ekki leynir greppur sjer í eldi.

**grið** Ilt er á sín grið að gánga.

**griðkona** Oft verður grátt gaman af griðkonu deilu.

**Grímseyjarsund** Ekki er alt Grímseyjarsund róið í einum vör.

**Grímur** Hvað er nú Gríms að geta, Grímur er löngu dauður.

**gripur** Vandfarið er með vænan grip.
Kjörgripina skal elska vegna kostanna.
Það hyggur margur góðan grip hann sjer í svip (PM).

**grís** Grísir gjalda þess er gömul svín valda (Stjórn 63).
Grenja mundi grís, ef gölturinn væri drepinn (Ragnarss. 158, S).
Sjer (Veit) hvar í garði grís er alinn (S).
Sbr. gjalda.

**grjót** Ilt er að hafa grjótið í gamninu.

**gróa** Það grær áður en þú giftist.

**grunnúngur** Ekki verður grunnúnginum ginskortur.

**grýla** Eins fer hún grýla með öll börnin sín.

**grýta** Hver rakar eld að sinni grýtu.

**græða** Flestir vilja græða og góssinu hlæða.

**gröf** Sá ætlar öðrum gröf sem grefur en ekki sjer.
= Sjer grefur gröf þó grafi.
Allir gánga áfram (Alt er gángur) til grafar.
Sbr. grafa.

**grön** Honum gulna granir við gjöf hverja.

**guð** Óttinn hefur guðina gert.

Guð gefur brauð með barni.
Guð gefur alt gott en halt ei um horn uxanum.
Guð styrkir góðan vilja.
Mart á guð ógefið.
Undarlega útdeilir guð sínum gáfum.
Þann má ei kefja er guð (Kristur) vill hefja (Sex. sög. 58).
Margan á guð góðan.
Guð signi þig Klóti, kvað ábóti.
Ekki eru allar sóttir guði að kenna (S).
Nú væri guð í garði (Grett. 44).
Víðar er guð en í Görðum, hann er líka í Grindaskörðum.

**guðspjöll** Ekki er gaman að guðspjöllunum þá enginn er í þeim bardaginn.

**gull** Gull er gull hver sem á því heldur.
Gull er ei svo gott (rautt) að ei gángi fyrir mat.
Skín á gull þó í skarni liggi.
Tína má gull úr grjóti (S).
Gull er grams múta.
Fáir gefa gull fyrir grjót.
Ekki er gefandi gull við eiri.
Ofkaupa má gullið (S).
Margur verður á gullinu gintur.
Gull hlær að heimskum.
Ekki er gullið í skelinni.
Þú sækir ekki gull í greipar mínar.
Ekki er gott að sækja gull í arnar klær.
Hætt er að geyma gull í glersjóði.
Illa geymist gull undir geitar túngu (S).
Nóg var þá gull er ambáttir báru.
Nú skiftir um skarða gullið.
Það er að setja gullið upp á goðið.
Fleira er gilt en gull í skuld.

Ekki er alt gull sem glóir.
Gull reynist í eldi en geðprýði í mótlæti (A).
**gullguð** Fyrir gullguðum gerir margur knjesig.
**gullhúfa** Hjer er hver gullhúfan upp af annari.
**gumpur** Oft ganir gumpur undan höfði.
Stór gumpur þarf víða brók.
**Gunna** Hverjum var það að þakka að hún Gunna flaut.
**gýgur** Gengin er gýgur úr fæti en harðsperra aftur komin (S).
**gylla** Margur gyllir þótt grátt sje undir (S).
Margur gyllir (Enginn skyldi gylla) það sem ei er gullsins vert.
**gæða** Lengi má á gæða (S).
**gæfa, gæfumaður** Betri eru gaupnir gæfu en byrður manvits (K).
Gæfa fylgir góðri nennu (S).
Þar er hvers gæfa mest sem getinn er (S).
Grípur engi gæfu þá sem guðsson vill ei veita (K).
Sá fær gæfu sem guð vill (S).
Ekki er gæfan grandalaus (S; á stundum b. v. GJ).
Sitt er hvort gæfa eða gjörvileikur (Grett. 82).
Oft er mjór stofn mikillar gæfu (S).
Gæfa er undir giftíng hálf.
Alt verður gæfumanninum að láni (S).
Guð á ei gæfumanninn nema hálfan.
Seinþreyttur er gæfumaðurinn (S).
Ilt er að glettast við gæfumanninn (S).
Sjaldan brotnar gler fyrir gæfumanni (brýtur g. gler; S).
Sjaldan er gæfumaðurinn ger.
**gægjast** Gakk en gægstu ei.
**gæs** Taka skal gæs meðan gefst (S).
Þú gegnir þeim gæsum sem í gær flugu (A).
Gæs flaug yfir Rín kom afturgánga heim.
Sbr. gás, mær.

**gæta** Vel er þess gætt sem gætinn geymir (S).
**gætni** Mörgum verður gætnin að gagni.
**göltur** Auðfengnar eru gelti sakar (M).
= Feitur göltur fær vel sök.
Þar er ekki feitan gölt að flá sem flesk er ekkert á (A).
**göngukona** Sjaldan verður gagn að göngukvenna verki (K).
Sjaldan er gagn að göngukonu og góu ís (A).
**göngumaður** Lítið gagnar göngumanni göfug ætt (S).

## H

**háð** Háð er heimskra gaman.
Sjálfan sækir háðið heim.
**háðkjaftur** Háðkjaftur hefur hvassan kníf en tóman kvið (S).
**hafa** Hann hefur það sem á hann er lagt.
Hver hann hefur mikið, krefur mikils.
Hafa skal meðan halda má.
Það hefur enginn sem öðrum er ætlað.
Það er ekki að hafa sem ei er að fá.
Sá ekki hefur týnir engu.
Sjaldan hefur sá alt sem oft hellir.
**hagkeypi** Meira má hagkeypi en harðkeypi.
**hagl** Hagl er heiði næst.
**hagmæltur** Fyrr er hagmæltur en höfuðskáld.
**hagnýtni** Hagnýtni drýgir litla muni (S).
**hagskifti** Hagskifti fást ei í hverju kaupi.
**hagsýni** Hagsýnin vinnur hálft.
**hagur** 1 Hægt er högum manni ráð að kenna.
Ilt er að sjá við hags manns höggum.
**hagur** 2 Af orðum kennast ýta hagir.
**hákall** Ekki er hákallinn (háki) hörundsár.
Það er hákalls (skötu) lýsi og molnar úr.
Ekki er öllum hákölllum skift á skák (meðan enginn er á land dreginn).

**hálfsjeður** Hálfsjeður er maður þó í svip sjái.
**hálfur** Hálft er betra en heilt af illu.
Hálft hefur þá hundi er boðið.
**hali** Þú rakst krók á hala hans.
Skammur er nú hali okkar í dag (Sturl. I 572).
Ekki er svo ljett, að eigi dragi halann.
**hálka** Á mannbroddum skal hálku hlaupa (A).
**Halla** Þar kemur hópurinn hennar Höllu.
Söm er Halla kerlíng og hefur verið.
**Hallgerður** Honum liggur hvert orð í Hallgerði.
**hálmur** Hann kann best við hálm sem engan hefur.
**háls** Betra er handlegg en háls að brjóta.
Hver hann slær á hálsinn slær nærri höfði.
**haltur** Láti guð rigna gánga haltir á hækjum.
Bregður höltum til hækju.
Ekki eru allir haltir sem hínkra.
**hamar** Hann klífur þar til þrítugan hamarinn.
**hamhleypa** Bágt er að festa hönd á hamhleypum.
= Hamhleypu er bágt að henda.
**hamíngja** Ilt er við hamíngju að etja (S).
Ramvilt er hamíngju hjólið.
**handverk** Hæfir hverjum handverk sitt.
**hani** Heima (Á haugnum GJ) er haninn ríkastur (S; frakkastur GJ).
Af annars fjöð um verður haninn feitur.
Hann reisir nógu hátt hanakambinn.
**hann** Hans var en ekki Árna biskups.
**happ** Happið er heimlatt.
Sá skal hafa happ er hlotið hefur (Eyrb. 11).
Sá fær happ sem hamíngjan ann (S).
Láttu ekki happ úr hendi sleppa (A).
Ekki er happ hlotið þó hálffest sje (A).
Ekki veit hvar óvænum gefur happ.
Sjaldan hlýst happ af hundi eða heill af strák.

**hár** 1 Sje svo hátt sem hrúkir.
**hár** 2 Hárið hefur sinn skugga.
Oft er dygð undir dökkum hárum.
Ýfist hár af hverjum kala.
Grá hár hæfa úngu höfði.
Það var jeg hafði hárið.
**harður** Hart á móti hörðu, sagði skraumi, þá hann skeit móti skruggu (S).
**hátíð** Hátíðir eru til heilla bestar (Laxd. 151).
**hattur** Lengi fer gamall hattur vel.
Hreyktu ei svo hattinum að hnakkinn verði framan á.
Til láns er hatturinn þó hann hreyki (S).
**Haukaskörð** Vant er í Haukaskörðum.
**haukur** Hann berst sem haukur við klær.
Gott er að eiga hauk í horni.
Betri er einn haukur á hendi en tveir á flugi.
Sá man sem haukinn gaf (S).
**haustbreiðsla** Betri er ein haustbreiðsla en tvær vorbreiðslur (S).
**hausthugi** Annað er hausthugi, annað vorhugi.
**haustskurður** Betri (Hollari) er haustskurður en horskurður (S).
**hávarr** Hávarr er sjaldan orðvarr.
**hefja** Betra er að hefjast af litlu en kefjast af miklu.
**hefna** Fornrar skemdar skal fyr hefna (Bæríngss. 111).
Sá hefndist lítt er sjálfan sig hjó.
Sbr. tvímæli.
**hefnd** Hefnd egnir til hefnda (S).
Mörgum kemur makleg hefnd.
Eigi veit áður hefndum lýkr (M).
Heimsækir hefnd um síðir.
Hefnd dregur illa sættir saman (S).
Oft verður sárhögg sígandi hefnd (S).
**hegri** Hvar hegrinn flýgur halann ber hann með.
Skitnu launar hegri fóstur (PS).

**heiður** Betra er að skilja með heiður en lifa með skömm (K).

**heift** Heiftin heftir giftu.

Heiftarorðum fylgja oft heiftarverk.

**heigull** Nú ætlar heigull að dángast.

**heilagur** Ekki verður altíð súngið heilagt.

Það er ekki oft að heilagur andi kemur í Laxárdal.

Svo bregðast helgir menn sem aðrir.

Helgir menn mæla fátt en minnast hefnda sinna.

**heill** 1 Heill er hver hraustastur.

Heill má vel hlaupa.

Heilir þurfa ei læknarans.

Alt er heilum hægt.

(Að) heilum kemur hverjum fyrst.

Sá er engi heill sem í geðinu er veill (S).

Mart má heilan hindra (S).

Hann gengur ekki heill til skógar sem af er höndin.

Lítt batnar kvað hinn, er þá heill (K).

Betra er heilt en vel gróið.

Er um heilt best að binda (Laxd. 177).

Hægt er heilt að bæta.

Heilt skal fyrir heilt gefa.

Alt er heilt í hilmíngu (hermitúngu).

**heill** 2 Betri er heill en hundrað marka (S).

Ilt er fyr heill að hrapa (Reginsmál).

Eigi veit hverju heilli hvergi kemur (Gautrekss. 37; heiman fer GJ).

Ilt er að leita heilla í hundsrassinn (K; til stráksins GJ).

**heilræði** Hægra er að kenna heilræðin en halda þau.

**heilsa** Heilsan er hverjum munað betri.

Heilsan fylgir hófi.

Heilsan er fátækra manna fasteign.

Vandfarið er með veika heilsu (S).

**heim** Heim kemst sá sem hægt fer.
**heima** Heima er hverjum hollast (S).
= Hollur er heima hver.
Það er hollast sem heima gefst (A).
Heima er best að hvílast.
Heima á eg verst en þar þykir mjer best.
Dælt er heima hvað (Hávam.).
Nökkvi ríkstur er heima hver (M).
Heima er heimskum best.
Hvað sem heima er er haldið lakt.
Hættur er heimis kviður (Sigrdríf.).
**heimahvinn** Heimahvinn er verst að varast.
**heimamaður** Lángur er heimamanna búníngur.
**heimaríkur** Hann er heimaríkur eins og hundarnir.
**heimasker** Heimaskerin eru hættust.
**heimasnagi** Heimasnagarnir halda honum.
**heimatök** Hæg eru heimatökin.
**heimild** Heimild er best til hverra verka.
**heimróður** Hollur er heimróður.
**heimska** Hver er við sína heimskuna bundinn (S).
Stórlát er heimskan.
Hátt hugsar heimskan úr hófi (S).
Miklu kann heimskan að spilla.
Heimskan fylgir heift (Parc. 35).
Illa skartar heimskan heima, hálfu ver utan húss (S).
**heimskur** Best er heimskum heima (S).
Heimskur er aldrei hygginn.
Bágt er (Seint koma) heimskum um hyggindi (S).
Heimskur er hugmestur (S).
Heimskur lofar sjer líkt (S).
Heimskum er þögn best (hollust; S).
Heitum verður heimskur maður feginn (Þ. stang. 53).
Á fáu kann heimskur hóf (S).
Seint er heimskan að snotra (K).

Villa er dælst of heimskan mann (M).
= Hægt er heimskan að villa (S).
Vansjeð er heimskum að sjá við brögðum (Sigurg. frækn.).
Auðþektur er heimskur nær hjá hyggnum situr (A).
Ekki er heimskum hófs að leita.
Sá heimski heldur hvern mann heimskari sjer.
Oft svarar heimskur áður en hann heyrir.
Sá er enginn heimskur sem veit hvað sjer hæfir.
Sá er ekki heimskur sem kann að skammast sín (S).
Engi er allheimskur ef þegja má (Grett. 198).
Heimskur lætur á glysi ginnast (S).
Það á við heimskan að hæla honum.
Hól gleður heimskan (S).
Oft hlær heimskur að hugsun sinni (S).
Heimsk orð koma úr heimskum belg
Gott nafn heimskum að heita hjáræna.
Seint þekkir heimskur hæðni.
Fátt er verra en vara heimskan (K).
Ilt er heimskum lið að veita (K).
Ilt er að setja heimskan hátt.
Oft hjalar heimskur hátt.
Hvorki bæta orð nje álögur alheimskan mann.
Oft hváir heimskur maður og heyrir þó.
Heimskum þykir sín kylfa kostulegust.
Heimskum manni eru heitíngar gjarnar.
Heimskum er best í hilmíngu vera.
Heimskum skal í hrúgu fá.
Heimskur hurðu skellir (S).
Búið hafa heimskari í Flóa.
Að látast heimskur í hagkvæma tíð, það er vanalegt hjá vitrum lýð.
Hafa skal ráð þó heimskur kenni (S).
Sbr. fara, heima, hóf, hól, högg.

**heimur** Ekki dettur heimurinn þó herrarnir deyji.
Hann sýnir honum í tvo heimana.
Hann er eins og milli heims og helju.
Hætt (Naumt) er á milli heims og helju.
Honum sýndist ekki heimurinn meiri en kálfskinn.
Hætt er heims högum.
Hált er heims glysið (S).
**heit** Lengi skipast hörð heit (S).
**heitur** Kólnar fljótt heitt ef kalt blæs á (A).
Fyrr er heitt en fagurt skin.
**hel** Jafnlángt er til heljar heima og á hafi úti.
Fölvar hel þó frítt sje.
**helgrind** Allir sitja jafnhátt í helgrindum.
**heljarmaður** Ilt er að fást við heljarmanninn (Grett. 136).
**heppinn** Heppinn er sá við hug sinn ræður.
**heppnast** Það heppnast hverjum sem hann er til borinn (S).
**her** Illa berst höfuðlaus her (S).
Dauður er höfuðlaus her.
Drjúgur er landsherinn.
**herklæðast** Seint er að herklæðast þá á hólminn er komið.
**herma** Sjaldan lætur sá betur sem eftir hermir.
**hernuminn** Fár hernuminn er frækn til vígs (Fáfn.).
**herra** Margur vill herrann vera en fáir vilja sekkinn bera (K).
Herrar vilja hæst sitja.
Herranna hylli er varanleg eins og flautafylli.
**hestur** Svo er hestur sem hann er hafður.
Höfn ræður hesti.
Vinna fákar til fóðurs.
Viljugum hesti vilja flestir ríða.
Spakt skyldi góðum hesti ríða (K; úr hlaði S).
Magran skyldi kaupa hest (M).
Húsbóndans auga feitir hestinn.

Lítill hestur er í vatni mestur (S).
Ilt er að kenna gömlum hesti gáng.
Klárhestar þurfa keyri.
Lítil hestaskifti gera stutta dagleið.
Hestur fellur oft á flötum vegi.
Ilt er að hefta heimfúsan klár (S).
Stolinn hestur hleypur best.
—Ekki skal skoða tennur á skenktum hesti.
= Gefnum hesti ei gægst í munn.
Ilt er að hafa hesta hug en músar mátt.

**hetta** Honum verður ekki hettan (al. kápan) úr því klæðinu.

**hey** Ekki er hirðanda hey, ef hvassara er en laufvindar (S).
Flest er hey í harðindum (S).
Betra er hey en hagi.

**heyra** Það heyrir annar er ekki heyrir annar (K).
Heyra má þó lægra láti.
Heyra má mart en herma ei eftir.
Heyri eg, ekki er að heyra, sagði kerlíng.
Oft er í holti heyrandi nær (Grett. 134).
Jafnan heyrist ei sem er (S).
Heyr þú mjer, sagði daufur við dumba.
Sbr. eyra.

**hik** Eitt hik gerir mart strik.

**hika** Margur hikar þó hann sje ei hræddur.

**himinn** Himins brots hef jeg fyrri vonað.
Það er eins og himininn detti í höfuðið á þjer.

**hirða** Hálfu meira er að hirða en að afla (A).
Hirða má við hálfum skaða.
Hver hann hirðir það hann hefur, hann finnur þegar þörfin krefur.

**hirðir** Úlfi kennir illur hirðir (S).

**hirðulaus** Hirðulaus ei hótun kvíðir.

**hirtíng** Hirtíng er góð með hófi stýrð (S).
**hjákona** Hvar er alt fólkið, sagði bóndi, hjákonan var ekki á pallinum.
**hjal** sjá baðstofa, hjón.
**hjálpa** Hjálpa svo þjer verði hjálpað.
**hjarta** Hjartað þarf ei meira rúm fyrir mikið en lítið.
Ekki hafa allir hjartað á vörunum (S).
Glaða hjartað góðu spáir (S).
Gott veit á glatt hjarta.
**hjassi** Þú hefðir ei svo hárlausan hjassann, hefðir þú ekki rekið þig upp undir himininn.
**hjásögull** Hjásögull er vændur lygi þó hann segi satt (S).
**hjegómi** Fagur líst heimskum hjegómi.
Af sjer má hjegóma hrista.
**hjeri** Erat hjera borgnara að hæna beri skjöld (Mork. 173).
**hjól** Því hriktir hjól að það er harðlega neytt.
Altjend hriktir hið verra hjól.
Oft festir saur á fögru hjóli.
**hjón** Fyrst skal hjón húsum fá.
= Hús skal hjóna fá (Bisk. I 60).
Hugró skal hjónum fá.
Mart er hjóna hjalið.
Sbr. hjú.
**hjú** Sem húsbóndinn er, svo eru hjúin (S).
Hjú sem herra, bú sem bóndi.
Hjúin gera garðinn frægan.
Dygt hjú skapar bóndans bú.
= Hjónanna trú styrkir b. b.
Vont hjú vanar bóndans bú (S).
Sjálfrátt hjú sveltir bóndans bú (S).
Altíð gleðjast hjú vina komu.
Flest (Mart) kemur upp þá hjúin deila (S).
Margs verða hjónin (hjúin) vís, þá hjúin (hjónin) deila.
Oft njóta hjú góðra gesta.

Góð væri hjúin, ef ekki væri maturinn, sagði kerlíngin (S).
Sbr. bú.
**hjörð** Hirðir skal vita hvað af hjörð verður.
Aum er hirðislaus hjörð.
**hjörur** Lengi hefur hrikt á þeim hjörunum.
**hlaða** 1 Ekki er alt á einn hlaðið (K).
Sjaldan hleðst svo alt á einn, að eigi sje nokkuð að (K).
**hlaða** 2 Fáir kunna úr fullri hlöðu að deila.
**hlass** Velt hefur Þórður þýngra hlassi.
**hlaup** Ofsnögg hlaup gera iðrunarkaup.
**hlaupa** Ekki tjáir að hlaupa frá sjer sjálfum.
Hann hljóp upp og komst hvergi.
Þeir hlaupa saman á hornunum.
Gott er hvað af hleypur (S).
**hleifur** Betri er hálfur hleifur en ekki (S).
**hljóð** Kemur hljóð úr horni.
Hann vill heita herramaður af hljóðunum.
**hljóta** Eitt er að hljóta, annað að njóta (S).
= Að hljóta og njóta fer ei altjend saman.
**hlutgjarn** Hlutgjarn fer með annars sök (M).
**hlutur** Hann á hlut í vætt (grautargjörð).
Hann tekur hlut á þurru landi.
**hlýindi** Hlýindi eru við hálfa gjöf.
**hnakki** Sje svo heill á þjer hnakkinn.
**hnauka** Hann hnaukar svo best hann hafi nokkuð.
**hnefi** Hnefi skal hendi mæta.
**hnífur** Þar stendur hnífurinn í kúnni.
Það er ekki oft að hnífur minn kemur í feitt.
Hvetja verður hníf ef bíta skal.
**hníga** Þángað vill hver hníga sem hann er hallur (S).
**hnoss** Vera má hnoss þó ei sje kraginn hans Odds.
**hnútur** Hver er sínum hnútum kunnugastur.
**hnýsni** Hnýsnin er bönnuð en aðgætnin eigi.

**hóf** Hóf er á hverju best.
Hóf er hagkvæmast.
Alt kann sá er hófið kann (GSúrs. 27).
Best er til hófs að búa (Ásm. kapp. 82).
Hóf er best í hverjum leik.
Hafnaðu því sem hófi er meira.
Vandi er hófs að gæta í velgengninni (S).
Mjótt er mundángshófið (G).
Best er hóf að hirða þá hamíngjan er blíð (S).
Tvö eru hófin og ratar heimskur hvorugt (S).
Hóf er á öllu nema hvílukossum einum (K).
Hófleysa er falls furða (S).
Klaufi, Klaufi, kunn þú hóf þitt (Svarfd., GJ).
**hófsemi** Hófsemi er heilsu best (S).
**hól** Hólið á við heimskan.
Ekki er öllum hólið kent (S).
Settu ekki hól á sjálfs gerðir (A).
**Hólamenn** Ljettast taka Hólamanna klakksekkir.
**hold** Ilt er að skilja hold frá beini.
Fagurt er hold fjarri beini.
Hold fylgir hendi.
Hold er mold hverju sem það klæðist.
Hold spillir heilsu.
Holdið er torvelt að temja.
Margur ljær holdi lausan taum þó leynt fari (S).
Ætíð vill holdið um eitthvað klifa.
**hóll** sjá dalur.
**hollur** Það er hollast sem heima gefst.
**hólsamur** Hólsömum er hætt að trúa.
**holt** sjá heyra.
**Holtastaðir** Eg á að ríða til Holtastaða en ei til Skarðs.
**hopa** Margur hopar sjer til vansa.
**hor** 1 Hor hefur mann drepið en básálfur tvo (K).
**hor** 2 Aftur sækir hor í nef.

**hóra** Engin verður hóra eins manns vegna.
**horfa** Þú horfir á mig sem kýr á kvikindi.
**horn** Það er meiri slægur til hornanna en hrútsins.
Hann hefur alt á hornum sjer.
Það skýtur í tvö horn.
Margur á horn í annars síðu og þyrni í annars fæti.
**hornsíli** (Hjer GJ) syndum vjer fiskarnir, segja hornsílin (S).
**hót** Ekki þarf að hræðast hót (M).
Engan drepa digur hót (S).
Fleiri eru hót en gjafir.
Hótin einn hafði jeg sagði hinn, hann Hallvarður.
**hrafn** Hrafnar falla ei á farihræ.
Það er krummanna að kroppa út augun.
Engi hrafn höggur annars augu út (S).
Þá er hart í ári þegar einn hrafninn höggur annars augu út (S).
Enginn hrafn klekur kjúklíngum út.
Dælt þykir hröfnunum við hann loðinn (S).
Þyrpast hrafnar að hræi (S; Enn þ. GJ).
Fæð þú hrafnana það kostar meira en kálfskropp.
Nú er krummum krás gefin.
Mjer og mínum úngum, sagði krummi.
Krummar láta kólna mat en konur eigi.
Guð borgar fyrir hrafninn.
Gamla hrafna gerir ei eitt hregg hvíta.
Krummi verður ei hvítur þó hann baði sig (A).
Sjaldan þrýtur þrafa (hrafn) kjaftamátt (S).
Meir hoppar krummi en hleypur.
Illir hrafnar eiga únga sjer jafna.
Það eru ekki alt hrafnar sem krókinn hafa á nefinu.
Steypst hafa stærri hrafna hreiður.
Seint flýgur krummi á kvöldin.
Hart er hrafns brjóstið (S).
**hráki** Mildur er matar hrákinn.

**hrár** Hann er hvorki hrár nje soðinn.
**hreiður** Ræki hver sitt hreiður því ekki er sumar altíð.
**hreinn** Gott er til hreins að taka.
**hreykja** Engi er hærri þó hann hreyki sjer (S).
Ekki er hátt að hreykja sjer.
Hann hreykir sjer eins og köttur í ullarhrúgu.
Sá hrapar oft lágt sem hreykist hátt (S).
**hreyta** Lengi hreytir einspen.
**hríð** Hver hríð er hörðust móti því hún endar.
**hrís** Hart hrís gerir börn vís.
**hrísla** Það væri væn hrísla hefði hún tvær greinar.
**hróður** Maklegur hróður er engum ofgóður (S).
Sínum höndum á hver hróðurs að leita (S).
**hroki** Hroki vex þá hækkar í pýngju (S).
**hrolla** Mig hrollir við, sagði Rippill.
**hrosshaus** Ekki er gaman að glettast við hrosshausinn (S).
**hrosshófur** Hvað skal hrosshófur á hörpustrengjum.
**hrukka** Allir hafa hrukkur í enni.
**hrútur** Höfuð er stærst á hverjum hrút.
**hræddur** Hræddur flýr þó enginn elti (A).
Hræddur er sá sem ekki þorir að skjálfa (S).
Góður er hræddurinn, ef hann er í hófi.
**hrækja** Sá hrækir margur hraustlega, sem ekki er heilbrigður.
Sjaldan hrækir lipur lángt.
**hræsnari** Hræsnaranum er hætt að trúa.
**hrökkva** Það er annaðhvort að hrökkva eða stökkva.
**húð** Gamlar húðir þurfa mikið mak.
**hugga** Hugga skal þanns harm hefur beðið (M).
**hugull** Hugull er sá vel vill.
**hugur, hugi** Hugur (manna) ræður hálfum sigri (Þjóð. Arn.).
Hugurinn ber mann hálfa leið.
Fátt er spárra en hugurinn (S).
Hugurinn er hálfur draumur.

Veit eigi hvers hugar hverjum ljer (Sex. sög. 34).
Skatna þykir hugurinn grár (M).
Hryggur hugur ber bleika kinn.
Sá er eigi heill sem hugurinn veikir (Herm. og Jarlm.).
Bágt er að binda huga sinn.
Eg set ei hurð fyrir huga minn.
Illur gerist hugur af illu (Geisli).
Margur um hug sjer mæla kann.
Þar er hugurinn í henni höfuðkinn.
Hugurinn minnir á en hönd og túnga framkvæmir.
Í hug kemur meðan mælir.

**hugsa** Hugsa skal fyrr en hættir á (PS).

**húka** Sjaldan hlýtur húkandi happ (A).

**hundrað** Ekki er hundrað í hættunni.
Stattu kyr, hafa skaltu þrjú hundruð (Sturl. I 181).

**hundur** Gagar eru skaptur því að geyja skal (M).
= Til þess er gagi að gelta (S).
= Til þess er hundurinn að hann gelti (S).
Gætinn hundur glepsar síst (S).
Hátt geltir ragur rakki.
Betra er að ala hund en illan þræl.
Sá á hund sem elur.
Alt heldur hundurinn herra sinn (S).
Gefðu hundi roð og mun hann fylgja þjer.
Gef ei hundi meðan halinn dilar.
Hundur er sínum herra líkur, köttur sinni frú.
Oft nýtur hundur síns herra.
Hver hundur er frakkastur fyrir sínum dyrum (S).
Fyrir húsbóndans dyrum er greyið grimmast.
Heima er hundurinn frakkastur.
Oft vita hundar þá hjú matast (K).
Oft hefur hundur það hafna sessunautar (Fas. III 497).
Mart finna hundar (seppar) sjer í (sorp)haugum (K).
Sorphaugar eru seppum kærir (S).

Oft hlotnast hundi það hjúum er ætlað (S).
Oft hafa hundar það sem þeim ei er ætlað.
Á reimum (þvengjum) læra hundar húðir að eta.
Fleskið hángir ei svo hátt að hundurinn ætli sjer ei bein.
Hundurinn gengur aftur til spýjunnar.
Láttu ekki hundinn hunángið geyma.
Sjaldan reiðist hundur beinshöggi.
Sjaldan tekur hundur við heilli köku.
Það er siður rakka að rífa úr hnakka.
Því sleikir hundurinn steininn að hann er feitur.
Vita hundar hvað þeim er ofgott.
Veit hundur hvað etið hefur (K).
Ekki er hundum helgidóm að bjóða.
Æ leikur rakki meðan gamall hundur vill (S).
= Gjarnan liggur úngur rakki osfrv.
Lítill hundur er lengi rakki.
Ilt er að kenna gömlum hundi að húka (A).
Gamlan hund er ei gott að tjóðra.
Búinn er hundur þá hann hristir sig.
Fyrr et jeg af hundi en hundur af mjer.
Hundstúngan græðir en kattartúngan særir (S).
Það er lítið sem hundstúngan finnur ekki (S).
Einn hundur öfundar ef öðrum er klappað.
Hundurinn er ei hvers manns sem hjúkrar.
Það eru fleiri hundar svartir en hundurinn prestsins (S).
Oft eru hvítar tennur í svörtum hundi.
Ekki þarf hund með osti (oka) að slá ef svipan er nærri (S).
Ekki sómir körgum hundi keðja.
Dauður hundur bítur ei svo blæði.
Ilt er að tyrra þann hundinn sem kyrr vill sitja (PS).
Ilt er rakka að leika við bjarnarhvolp (PS).
Grimmur hundur fær oft rifið skinn (S).
Ekki er hár hundsrjetturinn (PM).
Hrind þú hundi á Jórdán, er hundur sem áður.

Hundum lát sína hátíð.
Hann dríttist burt sem halakliptur hundur.
Hunda kæti og kaupmanna eiður hafa jafnan stað.
Hátt lætur í hundunum þá þeir ropa.
Hvað skal hundur til hofs eða köttur til kirkju.
Hann er eins og hundur á heystakki.
Það er seint til hunda þá dýrið hleypur (S).
Fyrr vex rakka tönn en gamall bíti bein.
Putt, putt, skömm hunda, skitu refar í brunn karls (Fms. VII 21).
Sbr. biti, bjóða, hálfur, happ, rakki.

**húngur** Húngur kennir höndum vinnu (A).
Í hvílu er skást húngur að þola.
Ekki hentar húngri dvöl.
Tvö húngurmál gera hið þriðja gráðugt (S).
Húngur er hjóna hatur (AM 416 b).

**húnn** (?) Smátt gengur húninn (haninn).

**hurð** Gengur hurð þó hrikti.
Hurð mætir gáttum hvað sem við þráttum.
Margur seilist um hurð til lokunnar (Grett. 67).
Nærri liggur hurð hælum.
Ekki fellur þeim hurð á hæla sem annar eftir gengur.
Oft geldur hurð griðkonu reiði.
Hann reisir sjer hurðarás um öxl.

**hús** Gott hús er gestum heill.
Sá biður hlæjandi húsa sem matinn hefur í malnum (K).
Betra er tómt hús en tíu aular.
Betra er brotið hús en bygt með ósamþykki.

**húsbóndi** Húsbóndinn gerir garðinn frægan.
Flestir vilja finna húsbóndann heima.

**húsbruni** Hollari er húsbruni en hvalreki á fyrsta ári (S).

**húsdropi** Hlýr er húsdropinn.

**húsfreyja** sjá bóndi, mær.

**húshæfur** Hann er hvorki húshæfur nje kirkjugræfur.

**húski** Oft er húskinn heimafúll.
**húsmak** Holt er húsmak.
**hvalreki** sjá húsbruni.
**hvalur** Það kemur ekki hvert ár hvalur til lands.
**hvatamaður** Miklu veldur hvatamaðurinn.
**hvatur** Hyggsk vætur hvatur fyrir (Lokas.).
Hálfur er auður und hvötum (Hávam.).
Engi er einna hvatastur (Hávam. og o.).
**hvefsinn** Sá er hvefsinn í dag sem hánga á á morgun.
**hvekkur** Hann er hvekkur í hvers manns kopp.
**hvinn** Oft er hvinn undir hvítu líni (S; skinni GJ).
Ætlar hvinn annan sjer líkan.
Nú er hvinn kominn í hásæti.
Hvöss eru hvinna járn.
Illur hvinn er engu betri en smáþjófur.
Sbr. þjófur.
**hvíla** Hann hvílist tvisvar sem húkir á steini.
**hvíld** Hvíld skal hnauk krydda.
**hvíldrækur** Eg er mikilvirkur í skorpunum, sagði hvíldrækur (S).
**Hvítá** Nóg er vatn í Hvítá.
**hvítna** Engi hvítnar þó annan kámi (S).
**hvoftur** Illum hvofti (hvolpi) mælir enginn gott (S).
Gott er að hafa tvo hvoftana og flytja sitt með hvorum (K. og o.).
= Gott er að hafa túngur tvær og tala sitt með hvorri.
Sbr. kjaftur.
**hyggindi** Svo eru hyggindi sem í hag koma.
Hygginda ráð eru hóls verð.
Betur vinna hyggindi en harðindi.
**hygginn** Hljóður er hygginn maður.
Hygginn heyrir mart, hermir færra.
Sjaldan hlær (hreykir S) hygginn hátt.

Sjer kann jafnan hygginn hóf.
= Hóflátur er hygginn maður (PS).
Veit hygginn hvað við sitt hæfi er (S).
Ekki er hygginn hægt að veiða.
Hægt er hyggnum heim að koma.
Hygginn lætur sjer segjast.
Hygginn vinnur móð sinn með visku.
Grant kann hygginn að henda.
Oft hafa hyggnir menn heimska niðja.
Sbr. hæverska.
**hyggja** Fátt er of vandlega hugað.
Öðrum hugðu, sjálfir supu.
**hyggni** Hyggni greiðir heiðri veg (S).
**hylla** Gott er það að hylla sem vel er gjört (K).
**hýr** Hann er ekki hýr í horn að taka.
Ekki þarf hýrum sætt að bjóða.
**hæfa** Það hæfir hverjum sem hafa vill.
**hæfilátur** Hæfilátur hlýtur margra þökk.
**hægur** Heim kemst þó hægt fari (A).
**hælast** Ekki er að hælast um fyrr en hlotið er.
**hæna** Á mjer sjer, kvað hænan, hún var reytt í kolli.
Sbr. hjeri.
**hærur** Ekki kemba allir hærurnar (S).
Gott er að prýða hærur með æru.
**hætta** 1 Til margs verður hætt jafnan (Ísl.s. II 409).
Hefur sá (jafnan) er hættir (Hrafnk. 16).
Það hefur enginn sem hann hættir ekki til (S).
Litlu hættir nú til.
Alstaðar er öllum hætt.
**hætta** 2 Best er að hætta (hverjum leik) meðan vel fer (þá hæst fram fer).
**hætta** 3 Hætta vex þá hugur bilar (S).
Tveir eru í hættu hverri (Mág. 27).
**hætting** Hættíng er í hverri giftu (S).

**hæverska** Hæverska er hyggins einkenni (S).
**höfðíngi** Hverflynd er höfðíngja kæti.
Misblíð er höfðíngja hylli.
Hætta er að styggja höfðíngjabarnið.
Höfðíngja lýti skrifast með kríti.
**höfrúngur** Höfrúnga kæti veit á sig vind (S).
**höfuð** Hærra ber höfuð en herðar.
Höfuðið verður fótum falli að varna.
Oft er hýrt höfuð á mettum maga.
Fatt stendur höfuð á fullum búk.
Bágt er að berja höfðinu við steininn.
Hann má eigi um frjálst höfuð strjúka.
Óvíst er hver að annars höfði hleður.
**högg** Oft verður lítið af því höggi sem hátt er reitt (S).
Ýmsir eiga högg í garði (Nj. 162; v. l. annars garði, garða).
Skamma stund verður hönd höggvi fegin (Nj. 178 og o.).
Vant er að sjá hverir enn verða höggum (v. l. brögðum) fegnir (Eyrb. 108).
Holl eru hags manns högg.
Þeim skall högg sem skyldi (Sig. þögl.).
Högg fræðir heimskan.
Ekki sjer högg á vatni.
Lin eru höggin þín, lángi Loftur.
**höggspjót** Hann hefur höggspjót á hurðarbaki.
**höggva** Höggur sá er hlífa skyldi (S).
Ekki er hægt að höggva þá haldið er fyrir.
Höggðu hægra þjalirnar.
**hönd** Báðar eru hendur við axlir fastar.
Sjálfs er hönd hollust (Vígagl. 12).
Beggja þarf jeg handanna þá jeg er heima.
Hönd skal hendi fá.
Hönd veitir hendi lið en fótur fæti.

Höndin er ónýt ef armleggur brestur.
Hendur þurfa fóta við og fætur handa.
Margar hendur vinna ljett verk.
Veit hönd hvað hefur.
Það er næst sem í hendinni hefur verið.
Góð hönd er bætandi (K).
Góð er bætandi hönd, ill er spillandi túnga (S).
Mikið prýðir hagvirk hönd (S).
Oft eru vaskar hendur undir vondri kápu (S).
Það er örg hönd sem ekki ver höfuð sitt (S).
Örg er sú hönd er ei vill bera blak af höfði sjer (S).
Skylt er hendi af höfði að bera (S).
Oft eru vaskar hendur undir vargs belgi (S).
Gjörn (fús, töm) er (bregður) hönd á venju (Grett. 175 og o.).
Báðar verða hendur hreinar, ef hvor þvær aðra.
Ekki verður skitin hönd ötuð af sjer.
Ein hönd verður aðra þvo.
Hönd skal hendi þvo eða hvorgi hreinsast.
Þokka býður þrifin hönd.
Bágt er saurugri hönd frá sjer að kasta.
Örm er iðjulaus hönd.
Bjúgar krummur brúkist með hófi.
Oft er ljót hönd lagtæk.
Djörf er heimamanns hönd.
Ekki tjáir í tveim höndum að hafa.
Eg hef ei margar hendur á skinni.
Handaverkin lifa hvers lengst.
Hönd hins lata er löngum köld og tóm.
Lin er gjarnan löt hönd.
Hönd hins ríka er loðin í lófanum.
Þar leikur hönd á sem sárt er (S).
(Mörgum) eru mjög mislagðar hendur í knje.
Höndin sleppir happinu nauðug.

Honum eru mislagðar hendur.
Ilt er tómar hendur fram að bera og vinna til.
Hann þarf ei að taka hendi sinni í kalt vatn.
Hans hendur eru vísar við að taka.
Eftir eru hendur Hrólfs þó fætur sjeu farnir.
Hönd skal í hófi stytta (Sigvatr).
Margur kyssir á þá hönd er hann vildi gjarna að af væri (A).
Sbr. fótur, hugur, verk.

# I

**iðja** Betra er að iðja en biðja (A).
Ilt er að vera iðjulaus (S).
Betra er iðjulaus að vera en ilt að gera.
**iðn** Iðnin eykur alla ment (S).
Betri er iðn en ákafi.
**iðni** Iðni er auðnu móðir (S).
**iðran** Sein iðran er sjaldan góð (S).
**illur** Fátt er svo ilt að einugi dugi (Alex. 46).
Ilt gerir engum gott (K).
Frest er á illu (ils) best (K).
Kann ilt að vera og kann á að gæða (K).
Ekki má ilt varast nema viti (S).
Ilt er ættgjarnast (-gengast; S).
Verra er ilt en ekki par (S).
= Ilt er betra en ekki (S).
Ilt hefst (hlýst) af illum (S).
Margur er ils auki (ótti; S).
Ilt skal til viðsjár vita en gott til gagns (A).
Af tvennu illu skal taka það minna.
Betra er að ilt undan dragist.
Betra er ilt lítið en annað verra.
Betur er sefað ilt en upp vakið.

Engum er ilt skapað.
Fátt er svo með öllu ilt að ekki boði nokkuð gott.
Ilt er auðnumið.
Ilt er best að bæta ef má.
Ilt er best ógert.
Ilt kann ekki af illu batna.
Ilt kemur ókallað.
Ilt skal með illu út drífa.
Ilt skal til ámælis hafa.
Ólíkt er ilt og gott.
Svo má illu venjast að gott þyki.
Ilt er illum að vera (Grett. 127).
Ilt segir af illum (K).
Eigi gengur ilt til alls (Bós. 25).
Engum er ilt ofgott (K).
Mart er ilt í sæ (Bjhitd.).
Aldrei er gaman að illu (S).
Oft hlýst ilt af marglæti (S).
Ilt á sá sem ala skal.
Fleira er ilt en stela og ljúga.
Ils er von þó undan dragist.
Best er illu aflokið.
Betra er að prettast um ilt en enda það.
Ekki má ils með illu hefna.
Engum er ilt ofgott ef hann vill sjálfur hafa.
Illur flýr þó enginn elti.
Illur fyrst og verri var.
Illur gleðst af annars skaða.
Illur kann ekki lengi löstum að leyna.
Illur veit hvar ódyggur situr.
Oft verður illur óvart að gagni.
Sjaldan vægir sá verri.
Sjaldan er illum andvaralaust.
Illu trúa illfúsir menn.

Ilt skal illum bjóða (K).
Af illum (Illur) jafnan ils er (á) von (S).
Þrýtra þann er verr hefur valt (M).
Illir kvíða endurgjaldi (S).
Fátt er illum ugglaust.
Hvar vill illur óhataður vera.
Illir menn árgagni spilla.
Ilt láta illir fátt ógert.
Ilt leiðist illum seint.
Ilt er illan að siða (S).
Illum geymir (gerir) ef aldrei nýtur (S).
Oft ferst illur með illum (S).
Illa mun illum lúka (G).
Óttinn agar illan (S).
Að gefa illum ráð er sem að ausa vatni á gás.
Ama flestir illa ræmdum.
Ilt er illan að hyllast (illum að þóknast).
Ilt er ilt að geyma en góðu gleyma.
Ilt er illu ofan á ilt að bæta.
Ilt er illur að vera, aldrei er honum gott ætlað.
Illa mun illum lúka (Fas. III 314).
Sbr. kátur, okur.

**illvilji** Illa rekur illvilji annars erindi (S).

**ilska** Annara ilsku lát þjer eigi fyr þörfum standa.
Sjaldan er ilska innföst (S).
Aldrei dylst ilskan til elli (S).
Víða kemur fram ilska þín, Ubbi.

**Íngjaldur** Nú hefur Íngjaldur eðli sitt.

**innansleikja** Drjúg er innansleikjan.

**ís** Sjaldan er mein að miðsvetrarís.
—— Sjaldan fylgir happ hörpuís.
Sbr. góa.

**íþrótt** Íþrótt er auðbær.
Góð íþrótt er gulli betri (S).

# J

**já** (-nei) 1 Já og nei gerir lánga þrætni (K).
Já er meyjar nei (K).
**já** 2 Já þú því einu í dag er þú iðrast ei á morgun (PS).
**jafn** Þá er jafnt er á hvorugan hallast.
Jafnir löngum leika best.
Jöfnum þykir best saman að búa (S).
Jafnir bítast best (S).
Þá jafnir haldast á er vandsjeð hver vinnur.
Oft hafa jafnir brögðum beist.
Ef allir væri jafnir þá væri enginn mestur (S).
**jafna** Alt jafnar sig.
**jafnkeypi** Það er jafnkeypi að gefa uxa við kú (S).
**jafnskygn** Allir eru jafnskygnir í myrkrinu (PS).
**jarl** Úngan skal jarlinn herða (Bósas. 23).
Upp skal jarli gefa eina sök (Konr. 47).
Fár kennir jarl í fiskiváðum (Orkn. 221).
**járn** Svo má brýna deigt járn að bíti (A).
Í funa skal járn heita.
Hamra skal járn meðan heitt er (S).
Ekki sýður á köldu járni.
Eigum járn í eldi þrent, eitthvað verður brent.
Sbr. spori.
**járna** Nú er nærri járnað.
**jeg** Mjer best og mínum.
**jel** Jelin þykja mörgum ljót (M).
Öll jel birta upp um síðir (S).
= Öll jel hafa rof.
Eitt er jel það er aldrei birtir.
**Jesús** Vandsjenir eru Jesú mennirnir.
**jól** Ekki eru ætíð jól (S).
Far þú vel, svo fóru jólin.
**jöfnuður** Allur er jöfnuðurinn góður.

**jökull** Hægra er að tala tólf jökla en gánga einn (S).
**jörð** Ekki fæðir jörðin á einum degi.
Nógu er jörð sterk þó staðið sje á henni báðum fótum.
Æ er jörð frosin fyrir óþrifnum (óþrifin svín; S).
Sitt er að jörðu hverri.
**jötun** Ekki eru jötnar meybarna meðfæri.

## K

**kaf** Oft fer annar í kaf þar sem hinn kemst af (A).
Flest alt það sem fer í kaf flýtur upp um síðir.
**kaka** Þángað kemur kaka sem kona vill (S).
Hann er ekki keyptur enn, hann kökubiti.
**kál** Ekki er sopið kálið þó í ausuna sje komið.
Það er enginn sætleiki í tvísoðnu káli.
Eg læt ei gott kál úr ausu minni ósopið.
Sá er verðugur síns kets er sitt kál át.
Er það vel þó að við deilum kálið (Grett. 168).
Sbr. kot, smjör.
**kaldur** Kalt skal við kalið leggja (S).
**kálfur** Sjaldan launa kálfar ofeldi (nema kvíga sje; S, GJ).
Bjúgur kálfur er betri en ekki (S).
Betri er bjúgur kálfur en ber þúfa.
Það er ekki ælilegur kálfur sem aldrei getur staðið.
Kálfur er krása bestur.
Lítill skyldi lífkálfurinn.
Fyrr skal bæsa kálfinum en uxanum.
Oft er lepra í leifum kálfs.
Hann varð feginn kálfalúngunum.
Þeir kirna um kálfsróuna.
Hann kemur á eftir með kálfkrakka handa yður, sagði bóndinn við prest sinn.
Kálfskinn kaupast oft sem kúa.
**kambur** Drjúglega er nú drepið í kambana.

**kanna** Eg hef nóg á minni könnu. Sbr. kona.
**kápa** Honum fara allar kápur eins vel.
Oft er stutt kápa víð að neðan.
**kapall** Djúpt er á kaplinum, þegar folaldið syndir.
**kapítuli** Margar hefur kapítuli klausur.
**kapp** Kapp er best með forsjá (A).
Varastu kapp þó vinna megir.
Fáir etja kappi við sjálfa sig.
Bágt er að etja kappi við sitt ofurefli.
**kappi** Ekki er alt sem kappar kalla.
Þar tókstu kappann til.
**kargur** Altíð er kargur sá eigi hefur.
**Kári** Fáir eru Kára líkir.
**karl** Hverjum karli kemur að örverpi (Þorl. þ., K; örvesi GJ).
Alt skal fara saman karl og kýr (Fms. II 138 og o.).
Mart (Oft) er það í húsi karls er ei er í konúngs ranni (Mág. 137).
Mart er gott í koti karls (S).
Þá er dælt í koti karls er karl er ekki heima (A).
Ekki eru karlar altjend kvartsamir.
Lengi sígur í koðrann á körlunum.
Þar er ekki góðum karli til tínt.
Víða koma karli kýr.
Enginn er karl án kvíða.
Of nær nefi, kvað karl, var skotinn í auga (Fms. VII 288).
Öll á eg börnin mín, sagði karlægi karlinn.
Sbr. mær.
**karskur** Lengi heldur karskur maður í borð.
**kartnögl** Kartnögl og njórafótur komast ekki í himnaríki (Bj. Hald.).
**kast** Ekki veit nær að góðu kasti kemur.
**kasta** Hann hefur það hann kastar.

Nú kastar átján yfir (tólfunum).
Hann kastar ei mörgu til dyra.

**kátur** Kátt er þeim ei kennir sorg (S).
Kátur verður fár af illu (Rúnakv.).
Gleður sá mann er oft er kátr (M).
Kátur er fullur köttur (Ívenss. 20).

**kaun** Kyrt skal á taka þar kaun er undir.
Þar komstu við kaunið.

**kaup** Ilt kaup er að taka glæp við miklu happi (S).
Sona gánga kaupin á eyrinni.
Margur hefur löng hlaup en lítið kaup (S).
Sá fær oft naumt kaup sem nóg hefur hlaup (S).

**kaupa** Hver á það hann kaupir nema maður konu.
Sá kaupir flestan óþarfann sem fæst hefur fyrir að gefa (S).
Það er hverjum kunnast er hann kaupir dýrast (Parc. 42).
Þá er illa keypt ef annarhvor hreppir skaða (S).
Fleira er að kaupa en krofið eitt.

**kaupmaður** Það er lakur kaupmaður sem lastar sína vöru.
Kaupmaður (Kóngur) vill sigla, en byr hlýtur að ráða.
Mart er fagurt í kaupmanns búðinni.
Sbr. hundur.

**Keflavík** Mig gildir einu í hvorri Keflavíkinni eg ræ.

**keikur** Stattu keikur þá í kjöltuna kemur.

**keipa** Svo má lengi keipa að einn fáist.

**kenna** Engi kennir það öðrum er ei kann sjálfur (S).
Hver sem þig kennir, kaupir þig ekki.
Kenna má fyrr en klipið er til beins.
Kennir hvað sín þó klækilegt sje.
Seint er að kenna til (Kennir hver GJ) þá komið er að hjartanu (S).
= Hann kennir ei fyrr en kemur að hjartanu.
Dælt er þeim um að kenna sem ei kann að synja.
Þar er enginn kendur sem hann kemur ekki.

**ker** Hvert ker húkir á sínum eigin botni.
Þar er alt í kyrrum kerum.
Oft eru gisin hin gömlu ker (S).
Far varlega með fult ker.
Hvert ker kann verða svo fult að yfir gángi (Sturl. II 296).
= Svo má hvert ker fylla að út af flói (S).
Tómt er kerið þó krossað sje yfir (S).
Loðir við hvert ker nokkuð.
Það skiftir miklu hvað fyrst kemur í kerið.
**kerald** Ekki er kyn þó keraldið leki, gisið og gjarðfátt.
Ekki þarf stampinn, keraldið dugir.
**kerlíng** Altjend vill kerlíng hafa eitthvað fyrir snúð sinn (S).
Kerlíng vill hafa sinn þrætuþráð (S).
Tætir kerlíng úr toglaup sínum (S).
Lengi teygir kerlíng lopa (S).
Oft verður kerlíngar hlátur að klepróttum hósta (S).
Ekki er gjöf í kerlíngareyranu.
Úrt járn, kvað kerlíng, átti kníf deigan (Sex sög. 77).
Hlýr hángandi tetur, kvað kerlíng og festi garnhnoða fyrir rass sjer (K).
Nú er það sem kerlíng, sagði klerkurinn fyrr.
Sbr. kláði, svín.
**ket** Best er það ket sem beini er næst (S).
Sbr. flot, kál, kona.
**ketill** Það er ekki alt í katlinum sem krækt er (S).
Litlir katlar hafa og eyru.
**keyra** Keyr þú ei fyrr en kemur á bak.
**kið** Jafnt er kið sem kjaffi en kjaffi engu nýtur (K).
**kind** Mart er kvikra kinda kyn.
Öllum kindum er eitthvað til annmarka.
**kingja** Kingtu ei fyrr en kemur í munninn.
**kinn** Fátt sjer á kinn hvað í brjósti býr (K).

**kinnhestur** sjá kjaftur.
**kirna** Kirnið ekki, sláist heldur.
**kjafta** Sá hefur alt sem kjafta kann.
**kjaftur** Leiður kjaftur heldur sjer aldrei aftur.
Honum ætlaði að verða kjafturinn að smjörhlaupi.
Jafnt er þá kinnhestur er goldinn kjaftshöggi (S).
Sbr. hvoftur, skel.
**kjói** Kemur kjói í eggver (S).
**kjósa** Ekki gefur á alt að kjósa (S).
Ýmsir eiga um að kjósa.
Fyrri er kosið (kostur) en valið sje (kjör) (S).
**kjöftugur** Kemur að því sem kjöftugur fleiprar.
**kjör** Eftir kjörunum keppast flestir.
Sá á kjörin sem kastar stærst.
**kjörviltur** Kjörviltur er sá sem kýs hið lakara.
**kláði** Kláðinn veit hvað kveldinu líður.
Svíður sætur kláði, kvað kerlíng (K).
Sviði fylgir kláða en sorg munaði.
**klámhögg** Þar er þjer klámhögg kella, sagði Ketill kregða.
**klappa** Þar klappar margur á sem hann vill eitthvað út fá (S).
**klár** Þángað er klárinn fúsastur sem hann er kvaldastur (Fas. II 252, K).
Nú kreikar klár fyrir kerru.
**klaufi** Þúngt þrammar þreyttur klaufi.
**klerkur** Það eru ekki alt klerkar sem síða hafa kápuna.
**klettur** Til lítils er að bera vatn á klettinn (S).
**klof** Það kostar klof að ríða röftum.
**klókur** Sá er ekki klókur sem ekki kann sig.
= Sá er svinnur er sig kann og sjer hvað hæfir.
Ekki er kyndugur af klókum tældur.
Hjá ferst klókur og óklókur (K).
**klæða** Eg er ei svo hræddur sem eg er illa klæddur.
Klæð þig vel svo kylur þig ei í hel.

**klæðlaus** Klæðlausum er best að leika (Ævint. 22).
**klæja** Ilt veit (á þá GJ) ofarlega klæjar (K).
Þá mjer klæjar þarf eg að klóra mjer.
Ekki er vert að klóra þar sem ekki klæjar (S).
Sá kló sem kunni.
**klækur** Ekki eru betri sjálfs klækir en annara (S).
**Klængur** Hrýtur að Klængi.
**knár** Margur er knár þó hann sje smár.
Oft fær sá knjesig sem knárri er (S).
**knjesig** Margur hefur fengið knjesig fyrir henni Venus.
**koddi** Varmur koddi gerir oft þúngan svefn (G).
**kokkur** Oft er kám á kokks nefi.
**kol** Kol er þjalar brýni.
Lengi brennur á (úr) þurrum kolum.
**kólfur** Oft er stór kólfur í litilli klukku.
**kolla** Það er vilji kollu að láta klá sjer.
**kollóttur** Ekki er gott að klást við kollóttan.
Ef þú ert kollóttur, klástu ei við hrútinn.
**koma** Lángt er komið þá lokið er.
Mart kemur upp á lángri leið.
Það er komið sem komið er.
Alt mun fyrir eitt koma.
Það kemur sem kallar.
Ei kemur einn hvaðan (Fsk. 292).
Þar er gott að koma sem öll hjú fagna (S).
Oft kemur góður þá getið er, svángur þá etið er, og illur þá um er rætt.
Annar kemur, annar fer.
Þar mega þeir koma sem kvæðin vilja læra.
Kondu aftur á morgun, það á að skera hrút.
Komum við þá Randalín, til okkar er talað.
Það kemur ekki nær en kötturinn sjöstjörnunni.
Hann kemur á eftir með kalt vatn í áttúng.
Hann kemur ei við bera jörð.

Sá gefur hljóð af sjer sem á kemur.
Kemur til Teits og Siggu.
Komi til með mjer mildur, meðan eg fastna þig Hildur.

**kona** Fljóðin verða að öldrum kjörin (M).
Sá á konu sem kaupir.
Ekki eru allar konur eins að kyssa (S).
Ekki er öllum konunum eins að heilsa.
Allar eru vænar á vökunóttunum.
Drós er dánumanns yndi.
Ekki eru píkur allar altjafnprúðar.
Ekki eru það alt konur sem hátt skauta, píkur sem hafa lángan lokkinn.
Enginn veit hver annars konu hlýtur.
Fjarri skal fljóða leita.
Flestum mínkar frelsi þá fengin er kona.
Fríð kona og blíð byrgir oft stríð.
Kalt er konulausum.
Kauptu konu og ljereft við ljós.
Kona er karlmanns fylgja.
Kona er þegar á klæðin kemur.
Öllum þykir víf best (K).
Góð kona er gulli betri (K).
Dugandi konu kaupir enginn ofdýrt (S).
Sá flytur gott hlass í garð sem góða konu fær (S).
Oft er örsnauð kona auðmanns prýði (S).
Hlýðin kona hefur í staðinn ást og eftirlæti.
Kyrr kona kamb upp tekur en sú óða yfir hleypur.
Oft hefur hin frægri kona færri hrínga.
Sá á þarfan hlut sem á þrifna konu.
Æ kafna kviksögur fyrir góðrar konu dyrum (S).
Oft stendur ilt af kvenna hjali (Gísl. Súrs. 15).
Oft verður kvalræði af konum (Sól.).
Köld eru kvenna ráð (Nj. 594 og o.).
Laust er kvenna lyndi (S).

Valt er vífs lund að trúa (S).
Ekki hjálpar neitt við illa konu senna.
Enginn stjórnar illri konu.
Kona og kanna gera margan fátækan.
Sjaldan á ætin kona gott bú nje feit hjú.
Þrætugjörn kona er sem sífeldur leki..
Seint er kvenna geð kanna (Víglundur).
Seint fyllir sögvís kona snældu (S).
Neyðin kennir naktri konu að spinna.
Aldrei er kvennastjórn affaragóð (S).
Lítið er lúnga í lóuþræls únga, þó er enn minna manvitið kvinna (S).
Nóg vita konur kyndug ráð.
Oft er karlmanns hugur í konu brjósti.
Margur er sá konurnar skreytir (S).
Þar kveldar ei altjend vel sem konur drekka.
Oft volkar vondur maður væna konu (S).
Eg á hvorki fríða konu nje feitt ket í rót (S).
Fríður er fjáður svanni (S).
Sjaldan brestur óþrifna konu áhald (S).
Sjaldan er vindur í ólundarkindum eða í óljettum konum (S).
Dægileg er konan sem kálið gerði.
Ekki má kasta svartri konu úr sæng.
Konan kemst þángað sem reykurinn kemst ekki (PM).
Gamlar stúlkur og úngar ekkjur gefa jafnan gott færi.
Oft er kippur í konu ferð.
Sbr. ást, auga, kvæði, köttur, ragur.

**konúngur** Til frægðar skal konúng hafa meir en til lánglífis (Fms. VII 73 og o.).
Spyr ætt að jöfrum (Háttatal 26).
Mörg eru konúngs eyru (sbr. eyra) (Sturl. II 141).
Mikil er alvaldsraun og mörg konúngsráð (Ljósv. 253).

Konúngs garður er rúmur inngángs en þröngur brottfarar (Egilss. 249).
Lángur er konúngs morginn (M, Sigvatr.)
Það er ekki alt að á ræsis borð sje beranda (Ṡ).
Alla má klaga nema kónginn.
Ekki er gott að kífa við konúnginn.
Ýmsir eru kónginum kærir.
Það er ekki oft að fjórir kóngar finnast.
Hann er kóngur í kotru og kortspilum.

**koppur** Svei þjer koppur, úr þjer er.
Fyrr læt jeg koppa mína tóma en klíni í þá hjegóma.

**kór** Ilt er þann til kórs að kalla er í kamar vill vera.

**kórbekkur** Hann keppist jafnan á kórbekk sitja.

**Kormákur** Látum Kormák kyrran liggja.

**korn** Alt er það gott sem af korni kemur.
Er illu korni til sáið, enda mun ilt af gróa (Nj. 587).
Kornið fyllir mælirinn (S).
= Af korni skal mælir fylla.

**kostur** Hver má tefla við þann kost sem hann hefur upp tekið.
Kostir litlir eru ljúfs vera en leiður verður aldrei fyltur (K).
Mart leynir kostum sem hefur ljótan lit.

**kot** Það er alt auðþekt sem úr því koti kemur.
Betra er kál í koti en krás á herrasloti.

**kotkarl** Mart mæðir kotkarl.

**kotúngur** Hægra er að þjóna kotúngi en konúngi.
Kotúngur er kotúngi verstur.

**kráka** Krákan er því leið að hún segir jafnan satt.
Krákan verður ei hvítari þó hún baði sig.
Sveltur sitjandi kráka (K; en fljúgandi fær A).
Betri er ein kráka í hendi en tvær í skógi (Laxd. 84).
Sbr. fótur.

**kraki** Gefðu honum kraka, hann kann lengi við að taka.
**Krákur** Krákur á ekki kosti.
**krambúð** Ekki komast allir upp á krambúðarloftið.
**krás** Vindræg er væn krás (S).
Sá hefur krás er krefur (Sól.).
Hann hefur steikt stærri krásir.
Fátt hafa þeir til krása sem smjörið steikja.
**kredda** Sjerhver hefur sína kreddu (S).
**krepja** Volar hún krepja ef kylur í nögl (S).
**kríki** Allir kríkar dafna.
**Kristur** Vant er að lofa mann í hendur Kristi. Sbr. guð.
**krjá** Það gerir hver að krjá sem hann vill fá.
**krjúpa** Krjúpa skal ef ekki má gánga (Parc. 4).
Krjúp þú undir ef kant ei yfir stökkva.
**krókur** Snemma beygist krókurinn sem verða vill.
Rakst krókur á hala hans.
Þar reis að undir króki (S).
Betri er krókur en kelda.
**kross** Nú vill ekki krossinn hafa kyndilinn.
**krummi** sjá hrafn.
**kúgildi** Ekki stendur hjer nema á stórkúgildum.
**kunna** Erfitt verður (Ótamt veitir GJ) þeims illa kann (M).
Alt er betra að kunna en ekki kunna.
Hann kann meira en að mata sig.
**kunnugur** Kvikur er hver við kunnugan (S).
Það er kunnugum best að bjóða.
Kunnugir jafnan bítast best.
**kurl** Sjaldan koma öll kurl til grafar.
**kusi** Þekkir kusi kopp (dallinn) sinn (K).
Bestur er kusi kaldur.
**kútur** Stutt er kúta-veislan.
**kvarta** Hver kvartar þá hann kennir.
**kveða** Engi kveður betur en kann (S).
Kveddu ekki svo ört, þú kveður svo vel.

Eins og hver kveður kætist fólkið.
Hann kveður fyrir sinn bekk.
Sá á að byrja sem best kveður (S).
Vel kveða mennirnir.
Lengi má þar stíga sem laglega er kveðið (S).

**kveðja** Kveður hver sjer kunnugan.

**kvein** Oft kemur kvein eftir kæti (A).

**kveina** Hann kveinar ei fyrr en hann kennir til.

**kveinka** Kveinka sjer flestir þá komið er inn úr skinninu (S).

**kveld** Ekki er úti alt kveld þótt rökkvi.
Kveldi verður feginn sá fyrir kaup sig leigði.
Lengi er ljóst á kveldin.

**kvíða** Klæklegt er það að kvíða mörgu (PS).
Ekki tjáir að kvíða fyrr en á dettur.

**kvíði** Kærir hver sinn kvíða (S).

**kvíga** Jafnar kvígur draga best arð.
Nú dregur af kvígu litinn (lætin).

**kvikindi** Hann er allra sveita kvikindi.

**kvikur** Ey getur kvikur kú (Hávam.).
Ilt er kvikum að brenna (S).
Kvikur er hver um kunnugan rann.

**kvilli** Engan kvilla umber þú illa.

**kvistur** Eins er kvisturinn og aðaltrje.
Sjaldan verða kvistir betri en aðaltrje.
Beygðu kvistinn meðan hann er úngur en brjóttu ekki (A).

**kvittur** Ilt er illan kvitt byrja (S).

**kvæði** Ný kvæði kveða konur mest (helst).
Jeg kveð þjer ekki öll mín kvæði.
Oft hefur stutt kvæði lángt niðurlag.

**kvöð** Kvöð er kvaðar virði.

**kvöl** Kvöl á sá er völ á (S).
= Sá á kvöl sem völ á (S).

**kvöld** sjá nótt.
**kvörn** Misfengið malar ágirndar kvörn (S).
**kylfa** Handbær er kylfa ef hundinn skal slá.
Hann lætur kylfu ráða kasti.
**kyn** Tvent er kyn að manni hverjum.
Hvað er sínu kyni líkt.
Kippir hverjum í kyn sitt.
Svo er kyn sem kappi (kostir?).
Sá þekkir ekki sitt kyn sem í öskunni situr.
**kyndugur** sjá klókur.
**kynfylgja** Allir hafa einhverja kynfylgju.
Rík er kynfylgjan.
**kyntur** Víða fær vel kyntur náttstað (S).
Illa kyntum enginn trúir þó satt segi (A).
**kýr** Guð gefur kú en ekki niðurband (S).
Betri er ein kýr með ró en sjö með óró.
Ekki eru það alt góðar kýr sem hátt baula.
Lengi jórtrar tannlaus baula á litlu fóðri.
Lengi þrokar þarfakýrin.
Mjer er sama hver kýrin mjer mjólkar.
Kýrin mjólkar ekki meira þó skjólan sje stór (S).
Svört kýr selur hvíta mjólk (S).
Lítið stoðar þó kýrin mjólki vel ef hún fellir fötuna (S).
Oft þykir nábúakýrin betri en sín eigin.
Sá gaf kú sem eina (enga) átti.
Samt er skinnið á kúnni (K).
Einhvern tíma kemur sá dagur að kýrin þarf hala síns við (S).
Því slettir hún kussa halanum að hún vill fleiri jafnsaurgar sjer (S).
Ein kýr vill aðra sjer jafnskitna.
Nær ein kýrin pissar, pissa þær allar.
Seint vagar kálffull kýr (S).
Einn er litur allra kúa um nætur.

Oft gleymir hún kussa því að hún var kálfur (S).
Fyrr drynur baula en hún hafi uppi.
Sbr. hreyta, karl, kvikur.

**kyrr** Fátt er kyrru betra.
Kemst þó kyrt fari.

**kyssa** Ekki er svo lángt komið að kyssa þurfi.
Kyssir að framan en klórar að aftan.

**kökkur** Nú ætlar að kastast í kekki.

**kör** Nú er komið á kararendann.

**köttur** Kalt er kattar gamanið.
Kátur er fullur köttur.
Oft er ketti kalt á eyrum.
Kalt er kattareyrað og konuhnjeð.
Það er kattarins að klóra í trjeð.
Það kemur ekki til af góðu að kötturinn hefur klærnar (S).
Þángað kemur kötturinn sem honum er klórað.
Ef strýkurðu köttinn þá stendur í loft upp róa.
Fyrir kænskuna fær hún kisa marga bráð.
Köttur vill hafa fisk en væta ei klær.
Ekki má styggja köttinn frá veiðinni.
Það er strembið verk að streða köttinn.
Kominn er köttur í bjarnar stað.
Köttur er ullarkragi.
Leyfist kettinum að líta á kónginn.
Nú klekja kettir eggjum.
Oft hefur það kötturinn sem kónginum var ætlað.
Hver slær köttinn af öðrum.
Lángleitt höfuð, kvað gylta, sá kött spinna (AM 62 fol.).
Seigt er að róa köttinn af gærunni (S).
Það þarf margar mýs að binda köttinn (S).
Þar sem kötturinn kemur inn höfðinu þar kems hann allur (S).

Þar sem hún kisa nær til með klónni, kemst hún upp.
Sbr. hundur, kátur, koma.

## L

**lá** 1 Ekki veit hvað í lánni (lónni) liggur (S). Sbr. logn.
**lá** 2 Enginn skyldi öðrum lá.
Engum er láandi þó hann beri hönd fyrir höfuð sjer.
**lag** Svo er lag sem á legst (K).
Alt vill lagið hafa.
= Lagið þarf til alls.
Hverjum lætur sitt lag best (S).
Lagið vinnur, sagði hugsvinnur (A).
Margur vinnur meir af lagi en afli.
Hver rær og slær með sínu lagi (A).
Kemst í lag þó kvistótt sje.
Lag er á ef lyndir báðum.
Lengi er eftir lag hjá þeim er liðsmenn voru til forna.
Eitthvað veldur þegar ekki er lagið á.
Lags skal bíða þá lent er í brimi (A).
Lengi skal lags bíða.
**lagnaður** Hvað hefur sinn lagnað.
**lágur** Hinn lægri verður að lúta (Grett. 204).
**Láki** sjá bylja.
**lamaður** Af lömuðum má læra að haltra.
**lamb** Þar launaði jeg þjer lambið grá (Heiðarv. 25).
Jeg er ekki lambið sem þú leitar að.
Sbr. sauður, úlfur.
**lán** Misskift er manna láni (S).
Fáir láta sjer lán sitt nægja (S).
Hver hefur sitt lán að líta.
Betra er lán en löng bein (S).
Ekki er lánið allra (S).

Betra en lán en liggjandi fje.
Lán er gleðirán (S).
Ekki er lán lengur en ljent (K; ljeð er GJ).
Valt er láns glysið (S).
= Völt (Laus) eru láns þíngin (S).
Heilu láni skal hver aftur skila.
Lán á að skilast lýtalaust heim.
Sjaldan kemur lán með lagi aftur.

**land** Hjer land og þar land og nóg er alt Ísland.
Vont er vinalaust land (S).
Lands vani (vísa) er lands heiður (S).
Langviðrum skal eyða grund (M).
Lengi byggjast löndin á vorin.
Hann er ekki lengi á mælislandi.
Sbr. lög.

**landmaður** Þá er landmaður í veði ef eyjamaður bregst.

**landssiður** Sá er lýttur sem ekki fylgir landssiðnum.

**landvör** Ljett eru landvörin.

**lángan** Það er mikið mein að hafa lángan heim (S).

**lángfarar** Það mun þig letja langfaranna (Eyrb. 109).

**lángferðamaður** Lángferðamenn eru lygihættir.

**lángrækni** Lángrækni er lundþúngum verst.

**lángur** Oft er lángur latur.
Oft verður lángur að lúta.

**lángviðri** Lángviðri koma lángviðrum á mót. Sbr. land.

**lángvinur** Lángvinirnir rjúfast (bregðast) síst (Grett. 184).

**lángþurfamaður** Leiðir verða lángþurfamenn.

**lánþíng** Lánþíngum er litla stund að fagna (S).

**lás** Betri er lítill lás fyrir húsi en enginn.
Góður lás gerir hjúin sátt (S).

**last** Betra er logið last en login hrósun.

**lasta** Lastaðu ei frekt það margir lofa (A).
Lastaðu ekki líkan þjer.

**lastmáll** Lastmáll og kjassmáll sitja oft á bekk saman (S).
Lastmálugur verður hverjum leiður (S).

**lastvar** Vertu lastvar þá lasta þig færri (A).
Lastvar skyldi sá lýtir aðra.

**lastyrði** Fljótt læknast lastyrði login (S).
Oftast eru lastyrði login (S).
Seint læknast lastyrði.

**láta** Það lætur hver úti sem hann hefur nægst af.
Fátt er betur látið en efni eru til (Band. 6).
Þeir láta mest yfir sjer sem minstir eru mennirnir (S).
Mas er mikið að láta.
Jeg hef ekki eftir mörgum að láta.
Ýmsir verða undan að láta (S).

**látgæði** Látgæðið prýðir manninn (K).

**latur** Löngum slímir latur (S).
Seint koma latir menn til verka sinna (S).
Hann er svo latur sem hann er lángur til.
Lítið stoðar latan þó löngum skoði verk sitt (S).
Oft skoðar latur maður verk sitt.
Ljett eru lats manns högg.
Latur biður latan (skipar lötum S) en latur nennir hvergi (að fara) (K).
Lengi kveður latur maður sig til fjár (K; lúsugur til lamba GJ).
Latur þiggur ljettferlið (S).
Oft er lötum ilt í fæti þá eitthvað þarf að fara (S).
Seint reiðist latur rúmi (S).
Lángnætti verður latur feginn.
Lengi er latur maður vesall.
Ekki er gott að binda (Margur býr) sjer lats manns byrði.
Latur er sá sem lognsins flýr (K; logn lastar GJ).
Oft hefur vinnulatur viljuga túngu (S).
Sá latur er að iðja er ólatur að biðja (S).
Betri er latur en lipur til illverka.
Sbr. eta, fátækt.

**laufsegl** Mun eigi mega (Nú skal eigi) með laufsegli sigla (lengur fara) (Eyrb. 33 og o.).

**laukur** Kveða lítið lauki gæft til auka (Haraldur harðr.).
Sbr. lítið er af lauki gæft (S).
Oft vex laukur af litlu (S).
Betra er að vera laukur í lítilli ætt en strákur í stórri (A).

**launa** Þá er eigi það að launa sem eigi er gjört (Grett. 31). Sbr. lífgjöf.

**laus** Ekki er svo laust sem lafir.
Ljett er laus að fara (Sól.).

**lausakona** Hinn seinasti er lausakonunni hinn elskasti.

**lausíngi** Oft ljúgast lausíngja heit (S).

**lax** Hver lax er mjóstur við sporðinn.
Hjer ætla að detta í stórlaxar.

**leggja** Sá leggur á sem frjálst á.

**leiðast** Leiðist flest það lengi er.
Þeim leiðist síst sem sefur.

**leiður** Mikið er böl að búa við leiðan.
Sjaldan hittir leiður í lið (Hávam.).
Engi er sá öllum sje leiður.
Leiður er hver í moldina kemur (Partal. 31).
Leiður er hver liðinn (S).
Svo má leiður ljúga að ljúfur verði að trúa.
Ekki er leiðum að líkjast (S).
Honum er ekki svo leitt sem hann lætur.
Sbr. liður, ljúfur.

**leifa** Betra er lítið leift en ofmikið etið.

**leifar** Vaknar hver til sinna leifa.

**leika** Hann leikur alsolla.
Dælla er að leika eftir en fyrir.
Ljett er að leika ef teníngurinn vill vel.
Leika máttu, lokið er að kasta (S).

**leikur** Leikur er barna yndi.

Svo er leikur hver sem heiman er gjör (Fóstbr. 52; byrjaður er Fóstbr. 72).

Þá er best að gefa upp hvern leik (hætta hverjum l. GJ) að best gengur (K).

Það er ójafn leikur að úlfur eigist við gyltu (S).

Hann sjer níu leiki á borði.

Sá á leikinn sem síðar kastar.

**leir** Leirinn er leir þó liggi í honum gullið.

**leit** Oft verða leitir í lautum.

**leita** Leita skal ef liggur á.

Margur leitar lángt yfir skamt.

**lendir menn** sjá lög.

**leppalúði** Engi er sá leppalúði að ekki vilji fá sjer brúði (S).

**leppur** Altíð verður leppurinn að fylgja goðanum.

Einn er leppur á Sveini, annar á Steini.

**lesa** Þú hefur ekki lesið vel ofan í kjölinn.

**lest** Hægt er að skerða litla lest.

**leti** Skortur er leti laun (S).

Eitt letispor gerir tíu ómaksspor.

Oft veldur letin ómaki miklu.

**leyfa** Það skal leyfa sem liðið er (Sex sög. 62).

**leyna** Mart (Margur S) leynist lengi (Hávarð. 13).

Ef þú vilt að aðrir leyni þá leyn þú sjálfur.

**leysa** Alt er óhægra að leysa en að binda. Sbr. binda.

**lið** Oft er lið að lítilsháttar manni (S).

Allir lágu á liði sínu nema jeg, sagði hann sjerhlífinn (S).

**líða** Líður þó lángt þyki að bíða.

Það líður eins og önnur lángferð.

Liðið hefur lengra, sagði sálin.

**liðsmaður** Ekki er góðum liðsmanni ofaukið.

**liður** Liðar verður sá að leita er lítið sax hefur (Vápnf. 15). Sbr. leiður.

**líf** Hverjum er lífið sárast að láta (Þiðr. I 192).
Öllum er ófalt lífið.
Alt er auðkeypt hjá lífinu (S).
Flestir kjósa fyrðar líf.
Dýrmætt er lífið þá dauðinn kallar (S).
Valt er firða fjör (S).
Lengi skal lífs biðja.
Lífið er stutt en listin löng.
Líf er sem leiki á þræði.
Hvað er lífið annað en armæða.
Lángt líf, löng armæða.
Litlu betra er líf en hel.
Ekki veit hvort lengur endist líf eða litlir aurar.
Með lúa skal lífið fæða.
Flest er lengur uppi en líf manns (K).
**lifa** Lifir hver sem lánað er.
Oft lifa þeir lengi sem með orðum eru vegnir.
Sá lifir lengst sem lengst jetur.
Alt lifir það sem matinn etur [og verður ekki af sóttum sjúkt, v. GJ] (K).
Þeir byggja lönd sem lifa.
Svo lifir hver sem lyndur er (S).
Sá lifir ei lengi sem lítið gengur á móti.
Enginn má líknarlaust lifa.
Enginn lifir lengi við tóma moldarveggi.
Lengi get eg lifað þar við lýng og bláber.
Engi lifir svo öllum líki og ekki guð í himnaríki (S).
Það lifir lengst sem hjúum er leiðast.
Lifi jeg annan man jeg þennan.
**lífgjöf** Fáir launa lífgjöf sem vert er (Sig. þögl.).
Sbr. Margir launa illu lífgjöfina eða engu (Fms. VII 65).
**líflaus** Sá er oft líflaus sem er hníflaus.
**lifna** Margur lifnar úr litlum vonum (Völs.s. 28).
**lifur** Loðið er lifrarkaup.

**líki** Svo má lengi leita að líka sinn finni.
**líkindi** Alt er best að líkindum verði.
**líkneski** Ekki verður líkneski smíðað úr hverju trje.
**líkur** Mart er (kann GJ) öðru líkt (að vera GJ) (Grett. 29).
Líkt á við líkt.
Sækjast sjer um líkir og saman búa níðíngar.
Það er hverjum líkt sem hann á.
Líkt skal líku gjalda.
Líkur sækir líkan heim.
Mart er líkt með skyldum.
Lengi glíma líkir tveir (S).
Bágt er ei að lynda við líkan.
Þeim lyndir vest sem líkastir eru (S).
Sbr. móðurbróðir.
**lilja** Lángar menn á liljufund.
**límí** Margan hefur límalángur lagað (S).
**limur** Eftir höfðinu dansa limirnir.
**lín** Ekki er skart að skitnu líni.
**linur** Margur er linur þó hann sje lángur.
Sjaldan kastar linur lángt.
**lippusár** Hægt er að græða lippusárið.
**lipur** Lítið þarf lipran að keyra.
**list** Það er engum (einum) list sem hann leikur ekk (sl.) (S).
= Það verður hverjum að list sem h. l.
**lítill** Ilt er lítill að vera (Mork. 37).
Fáir halda sig minni menn en þeir eru.
Flestalt hefur fyrst verið lítið.
Enginn er minni þó hann undan láti.
Oft verður lið að lítilmagna.
Oft má að liði verða þó lítill sje (S).
Lengi er lítils kostur.
Lítið hjálpar nokkuð.
Lítið má ef vel (gott) vill.

Lítið var en lokið er.
Með litlu skal lítið drýgja.
Við lítið má bjargast en ei við ekkert.
Eg lýt löngum að litlu.
Lengi má lítið geyma (K).
Lengi má lítið jafnast (K).
Lítið við lítið verður lítið mikið (S).
Lítið bagar og lítið lagar (S).
Betra er lítið en ekkert.
Betra er minna og jafnara.
Lítið kemur litlu á mót.
Hægt er litlu að ljúka.
Ekki skal lengi lítils biðja.
Lítið ljet hann sig muna.
Oft verður lítils vant (Dropl. 31).
Raunlítið kemst oft á þrefa (M).
Af litlu má mikið marka (Eliss. 12).
Litlu þarf með lagi saman að halda (S).
Laglega fara lítið má (S).
Lítið hugnast litla fólkinu (S).
Sbr. mannskapur.

**litur** Á fleiru er fagur litur en gulli.
Löngum dylur litur kosti.
Eigi deilir litur kosti (ef . . . Nj. 226).

**litverpur** Litverpur verður margur af lítilli sótt.

**ljá** sjá annar.

**ljár** Frænuskammur er hinn deigi lje (M).
Sjaldan launar deigur ljár lánga brýnslu.
Hann er ekki hægur ljár í þúfu.

**ljettur** Lengi má ljett upp taka (S).
Ljett er það sem ekki dregur halann.
Ljett er þeim sem lausir fara.

**ljóð** Fram koma ljóð þau er löngu voru súngin (Bisk. I 766).

**ljós** Betra er lítið ljós en ofbirta (mikið myrkur GJ) (S).
Af því ljósi sjer maður best er undan er borið.
Aldrei logar ljósið gott ef sami situr við rökin.
Þú vilt bera ljós að hvers manns nösum.
Einhvern tíma hefur betur logað ljós í kolu.
Sbr. nögl.
**ljótur** Alt er ljótt sem illa fer.
Fyrr er ljótt en fjanda sje líkt.
Á ljótum er lýta mart.
**ljúfur** Lengi má ljúfur syndga.
Lengi skal við ljúfan kenna.
Hægt er ljúfan að lokka.
Lítill er ljúfs biti, leiður verður aldrei fyltur.
Litlu má með ljúfum skifta.
Svo dugir ljúfur sem launað er (S).
**ljúga** Vel lýgur sá er með vitnum lýgur (Þorst. Síð. 51).
Mörgu lýgur sá mart talar (S; fleiprar GJ).
Fáir ljúga meiru við en helmíngnum.
Ljúgðu svo losni bitarnir.
Þá skal ljúga litlu við ef liggur á.
Aldrei (Sjaldan) er svo leiður að ljúga, að ekki verði ljúfur til að trúa (S).
Svo má einn ljúga að níu hángi (S).
**lóðarháls** Hann liggur við lóðarhálsinn (eins og skatan á grunni).
**loðinn** Ekki má alt svíða sem loðið er.
**loðrassa** Ekki lýgur hún á sig hún loðrassa.
**lof** Brigðult er lýða lof (A).
Mikið lof er oft við of.
Betra er ekkert lof en um of.
Ilt er að lasta (lesta) almanna lof.
Margur fær lof fyrir lítið en last fyrir ekki (K).
Súrt (Seyrt) er lof í sjálfs munni (S).
Sjaldan fær sá lof sem á ljósinu heldur.

Oft dregur lofið háðið í halanum.
Það er ekki alt lofsvert sem heimskir hæla.
Dræmt gengur lof úr dárans munni.
Ljett fellur til lofs að vinna.

**lofa** Lofaðu það sem lofsvert er (S).
Lofaðu svo einn að þú lastir ekki annan (S).
Fáir lofa betur en vert er.
Vant er mann að lofa meðan lifir (Bisk. I 574
Hver lofar sína híru.
Ljettara er að lofa en enda.
Nóg er til þá lofað er.
Það er best að lofa að maður vill efna (K).
Lofaðu litlu en entu betur.
Betra er ólofað en illa efnt.

**lófi** Lófa skal á móti blíðu breiða.
Ilt er að reyta hár af lófa (S).

**lofun** Lofun gildir fyrir skuld.

**logi** Þú vilt slökkva logann með lýsinu.

**logn** Logn er leiða best.
Svipult er sævar logn (S).
Sjaldan þýtur í logni lá (M).
Kemur logn á bak hreggi (S).
Sbr. sjór.

**lok** 1 Jafnan spyrja menn að lokum (M).
Algjörðs verk(s) æ spyr að lokum.
Sbr. afdrif.

**lok** 2 Hann gengur eins og lok (logi) yfir akra (Fóstbr. 24).

**loka** Dettur loka þá losnar úr skorðum.

**lokar** Frekur þykir lokar minn (til fjegjalda; Flat. I 233).

**loki** Oft er loki á löngum nálþræði.

**lokka** Þann er hægt að lokka sem sjálfur vill brokka (A).

**Lón** Þú áttir erindið í Lónið.

**lostverk** Öll falla lostverk ljett (S; sbr. Ljett eru lostverk Sth. Homil. 24).

**lóuþræll** Lítið er lúnga í lóuþræls únga, þó er enn minna manvitið kvinna (S).

**lúður** Nú vill ekki lúðurinn láta.

Margur er lúður hvellur í lastorðum.

**lukka** Misholl er mönnum lukkan (A).

Lukkan og snarkrínglan hvað sástu líkara.

**lund** Hver hefur sinni lund að þjóna.

Hver á sína lund að laga.

Sjerhver hefur sína lund, sagði karlinn, hann reið torfstakki (S).

**lundillur** Lítið ertir (egnir) lundillan (S).

**lundvær** Lundvær þykir besta sveit (M).

**lúnga** Stór eru þín lúngu ef jeg er hjartað, sagði stúlkan (A).

**lús** Sárt bítur soltin lús (Landn. 146 og o.).

Lítið er lúsarvirðið.

Ekki þarf að troða lúsinni í skinnstakkinn.

Lúsin kemst í feldinn þó ei sje hún þángað látin.

Þar er lús sem leitað er.

Hann liggur eins og lús með saumi.

**lúta** Margur verður að lúta lágt þó lángur sje.

Sá verður að lúta sem lágar hefur dyr (lægra hefur vald) (S).

Engi lýtur þar lengi niður, hann tekur ekki upp (K).

**lýður** Aumur er lagalaus lýður.

Lýður mun yfir lýð stíga.

**lygi, lygð** Aftur hverfur lygi þá sönnu mætir (Bisk. I 639).

Oft er lygð í lasti (A; lofi).

Margur tekur leigu á lygi sína.

Lygum hæfa laun ill.

**lyginn** Enginn er svo lyginn að ei kunni satt að segja.

Oft er lyginn lángorður.

Lyginn sagði, lyginn já til lagði.

**lykill** Ekki eru allir lyklar bundnir við einnar konu belti.

**lykt** Sá á lykt sem fyrst finnur.
**lymskur** Sjaldan er lymskur lundhastur (A).
**lýti** Hver hefur sín lýti.
Sjá þú mín lýti en aldrei þín (K).
Láttu lýti deyja þjer fyrr (A).
**lægíng** Flestum er sín lægíng leið (S).
**lækníng** Fáum er lækníng ljúf.
**læknir** Í tíma skal læknarans leita.
Læknir bjarga sjálfum þjer:
**lækur** Ekki þarf að bera í bakkafullan lækinn.
Margur lækur smár gerir stórar ár.
Þar lendir við á Læk.
**læra** Svo lengi lærir sem lifir (S).
Enginn er ofgamall gott að læra.
Þann er gott að fræða sem sjálfur vill læra (S).
Lítið lærist leiðum strák (K).
Líka villast lærðir menn (S).
Sbr. bók.
**læti** Ger um oss læti, sagði getnamaður.
Mörg eru líkinda lætin.
Mörg eru lætin ef öllum er látið. (PS).
**löðurmenni** Lítið gengur undan löðurmenninu (S).
**lög** Með lögum skal land várt byggja en (eigi b. v.) með ólögum eyða (Nj.. 324).
Væri ei lög í landi, hefði hver það fengi.
Svo eru (gánga) lög sem hafa tog (S).
Það eru ekki alt lög sem lendir menn bjóða.
Lög eru bræðra sættir.
Á þíngum skal lög þreyta.
Betra er að herða lög en hvetja.
Haltu lög sem sjálfur settir.
Ekki er vilji nje vani landslög.
Hann segir af lögum sem litum hinn blindi.
Lög hefur Mörður að mæla.

**lögmál** Ekkert lögmál er öllum þekt.
Hart lögmál Hallur.
**lögur** Lögur undir land, nú líður á.
**löngutöng** Rjettu að honum löngutöngina.
**löstur** Oft sprettur löstur af lofi (S).
Oft leynast lengi lestir.
Sbr. allur.

## M

**maðkur** sjá matur.
**maður** Maður er manns gaman (Hávam.).
Huggun er manni mönnum að.
Maður er manni líkur.
Maður kemur manns í stað.
Maður er sá mannsverk vinnur (S).
Lengi skapast mannshöfuðið (S).
Enginn er meiri en maður.
Enginn tekur sig meiri mann en hann er.
Mikill er munur mannanna.
Ekki veit hvar manni kann að mæta.
Af máli má manninn þekkja.
Altjend (Ætíð) segja mennirnir til sín.
Af litlu (Lengi) má manninn marka.
Þá skal marka manninn þegar mest liggur á (A).
Margur þekkir mann af sjer (S).
Eigi má mann sjá, hver hvergi er (Dropl. 69).
Maður er manni refur.
Grandvar skyldi enn góði maðr (M).
Mikið er (má) eins manns (góðs drengs) gengi og mikils er einn góður maður verður (Karl. 395. 41).
Batnandi manni er best að lifa.
Munur er að mannsliðinu (Grett. 35).
Oft er grey í góðs manns ætt (S).

Vant er að sjá hvar sæls manns efni situr (S).
Engi maður er roskinn þegar (M).
Mikils er á mann hvern vant er manvits er (Hamd.).
Sjaldan er maðurinn meinalaus.
Mart er mót á manni glöggum.
Neiss er nökkviðr halr (Hávam.).
Hver skal þegn sjálfan sig lengst hafa (Sigvatr).
Maður er jeg en engin tunna.
Hann sjer sjer mann á velli.
Vertu annaðhvort maður eða mús.
Voru menn og vissu það.
Það er maður þó hann láti minna.
Úngur maður og aldrað fljóð ekki á saman á beði (S).
Ekki er manninn lengi að bera að stúlkunni (S).
Biðjandi maður fær börn.
Það gengur maður undir manns hönd.
Bágt er að skilja fastan mann og fje hans.
Jafnan fagnar kvikur maður kú (M).
Sýndu manninn en ekki matkeraldið (K; -kerið S).
Það má eftir manninum hafa sem hann talar (K).
Firrist æ forn rök firar (Lokas.).
Maður er moldu samur (moldar auki).
Maður skal (æ) eftir mann lifa (Egilss. 181 og o.).
Sbr. fugl.

**magi** Maginn er mest verður.
Lengi er mjólkurrúmið í maganum.
Betri er fullur magi en fagur kyrtill (A).
Ekki á saman svángur magi og skrautlegur kyrtill (S).
Það er ekki alt gott í maga sem í munni er sætt (S).
Fyrri er næríng en fullur magi (S).
Sbr. auga, barn.

**mágur** Eigi má gera tvo mága að einni dóttur (Fas. III 59).
Betri er einn dótturmágur en sjö sonarkonur.

Mörgum bregst mága stoðin (S).
Köld er mága ástin.
**magur** Magurt og gagurt og misjafnt fagurt (K).
**mál** Af málum verða menn kunnir (Þiðr. I 233).
Er mestur í málinu (málum) sem refarnir í hölunum (refur í halanum) (Hávarð. 9 og o.).
Fátt er málum fleira (K).
Mál skýtur máli fram.
Svo er hvert mál sem það er virt (S).
Fá mál batna í biðunum.
Ilt er rángt mál að verja.
Vont (Vant) er vitnalaust mál (S).
Oft fá vond mál vænar stoðir.
Oft hafa stærri mál fjebætt verið.
Það kemur ekki mál við mig.
Sbr. barn, maður.
**málagjöld** Þjer skulu makleg málagjöldin.
**málsnjall** Oft er málsnjall miðlúngi sannorður (S).
**málugur** Mart ber málugum á góma (S).
Mart (Flest GJ) kemur til málugs manns (K; og kjöftugrar konu GJ).
Málugum er mein að þegja.
Mörgum þótti eg málug, sagði kerlíng.
Aldrei þrífst málugur maður (S).
**malur** Rýr er ræntur malur.
**málvinur** Margir eru málvinir, fáir fulltrúar (S).
Meðan bikarinn er fullur er málvinurinn hollur.
Mart er á að minnast þá málvinir finnast (S).
**mammon** Margir lestir loða við hann mammon.
**mannleysíngi** Mest vilja mannleysíngjar stakka (S).
**mannorð** Mannorð fylgir manni til dyra (S).
Mannorð lifir þó maðurinn deyji (S).
**mannskapur** Það er lítill mannskapur að leggjast á lítilmagnann (S).

**manvjelar** Margar eru manvjelar.
**margbeygður** Mýkist flest sem margbeygt er (S).
**marglátur** Mistrúað er marglátum manni (S).
**margorður** Margorður hlýtur mart að vita eða mart að ljúga.
**margtalaður** Margtöluðum er minnis vant.
**margur** Ekki (eigi, engi) má við margnum (Hallfr. 89 og o.).
Mart á við mörgu, fátt við engu.
Mart kann í mörgu að verða.
**margvitur** Margvitrir mæla fátt.
**marka** Þá má marka annar þarf en annar má (K).
**marlíðandi** Margir eru marlíðendur (Eyrb. 18).
**mát** Oft fær sá mát sem mentina ber hærri.
**matarást** Matarást hef jeg mest á þjer.
**mathákur** Mathákur er hvergi spar, henti það sem feitast var.
Matháknum nægir aldrei nóg.
**matselja** sjá bú.
**matur** Matur er mannsins megin.
Maturinn er fyrir öllu.
Alt er það matur í magann kemst nema holtarætur einar (K; holtarætur og harðasægjur GJ).
Gott er að hafa mikinn mat og marga helgidaga (S).
Eg vil hafa mat minn en engar refjar.
Misjafnt er maturinn magafastur.
Sætur er sjaldfenginn matur.
Af mögru skal mat hafa (S).
Magur matur er betri en tómt fat (S).
Fleira er matur en feitt ket (flesk; S).
Það er ekki matur músin steikt og maðkur upp úr rjóma.
Mikill koppur skal mat drýgja (K).
Æ ljettist matbyrðin (S).

Oft fer góður matur í hundskjaft (S).
Finna má minna grand í mat sínum en músina.
Eg fer ei eins að mínum mat sem aðrir að sínum.
Illa fór nú matur minn, eg át hann.
Meinlaus þykir mjer maturinn, sagði konan.
Mörgum þykir maturinn góður þó hann sníki ekki (S).
Þar er jeg sem maturinn er þótt ekki sníki jeg.
Til er matur þá bessi kemur í bú (S).
Af annara manna börnum og búahundum spillir maður mat.

**matvandur** sjá ger.

**mauk** Ekki er spilt þó í mauk fari.

**meðalhóf** Meðalhófið er marghæfast (S).
Vandratað er meðalhófið (A).

**mega** Mikið má ef vel vill (S).
Má ef nauðugur skal.
Þeim má sem lánað er.
Enginn má við margnum.
Má fyrir minna.

**mein** Sitt mein þykir sárast hveim (M).
Sjerhver finnur til sinna meina.
Muna þeir mein sem þiggja (S).
Allir bera eitthvert mein til grafar.
Æ koma mein eftir munuð (Sól.).
Það er ilt mein sem engin liggur bót við.
Engi ber alt mein frá eldi (S).
Hægist mein þá um er rætt.
Leynt mein skal leynt bera.
Þróttugur er hver um annars mein (S).
Margur tók í mein sjer en fekk vanþökk til launa (S).
Dautt mein þarf dyggvan lækni.
Mein er þeim sem í myrkur rata (S).

**ment** Ment er betri en mikið fje (S).
Ment er hyggnum hent.

**messa** Ekki er matur í messunni.
**metorð** Metorðin hafa margan blindað.
**mettur** Engi þykist of vel mettur utan fylgi tóbaksrjettur (S).
**meydómur** sjá orð.
**mið** Ekki veit hvað á mið halda má.
Engi kemst yfir ásett mið (S).
**miða** Hann miðar við skýin eins og hrafninn.
**míga** Það er mátulegt að þeim svíði (Þeim verður að sv. GJ) sem undir míga (S).
**mikill** Mikill vill mikið.
Mikið vill meira (K).
Sá sem mikið hefur vill ætíð meira.
Einn kemur öðrum meiri.
Margur er mikill í orði en minni á borði (A).
Mjór er mikils vísir (Óttar svarti).
Það er alt svo mikið á mjer, sagði stúlkan.
**minjar** Andaðs drjúpa minjar mest (M).
**minn** Mitt var það en ekki þitt, kvað bófi, greip annars peníng af gólfi (S).
**misjafn** Sá verður að mæta misjöfnu er víða fer (S).
**miskunn** Miskunnar mun hver á sínu máli þurfa (Þiðr. I 246).
**missa** Ekki missir sá sem fyrst fær.
Þess er ekki að missa sem ófengið er (S).
**mjaldur** Sjaldan bregst mjaldur af miði.
**mjalli** Hann er ekki með öllum mjalla.
Oft leynir mjalli ljótum galla.
**mjólk** Víða dreifist mjöl og mjólk.
Hann er ekki mjólkin matar nje mysan skyrs.
**mjólka** Þú mjólkaðir á honum eyrun.
**mjór** Betri er mjór fenginn en stór enginn (S).
**mjúkmáll** Margur er mjúkmáll í eyrun.
**móðir** Fár er sem faðir, enginn sem móðir (S).

Móðir er barni best (Grettir).
Lengi man móðir.
Betri er fátæk móðir en fullríkur faðir.
Gefur góð móðir þó hún geti eigi (A).
Milt er móður hjarta.
Mjúk er móður höndin.
Móðir dylur barnsins bresti (S).
Móðir er sú mat gefur (S).
Rótast mundi móðir vor í moldinni.
Sbr. barn.

**móðugur** Ekki þarf móðugum mikið að gera.
**móðurbróðir** Móðurbræðrum verða menn líkastir (Ísl.s. II 29, Bisk. I 134; en föðursystrum fljóð A).
**móðurmaki** Margir eru móðurmakar.
**mold** Mikið er hvernig moldin lætur (PM).
**Moldi** Sjálfur reisir Moldi sig.
**moli** Alt vinst upp og einnig molarnir (S).
**mór** Ekki er að taka þar góðan mó sem hann finst ei.
**morð** Betra er að lýsa morði en leyna því.
**morgun** Oft er morguns hlátur aftans grátur (S).
Stuttir eru mornar í Möðrudal.
Sbr. dagur.

**morgunstund** Morgunstund hefur (ber GJ) gull í mund (A).
**morgunverk** Drjúg (Misjöfn GJ) eru morgunverkin (S).
**morkinn** Það er morkið með mjöðminni.
**mót** Snögt má mót á manni sjá.
**múgur** Roskinn múgur er ráðadrjúgur.
**múkur** Mjer líst galinn múkurinn, kvað púkinn.
Múkurinn er varla matlauna verður.
Mump sagði múkurinn.
Oft er dauft eftir múkinn.
Sjá múnkur.

**muna** Lengi man það er ungur getur (S).
Mart mega þeir muna sem gamlir eru.

Lengi man til lítillar stundar.
Lengi man til sinna (S).
Fáir muna sopna mjólk og tugginn bita.
Muna þeir er mein þiggja (Ljósv. 219).
Mundu hvar eg læt þjg.
Sbr. haukur.

**munaður** Oft er munaður ótta blandinn (S).
Mart er munaði til lýta lagt.

**mundáng** Mjótt er mundángshófið (Norges love II 62).
Mjótt verður mundáng (eða: hóf) hitta (Sturla Bárð.).
Láttu mundánginn ráða sjer.

**mungát** Mungát semur manna vit.
Mungátin eru misjafnt vinsæl (Ölkofraþ.).
Mörg eru mungátsorð.

**munir** Hver þarf sinna muna við.

**múnkur** Eins og ábótinn dansa múnkarnir (S).
= Eftir því dansa múnkar sem áhóti kveður.
Sjá múkur.

**munnur** Hann hefur munninn fyrir neðan nefið.
Af gnægð hjartans mælir munnurinn.
Hann er mestur í munninum eins og refurinn í halanum.
Hann hefur mækinn í munninum.
Ekki er hægt að byrgja hvers manns munn.
Þú mátt ekki munninn spara, viljirðu mjólkina metja.
Mart fellur milli munns og sopa (S).
Hvefsinn munnur er sem haglabyssa.
Fáir hlæja svo þeir hafi fríðan munn.

**mús** Hvar sem eru nógar nægtir þar eru nógar mýs.
Man mýsla hvar mat sjer fann (S).
Það er vesæl mús sem ekki hefur nema eitt hús (S).
Hjálpast mýsnar í holunum.
Ekki er sú betri músin er læðist en hin er stökkur (K).

Ekki fretar mús eins og hestur þó rauf rifni.
Hvað skal músinni að mana köttinn.
Litlu munaði, sagði músin, hún mje í sjóinn (S).
Ekki eru það menn mýsnar (S).
Sbr. geyma, köttur, matur, vaða.
**múta** Flest er mútunni mögulegt.
Mútan bleytir steininn.
Mútan hefur margan blindað (A).
Margur tók við mútunni en misti frelsið (S).
Sá bindur sig í mikið sem mútuna þiggur.
Ekki eru múturnar mannhollar þó þyki.
**mý** Mý flutti kvis í rófunni yfir Rín.
Marglátt er mýið þegar það geispar (S).
Margur síar mýfluguna en svelgir úlfaldann.
Stuggaðu mýflugunni, hún stíngur þig broddinum.
**myrkur** Mein er þeim í myrkur rata.
Allir hlutir eru svartir í myrkri.
Ekki er mjer ami að myrkrinu, sagði þjófurinn (S).
Myrkrin eru þjófum þekkust (S).
Myrkur leynir lýtum.
**mæða** 1 Betra er að mæðast en hræðast.
**mæða** 2 Ekki er mæðu markaður bás (S).
**mægð** Skarn kveður að skitnum mægðum.
**mæla** Ekki veit á hverri stundu mælir.
Svo mælir hver sem hann er maðurinn til.
Enginn mælir óborinn.
Það mæli jeg sem aðrir mæla.
Það er eins og við manninn mæli.
Allir kunna um hug sjer að mæla.
**mælgi** Oft bagar óþörf mælgi.
Mörgum gerir mælgin skemd (S).
**mær** Það eru ekki alt meyjar sem lángan hafa lokkinn (G).
Mey skal að morni lofa (S).
Mjúkur er meyjar nafli.

Því fegra er að heyra sem mærin heitir fleira.
Oft verður meyjan annars glys (PS).
Vinnur mær vana sinn (S).
= Ekki týnir m. v. s.
Sel ekki mey fyrir konu nje gæs fyrir gagl.
Allar þykjast meyjar þar til krakkinn krimtir (A).
Gamlar meyjar eru manngjarnastar.
Gömul mey grýtir öll ker sundur.
Hver veit hvað margar eru meyjar í miðri sveit.
Mey setti hönd undir kinn og grjet yfir sín gráskinn.
Hefur mær af móðurarfi.
Mey er vant að vita.
Flot spillir meyjum, mergur húsfreyjum, og mör karlagreyjum (PM).
Sbr. nei.

**mæta** Engi veit hvar öðrum mætir (S).

**mögur** Ei er mögur nema móðir sje.

**mör** Jeg kastaði nú út mörsiðrinu.

## N

**nafar** Hann er einhæfur eins og nafarinn.

**nafn** Alt hefur nafn og eðli.
Flestir hafa fjórðúng af nafni.
Margur hefur nafn en litla rentu.
Margur kafnar undir nafni (S).
Mart á ekki saman nema nafnið (S).
Sbr. eiga.

**nafni** Margan nafna á hann Gestur.

**nagli** Hjer vantar til höfuðgóðan nagla.

**naglkroppi** Ekki er á honum einn naglkroppinn að klóra.

**nágranni** Lengi styður hollur nágranni (S).

**náhrafn** Náhrafns miskun er næsta lítil.

**nakinn** Ekki er námssamt nakinn að særa.

**nál** Lítið fyllir nálarauga (S).
Þú ert ekki búinn að bíta úr nálinni enn
**nám** Námið eykur naumur svefn.
Námið kennir fleira en náttúran.
Sjaldan eru námsgáfur gallalausar (S).
Sbr. náttúra.
**nár** Nýtur mangi nás (Hávam.).
**náttgjóla** Oft er náttgjóla nöpur (S).
**náttúra** Alt er náttúrunni nákomið.
Náttúran er náminu ríkari.
Bágt er að nema það sem náttúran bannar.
Náttúran nægist með lítið.
Náttúruna er torvelt að temja.
Sbr. nám.
**nauð** Nauð gerir nasir djarfar.
Nauð gerir neppa kosti (G).
Sbr. neyð.
**nauðsyn** Oft er þörf en nú er nauðsyn (S).
Nauðsyn brýtur lög.
**nauðúng** Betri er nauðúng til nytsemdar en sjálfræði til syndar.
**nauðþreyttur** sjá nótt.
**nauðþurft** Flest nýtir nauðþurftin.
**naumíngi** Aldrei er naumínginn ástsæll.
**naut** Mart er gott í góðu (gömlu GJ) nautinu (K).
Illa eru þá nautin rekin.
Nú er nokkuð um, nautið dansar.
**nef** Náið er nef augum (Nj. 55).
Skamt á nefið að kenna úr kjaftinum (Fms. III 188).
Sljó eru nef vár (lítið er nef várt) en breiðar fjaðrar (Bisk. I 647).
Honum þykir ekki nefið á hverjum kettinum.
Þú lætur draga þig á nefinu.
Hann stökkur upp á nef sjer sem hávarr er.

Hann rak nefið í nóttina.
Hann nær ekki upp í nefið á sjer.
Sagt er frá hve neflaus narir (M).
Sbr. karl.

**negla** Þú smíðar negluna fyrri en bátinn.

**nei** Nei er meyjar já.

**neisti** Af litlum neista verður mikill eldur (K).

**neitinn** Nóg er til þá neitinn lofar (S).

**nema** Fátt nemur sá sem fátt sjer og heyrir.

**netla** Svo brennir netla vin sem óvin (S).

**neyð** Neyð er nauðbeygja.
Neyð kennir nýtni (S).
Flest er í neyðinni nýtandi (A).
Neyðin kennir naktri konu að spinna.
Neyð giftir ekkjurnar.
Neyð mín gerði að jeg fastnaði þig fátæka Gunna.
Neyð kennir bljúgum að biðja (A).
Neyð er enginn kaupmaður.
Þegar neyðin er hæst er hjálpin næst.

**neyta** Neyttu meðan á nefinu stendur.

**níðíngur** Sækjast sjer um glíkir, saman þinga níðingar (Post. 84).
Oft ferst níðíngur með níðíngi.
Oft er níðíngur nákominn góðum.
Væri þá níðíngur barður til batnaðar.

**nískur** Horfir nískur fis í flest (S).
Hvað skulu nískum nægtir (A).

**Njáll** Ekki þarf Njáli ráð að kenna.
Njáls bíta ráðin.

**njórafótr** sjá kartnögl.

**njóta** Hver nýtur síns um síðir.
Svo nýtur hver sem hann þiggur.
Firnum nýtur þess, er firnum fær (Fóstbr. 16).
Betra er að einhver njóti en engi (S).

Sá nýtur oft sem ekki skyldi.
Njóttu betur en niður gengur.
Njóttu heill handa.
**nóg** Aldrei veit nær nóg er (S).
Nóg hefur sá sjer nægja lætur (S).
Sá sem nóg hefur skal láta sjer það nægja.
Hver hefur nóg með sig.
**norðurljós** Brigðljóst er norðurljós og ný í skýjum.
**nót** Er langa nót að að draga (Nj. 461).
**nóta** Sjerhver brúkar sínar nótur.
**nótt** Nóttin er mönnum til náða sköpuð.
Nótt verður nauðþreyttur feginn (A).
Engin nótt er svo dimm að ei komi dagur á eftir.
Honum er hver nótt að von komin.
Ekki er úti öll nótt (S).
Nótt skal nema til nýræða (S).
Eg læt þar nótt sem nemur og kvöld sem kemur.
Enginn ræður sínum næturstað.
**ný** sjá norðurljós.
**nýgiftur** Betra er að vera í heimferð en heiman með nýgiftum.
**nýjúng** Fátt er nýjúnginni nóg.
Á nýjúngarnar er næmið tamt.
**nýr** Það er nýtt sem sjaldan verður (PS).
**nýta** Sá nýtir flest sem af fæstu hefur að taka (S).
**nýtinn** Flest verður nýtnum að notum (S).
**nýtur** Alstaðar er sá nýtur sem nokkuð kann.
Allir eru í önn nýtir (Fas. II 110).
Fleiri eru nýtir en þeir bestu.
Nýtur er hver sig fæðir.
Lengi skal nýtum kenna (K).
Fátt er svo ónýtt að til einkis sje nýtt (S).
**nægja** Hverjum er nægjan nóg.
**nægjast** Engum nægist ekkert (S).

**nægt** Nægtin er best þá nálgast skortur.
Sá sem er rýr í nægtunum verður dýr í skortinum.
**nögl** Honum logar ljós við neglur.
Sbr. krepja.

# O

**óbilgjarn** Ilt er að eggja óbilgjarnan (ofstopamanninn) (Grett. 24 og o.).
**óboðinn** Hvar skal óboðinn sitja (S).
Yst við dyr skal óbeðinn sitja (A).
Hátt skal óboðinn húka.
**Óðinn** Ekki verður Óðinn örþrifráða.
**óðinshani** Hann er eins og óðinshani á torfgröf.
**óður** Ekki veit hvaðan óður er eða ölur kemur.
Lítils virðast orð hins óða.
Bönd eru óðum best.
**ódeigur** Odd skal ódeigum rjetta.
**ódrengur** Er ilt ódreng að elska (Mág. 77; duga GJ).
**ódyggð** Auðnæm er ódyggð (S).
Af vondum vana vaxa ódyggðir.
**ódæmi** Ill eru ódæmi að eta sjer til dauðs.
**of** Alt of er óheilnæmt
**óf** sjá óhóf.
**ófarir** Ilt er að hlakka yfir annars óförum (K).
**ofbjóða** Öllu má ofbjóða.
**ofdramb** Illa leggst ofdrambið (ofmetnaðurinn; S).
**ofdrykkja** Ofdrykkja er illur ráðgjafi (S).
Vitfirring og losti eru ofdrykkju börn (S).
**ófeigur** Eigi má ófeigum bella (Ísl.s. II 305).
Ekki kemur ófeigum í hel (G).
**ófengið** Betra er ófengið en illa geymt (S).
**offlýtir** Oft tefur offlýtirinn.
**ofkvenni** Ilt er ríkt ofkvenni (PS).

**oflaunað** Aldrei er gott oflaunað nema með illu (A).
**ofleyfíngi** Ofleyfíngjarnir bregðast mjer mest (Grett. 102).
**oflæti** Margur brýtur odd af oflæti sínu.
**óframur** Aftans bíður óframs sök (Laxd. 119 og o.).
**ófreistað** Ekki dugir ófreistað (Nj. 17).
**ofríki** Ekkert ofríki hefur lángan aldur.
**ofsi** Illa sest oft ofsinn (Vígagl. 22).
**ofstopi** Oft kemur ofstopa hnekkíng (S).
Illa sest ofstopinn.
Sbr. óbilgjarn.
**ofurhugi** Fátt óttast ofurhuginn og fíflið.
Æpa sjaldan ofurhugar (A).
**ofvit** Ofvit er reyndar óvit.
**ófæddur** Auðvelt er ófæddum að bása (S).
**ógift** Ógift verður í umbúð skjót (M).
Ógift segir: eftir hverju skal eg bíða.
**ógiftur** Allir eru ógiftir í verinu.
**ógæfa** Á ógæfu eru umskifti best.
Ógæfan er römm og rík.
**óhapp** Ærin eru óhöpp þó eitt hjá líði.
**óhóf, óf** Oft mætir óhóf óhófi.
Eitt óhóf upptendrar annað.
Tvennum gengur óhófunum.
Skammæ verða ófin öll (M).
Skömm er óhófs æfi (Hrafnk. 22).
Ekkert óhóf kann lengi að standast (S).
Eftir óhóf kemur örbirgð.
Óhófið fær sult um síðir.
Ekki er óhófið aurasælt (S).
Hvað er það sem óhófinu ofbýður.
Óhóf elur fjárplóg (S).
Útlenskt óhóf bítur verst (S).
**óhreinn** Óhreinum er ekkert hreint.
**óhultur** Sá lifir óhultastur sem lítils óskar (S).

**óhæfa** Ilt er óhæfu stoða.
**ójafnaður** Ójafnaður gefst jafnan illa (Sturla Bárð.).
= Gefsk illa ój. (Grett. 146).
**ókunnugur** Oft fær ókunnugur óþægan náttstað.
**okur** Okur er ills manns gaman.
**ókvæði** Enginn skyldi ókvæði upp á annan bera.
**ókvæntur** sjá ver.
**Ólafur** Þeir segja mest af Ólafi kóngi sem hvorki hafa heyrt hann nje sjeð (S).
**ólán** Ekki er ólánið lengi til að vilja (S).
Ekki ríður ólánið við einteyming.
Ilt er öðrum ólán sitt að kenna.
**óland** Ilt er þeim er á ólandi er alinn (Nj. 21).
**olbogabarn** Oft verður olbogabarnið yndi sinna foreldra.
**ólíkur** Ekki sitja ólíkir á sátts höfði.
**ólund** Ilt er þeim sem ólund ber
**ólýttur** Sá er ólýttur fyrir sem er ólýttur á baki (PS).
**ólög** Ólögum sætir sá ólögum beitir (S).
Hver ólög fremur, ólög festir.
**ómagi** Fyrr er ómagi en ekkert geri.
Lángur er ómagahálsinn.
Fullkeypt (Hálf-) er ómagaverkið.
Ómæt (eru) ómaga orð (Gísl. Súrs. 5).
**ómáli** Fáir vita ómála mein (K).
**ómildur** Ómildir skulu dreggjarnar af súpa.
**ónenning** Ónenning er undirrót til klækja (S).
**órar** Hlæja skyldi að órunum.
**orð** Orð eru til alls fyrst.
Engi lifir orðalaust (S).
(Þegar) fer orð ef (er) um munn líður (Vápnf. 15 og o.).
= Orðin fara þegar munninn líðr (M).
Fæst orð hafa minsta ábyrgð (S).
Sjaldan koma ótöluð orð á þing (S).
Ekki verða öll orð töluð í einu.

Eitt orð leysir annað.
Mörg orð fylla ei sekkinn.
Oft þýtur orð um eyra.
Orð bíður orðs.
Töluð orð og tapaður meydómur verða ekki aftur tekin.
Það var orð og að sönnu.
Þeirra orða var þaðan von.
Öll orð vilja láta tala sig.
Orða sinna á hver ráð (Grett. 42).
Margir kjósa eigi orð á sig (Nj. 474).
Engi kann að kjósa orð úr annars hálsi (munni GJ; S).
Margur á orð í annars fari (S).
Allir eiga leiðrjettíng orða sinna.
Bagi er ekki að bindast orða.
Ekki velja allir orð að annars skapi.
Enginn man öll sín orð sjálfur.
Orða sinna á hver stað.
Lifa orð lengst eftir hvern (Fms. VIII 116).
Gleðst hver við velkveðin orð (S).
Lítið stoða orðin góð ef ekki er meira (S).
Enginn fitnar af fögrum orðum.
Góð orð finna góðan samastað.
Góð orð tóm ill kaup.
Stór orð stoða oft lítið.
Heimsk orð koma úr heimskum belg (S).
Skökk orð koma úr skældum haus (S).
Eg má heyra ósökk orð af óskældum munni.
Ilt orð grefur oft um sig.
Digurleg orð koma úr dreissugum hálsi.
Brigðul (Hál) eru útlendra orð.
Oft tæla hygginn tvíræð orð (S).
Mildari er margur í orðum en í útlátum (S).
Vertu svo mikill á borði sem þú ert í orði.

Jeg er ekki svo þunnur í sporðinn að jeg standist ekki orðin (A).
Hann kemur hvorki fyrir sig orði nje eiði.
Enginn hefur með orðum einum veginn verið.
Honum hraut orð við hixta.
Því orði sigur.
Sbr. drottinn.

**orðslægur** Oft blekkir orðslægur einfaldan (S).

**óreyndur** Ilt er að ætla á óreyndan.

**órjettur** Einn órjettur býður öðrum heim.

**ormur** Ormar skríða úr hamsi á vár (M).
Orminum er skapfeldast að skríða.

**ós** sjá á

**ósamheldi** Ósamheldi er eymda móðir (S).

**ósátt** Að kvöldi skal ósáttum eyða.

**ósk** Af óskum eru flestir jafnríkir (A).
Góð er ósk ef gengur eftir.

**óskastund** Ekki veit hvar óskastundin mætir.

**óskyti** Eigi veit (er víst) hvar óskytja ör geigar (Hkr. III 409 og o.).

**ósköp** Ekki má við ósköpum vinna.
Ekki er gaman að ósköpunum (S).
Ekki eru ósköpin lengi til að vilja (S).
Oft ráða ósköp illa.
Hlæja skyldi að ósköpunum en ei fyrir þeim verða.

**óslægja** Honum kemur maur í óslægju.

**ósómi** Aldrei er gagn að ósóma (S).
Djarfur er ósóminn.

**ostur** Betri er góður ostur en gæsavængur.
Fá þú oss ostinn, fram eru komnir rjettirnir.

**ósvinnur** Eftir (Seint GJ) koma ósvinnum manni ráð í hug (Dropl. 85 og o.).
= Ósvinnum koma eftirráðin (S).

**ósýnn** Oft matar ósýnn nef (S).

**ótaminn** Illa þolir ótaminn okið.
**ótrúr** Hvergi er ótrúr óttalaus.
**Óttar** Óttar er fremst í flokki þá flýja skal.
**óttast** Allir óttast eitthvað.
Fáir óttast sjálfa sig.
**óvani** Óhægt er óvana að týna.
**óveður** Oft kemur óveður í endaðan þey.
**óverður** Oft gefur óverðum (óvörum) happ (S).
Oft verður óverðum tylt í tignarsæti (S).
**óvinur** Eta skal óvinar mat en engu launa.
Aldrei er örvænt hvar óvinum mætir (Reykd. 129).
**óyndisúrræði** Hörð (Ill) verða (eru) óyndissúrræðin (Fas. III 522 og o.).
**óþakklæti** Óþakklæti er illa goldinn eyrir (S).
**óþarfi** Eitthvað verður óþarfinn að vinna (S).
**óþjóð** Aldrei er þýður óþjóðalýður (S).
**óþokki** Skamminnug er óþokkans þörf (S).
Bæði er ilt og lítið það óþokkinn gefur.
Mjótt er óþokkanum milli augnanna.
**óþrifnaður** Óþrifnaður er aura tjón (S).
**óæti** Á engum hrín óætið (K).

# P

**páfugl** Felt hefur páfuglinn fjaðrirnar.
**peníngur** Peníngur er peníngs bróðir.
Aldrei þrýtur penínginn í preststúngunni.
Oft veldur peníngur pundi (S).
Veð vegur peníng heim (S).
Sjaldan fitnar peníngur fyrir fjósdyrum.
Sbr. prúður.
**píka** Ein er píkan annari lík.
Þar er píka sem finnur sinn líka (S).

Ekki eru þær píkur sem penta sig.
Ekki eru píkur allar altjafnprúðar.
**pissa** sjá vermir.
**Pjetur** Pjetur hefur nóga fíngur þó einn fari.
**plógur** Þeir synda fyrir sínum plógi.
**poki** sjá vandi.
**pottur** Víða er pottur (eru p-ar) brotinn (S).
Ilt er að láta í lekan pott.
**prestur** Eins eru prestar og aðrir menn, ekki má þeim trúa.
Nógir eru peníngar í preststúngunni.
Alt verður fylt nema pokinn prestsins.
Flest jetur svángur prestur og soltinn djákni.
Gott er að vera prestur um páska.
Líka hefur fundist skarn í skálinni prestsins.
Prestfiskur er fagur og magur.
Það er sjálfsagt um prestlambið þó heylítið sje.
Sbr. púta.
**prettur** Oft mætir prettur pretti (S).
Prettur og púki bjuggu í einum búki (S).
**próventa** Eitt ár er engin próventa.
**prúður** Prúður er hver meðan peníngurinn stoðar.
**púki** Litlir púkar luma á hljóðum. Sbr. prettur.
**púta** Pútur þurfa ei kvíða, pínkil fá þær víða.
Pútur elska mútur.
Pútur eru presta frillur.

## R

**ráð** Ráð eru til als fyrst (S).
Ekki er ráð nema í tíma sje tekið.
Fyrir öllu verður ráð að gera.
Tekur hver ráð sitt er í kreppíngar kemur (Fms. IV 147).
= Sitt ráð tekur hver er í svörfin fer (S).

Engum legg ráð án bónar.
Stutt ráð og gott ætti maður fyrir sjer að gera (K).
Svá köllum vjer (eru S) ráð sem gefast (M).
Ekki eru ráð dæmandi fyr en reynd eru.
Ráð eru raunargóð.
Svo er ráð gott sem rækt er.
Hafa skal heil ráð hvaðan sem koma (Band. 38 og o.).
Hafa skal gott ráð þótt úr refsbelg komi (Gullþ. 39).
Oft hafa ráð úr refsbelg komið.
Ill (Illa) eru (gefast) ill ráð (ils ráðs leifar) (Nj. 52 og o.).
Betra er að þiggja ráð en gefa.
Hætt er rasandi ráði (A).
Sjaldan fylgir ráð rasi.
Hann hefur ráð undir hverju rifi (sem rebbi).
Ráð hefur sá á reipi hjelt.
Ráð er að sjá við svikum.
Ráð er gerandi gáta.
Ráð skal fá hjá reyndum vin.
Tak ráð af Rauðskegg, reynslan sýnir hvað trú eru.
Uppi tollir eitt ráð.
Sbr. kona, konúngur.

**ráða** Bær er hver að ráða sínu (Ísl.s. II 145).
Úr því er að ráða sem er.
Ráð þú smíðum þínum, eg mun ráða ferðum mínum.
Oft ræður sá verr vill.
Sá hefur annan undir er á ræður (Fas. III 64).

**ráðaleysi** Fyrir ráðaleysið ratar margur skaða.

**ráðfátt** Ráðfátt verður rögum þrátt (A).

**ráðgast** Ilt er að ráðgast um við ragan hvernig berjast skuli.

**ráðgera** Eitt er að ráðgera, annað að framkvæma (S).

**ráðskona** Margar ráðskonur eru sjaldan matdrjúgar (bú-).

**ráðþurfi** Ráðþurfum verður helst ráðaskortur (S).

**ragur** Ragur er sá sem við rassinn glímir.
Oft óttast ragur ófyrirsynju (S).
Ekki þarf lengi að letja þann raga.
Hann er oft ragastur sem mest raupar.
Hvað skal rögum manni lángt vopn.
Lítið er rags manns rúm.
Rýkur að þeim ragastur er.
Aftur tekur ragur maður rasgjöf sína.
Engi ragur fíflar fríða konu (S).
Sbr. ráðgast, ráðfár.
**rakasáta** Drjúg er rakasátan.
**rakki** sjá hundur.
**rammur** sjá reip.
**rángeygður** Ilt er að vera rángeygður þó annar sje góðgjarn.
**rángfengni** Rángfengni gerir rýrð í búi (S).
**ránglátur** Ránglátur er rángláts bróðir.
**rángur** sjá rífa.
**rasa** Ilt er að rasa (Margur rasar) fyrir ráð fram.
**rass** Stór (Digur) rass þarf víða brók (S).
Eg bý við kaldan rass og þúnga þykkju.
Fíngur kenna rassi að ropa.
**rata** Hann er einn af þeim sem aldrei rata heim.
Jeg rata heim þó seint sje.
Oft ratar sá heim sem ríður seint.
**raun** Raunin er ólygnust.
Raun er rjettur drengur.
Ekki veit af raun fyrr en reynir (A).
Raunin sjest best þá rekur í þrautir.
Raun en seina sannar mart (Þrændlur V 53).
Raun er raupi vissari (S).
Betri er raun góð en raup mikið.
Best er að vera bráður í raun.
Gæt að raun fyrr en grunsemd trúir.

Gott er að gefa betri raun en margur ætlar.
Mikil er alvalds raun.
Margur á við raun að rjá.
**raup** Mikið raup fær spott í kaup (A).
Ekki er raupið einskisvert.
Raup er rags manns gaman.
**raupa** Raupaðu ekki meira en þángað til full er skjóðan.
**raupsaldur** Hann er kominn á raupsaldurinn.
**rausn** Svo mínkar rausn sem munir þverra (S).
**refur** Ekki mart er slægra en refr (M).
Ilt er að ginna gamlan ref (S).
Ekki þarf refnum ráð að kenna nje selnum að synda.
Trauður gengur gamall refur í gildru þröngva.
Trú þú ei refnum, hann terrar að þjer halann.
Veit refur refs æði.
Refur hrafni ráð gefur.
Rjett er að ræna, sagði refur.
Sjaldan bítur gamall refur (rebbi) nærri greni (A).
Oft er refur í rauðum hárum (S).
Bróðir, bróðir, sagði refurinn við rakkann bundinn.
Ekki tekur refur rjett af hundi.
Þar sá (Sá þá) refur rakka en rakki hafði als ekki (Sturl. II 130).
Nú er genginn refur úr skorum (Fas. III 636).
Eftir mörgu rennur refur (S).
Hjer rennur refur eftir.
Gildra er refi gestahús (S).
Refur er genginn í gildru.
Sjáðu refinn áður en þú selur skinnið.
Ekki tekur refur þinn róu mína.
Era hlums vant, kvað refur, dró hörpu að ísi (Mork. 137 og o.).
Sbr. frændi, hundur, mál, munnur, ráð, öl.

**regn** Oft kemur regn eftir reiðarslag.
Oft kemur æðiregn úr dúsi (Þór. máhlíð.).
Sjaldan er eitt regn yfir alt land.
Eigi verður það alt að regni er rökkur í lofti (Heiðarv. 21; í l. sl. GJ).

**reiði** Ill er ofbráð reiði.
Ró (Rúm GJ) skyldu menn (skal) reiði gefa (M).
Skömm mun (er) ró reiði (Atlamál).
Ekki er (í GJ) reiði rjettyrði (S).
Sjaldan verður rjettsýn reiði (S).
Sjerhverjum þykir sín reiði rjettvís.
Fáum þykir reiði sín ránglát (A).
Aldrei geisar reiði án ránglætis.
Eins er reiði og eldur í sinu.
Oft er lin reiði lángæ.
Reiði er illum ónýt.
Römm eru reiðitár.
Stutt er skipmanna reiði.
Reiðin og vín lætur hjartað segja til sín.
Það er ró ef reiði dreymir.

**reiðíngur** Nú verður ekki reiðíngur lánaður.

**reiður** Skal ei marka reiðs manns mál (Sturl. I 482).
Oftast er reiður orðgreiður.
Sbr. vitna.

**reip** (Þar er) við ramman reip að draga (Nj. 22 og o.).

**reka** 1 Stikk (Stíngið) mjer í, kvað reka, hún stóð ein saman (Mork. 172).

**reka** 2 Rekur títt þó rói eg öllum árum.
Það rekur hvorki nje gengur.

**rekabútur** Vandsjenir eru rekabútarnir.

**reki** Altjend ber eitthvað upp á rekana.
Betri er lítil rekavon en mikil skriðuvon.

**rekkja** Í rekkju skal ró nytja.
Nú er nóg rekkjuvoðin, sagði karlinn.

Rekkjuvoðin hefur sínar deilur.
Rjett þig eftir rekkjuvoðunum.

**rembast** Hann rembist í kút og kvartil.

**reyður** Fjarri skal reyði róa, nærri niður koma.

**reykja** Reykja skal til rjetta.

**reykur** Römm er reykjarsvælan.
Rís enn reykur úr bröndunum.
Sá dó í reyk sem reykinn seldi.
Sá skal reykinn varast sem vill firra sig bálinu.
Flý svo reykinn þú fallir ei í gröfina.
Rýkur ekki reykurinn í augun.
Sá sem hefur reykinn fær oft lítið af rjettunum (S; skal og hafa rjettinn GJ).

**reyna** Það er sem reynist (Nj. 163).
Mart reynist öðruvís en sýnist.
Lengi skal (Seint er) manninn reyna (Grett. 48).
Þá veit það er reynt er (Grett. 95).
Fundið mun það er reynt er lengr (M).
Hver fær sig reyndan.
Í fjórða sinn er fullreynt (S).
Sbr. vita.

**reynsla** Fátt er reynslunni fróðara.
Reynslan er fyrir heilum hleif (S).

**reyra** Hægra er að reyra en halda við.

**ríða** Ekki ríða allir sömu leið.
Sá ríður seint úr hlaðinu er snemma bindur sporana.
Nær skal ríða ef nú er aftur haldið.
Hver annan vill ofan ríða, fellur tíðum sjálfur úr söðli (S).

**ríkismaður** Oft rekast ríkismanna reigíngar í rýrðarhnipur (S).
Ríkismanna hylli er flauta fylli.

**ríkur** Jafnan segir enn ríkri ráð (M).
= Ríkari verður að ráða.

Einn ríkur í dag en rækur á morgun.
Nökkvi ríkstur er heima hver (M).
Oft reiðast ríkir af litlu.
Sá sem ekki lýtur að litlu verður sjaldan ríkur (S).
Ríkur fær þar rúm sem fátækum er frá vísað (S).
Margur er ríkari en hann þykist.
Sbr. heima, þjófur.

**ríma** Af rímu erindi er hægt að hvílast.

**rjetta** Margur rjettir við úr litlum vonum (S).

**rjettur** Það er rjett sem rjett er.
Rjett er satt.
Rjett er best en rángt er verst.
Ekki er gott að sækja rjett í hundskjaft.
Ilt er að sækja rjettinn undir kaplafæturnar.

**róa** Betra er að róa en reka undan.
Bágt er að róa einni ár.
Róa verður fyrst til ens næsta ness (M).
Ekki verður fyrir öll nesin róið.
Margur rær fjærri en kemur nærri niður (K).
Ekki er á vísan að róa.
Hann rær þar að öllum árum.
Sbr. reyður.

**róður** Þúngur er þegjandi róður (S).

**rófa** Ljót veiður rófan á röngu.
Altjend er kleppurinn á rófunni.
Hjer rennur rófa undan höfði.

**rógur** Ratar rógur þó rökkvið sje (S).
Enginn á sök á sönnum rógi.
Rógs túngur reka frið úr húsi (S).

**roka** Engi of sjer við öllum rokum (M).

**rolla** Öðrum leysa rollur reifi.

**Rollant** Ekki þarf lengra að jafna en til Rollants (S).

**rómur** Oft er hniss að alþýðu rómi.

**rót** Oft ilmar eitruð rót (S).

**rot** Mál er sem fyrst úr roti að rakni.
Hann á ekki af miklum rotum að rakna.
**rota** Fyrr má nú rota en dauðrota.
**Ruddi** Ekki er mannskaði í Rudda.
**rúm** Betra er autt rúm en illa skipað.
Hann ver rúmið sitt.
Sjerhver finst í sínu rúmi.
Rúmlegull aflar lítils forða (S).
**rún** Dimmar eru rúnirnar þínar, þó má ráða þær.
**rýninn** Fár er fullrýninn (Atlamál).
**ræðari** Árinni kennir illur ræðari.
**ræksla** Betri er ræksla en ríkdómur.
**rödd** Digur rödd kann að koma úr dálitlum búk.
**röskur** Margur er röskur meðan reynir ei á.
Oft reiðast röskir illa.

## S

**sá** Það sem sáð er í haf sökkur í kaf.
**saðníng** Sjer á kinn saðníngin (S).
Oft fær sá saðníng er seinna borðar.
**safna** Safnast þegar saman kemur (S).
**saga** Það verður að segja svo hverja sögu sem hún gengur (S).
Bera verður til hverrar sögu nokkuð (K).
(Jafnan) er hálfsögð saga ef einn segir (Grett. 103).
Þá er ei sagan ef ei er yrkisefnið.
Bráður er sögusmiður.
Oft sitjanda sögur of fallast (Þrymskv.).
Alt er senn í sögu (S).
Kemur að sögu minni.
**saka** Ekki sakar ef ekki sjer á (K).
Ekki mun týja að saka sig um orðinn hlut (Nj. 51).
**saklaus** Ekki saka þann óbænir sem saklaus er (S).

**sál** Ilt er að selja sál fyrir auð.
**salt** Saltið bætir alt nema mjöl og malt.
Þú hafðir ei keypt af honum saltið.
Gömlum kennum vjer nú goðanum að geipla á saltinu.
**sameign** Sameign gerir tíðum sundrþykki (S).
**samur** (Brigða) lengi er hver enn sami (M).
Sami er maðurinn þó annar sje kyrtillinn.
Samur er glópur þó gyltur sje hjúpur.
Ekki stendur lengi á sama.
Sama er mjer hver góður maður gerir.
**samviska** Góð samviska er gulli betri.
**Sánkti Páll** Hvað guð gefur grípur ei Sánkti Páll.
**sanngirni** Sanngirni er sátta móðir (A).
**sannindi** Sannindunum reiðist hver mest (S).
**sannkveðið** Sannkveðið er söngurinn besti.
**sannleikur** Sannleikurinn er sagna bestur (S).
Oft er sannleikurinn seinn úr munni.
Oft sest ryk á sannleik ef sópara vantar (S).
Sannleikanum verða menn sárreiðastir.
**sannur** Satt er best að segja.
Segðu satt og fátt.
Það er satt sem sjálfum semur (K).
Nóg er satt að segja þó ei sje logið.
Oft má satt kyrt liggja.
Ekki er altíð gagn satt að segja.
Leiður er sá satt eitt segir (S).
Oft kemur satt eftir kvitt.
Seint er satt að spyrja (Hkr. II 246).
**sár** 1 Hver hefur sín að binda sár (S).
Betri er sár en sjúkur.
Það er lítið sár sem ekki svíður (S).
Flestir (Allir) verða forlagðir ef fyrir sárum verða (Þ. stáng. 51).

Gömul sár gróin illa.
= Illa gróa gömul sár.
Sjaldan gróa veil sár vel.
Grunn verða svöðusár (Sturl. I 168).
Hulin sár eru hættust.
**sár** 2 Sárast er það á sjálfum liggur (S).
Fleira er sárt en á sjálfum liggur (A).
Honum er bæði sárt og klæjar.
**sáta** Lengi er að fjúka til sátunnar.
**sátt** Sátt er best þeim saman eiga að búa (S).
**sáttur** Ekki verða allir á eitt sáttir.
Þröngt mega sáttir sitja.
**sauður** Oft er misjafn sauður í mörgu fje.
Þángað man sauður lengst er lamb gengur (A).
Ekki á saman á garða gamall sauður og lamb (S).
Ekki á saman sauðurinn og selurinn.
Ofskipað er sauð hjá kiðum.
Hver sauður er svartur í myrkrinu.
Menn reyta sauðinn sakir ullar.
Sá nýtur nokkurs sauða sinna sem ullarinnar nýtur (S).
Það er fánýtur sauður sem ekki ber fat sitt (S).
= Það er vond ær sem ekki veldur fati sínu (S).
Það er góðra siður að leggja sauðinn niður (S).
Hann er einfaldur eins og sauður.
Sbr. úlfur.
**sauma** Ekki er hægt að sauma, nálin dregur hlass.
Yfir má ófrítt sauma.
**saur** Sami saur er verstur.
Ekki renna allir saurar í senn.
Auðsjenn er saur annars nefs (en ekki sjálfs sín) (K).
Heilagur er vinnu saurinn.
**saurugur** Sá hlýtur að vera saurugur sem í saurugt gengur.
Saurugt jafnan þarf að þvo.
**sax** sjá liður.

**sefa** Ekki sefast alt með illu.
**segja** Sagt getur maður mart sumarlángan dag.
Seint segist þeim er aldrei segist (K).
Hver segir til sín.
Seg mjer að sunnan, eg er nýkominn að norðan.
Um aðra segir en sjálfan sig þegir.
Ekki segir lengi fyrir.
Löngum segir lángt fyrir.
Sjálft segir þó þegi.
Segir til hver eta skal.
**segl** Aka skal seglum eftir vindi.
Ekki hefur hann öll segl við veðri.
Öll segl eiga ei við öll skip.
**seigur** Þar bendast tveir seigir vindur og ágángur.
**seilast** Hann á ekki lángt að seilast.
Margur seilist lángt til lokunnar.
Sbr. hurð.
**seimur** Ann hver sínum seimi og konur sínu seymi.
**seinagángur** Fyrst skal læra seinagánginn áður en menn fara að hlaupa.
**seinn** Eyvit týr þótt skyndi seinn (M).
Aldrei skyldi seinn maður flýta sjer.
Hálfseinn er maður þó að um sinn sje (K).
Seint til vánar sjá man erja (Vígagl. 22).
Margur verður einum degi of seinn.
Seinna var dugir ei par.
Seint og fast gengur (K).
Betra er seint en aldrei (K).
Hendir seinn hvatan (S).
Kemst þó seint fari (Nj. 189).
Allmargur er til seinn að sefast (M).
Ekki bæði seint og illa.
Einatt er seinna en segir.
**sekkur** Hann varði það sem votan sekk.

Láttu upp sekkinn meðan gæsin gefst.
Sbr. digur.
**sekur** Hætt er sekum þótt harðlega þræti.
Fár gengur sekur af sjálfs dómi (Bisk. II 45).
Sá fer ekki sekur af þínginu sem sjálfur sig dæmir (S).
Oft er sekur varinn en saklaus barinn (A).
Oft fær sá sigur sem sekari er.
**selníngur** Sæll er selníngurinn, því hann er sjálfráður.
**selur** Ekki þarf að kenna selnum að synda (S).
= Þú kennir ekki sel að synda eða fugli að fljúga (A).
Gamall selur er sinna kópa elstur.
Hafa selar augu.
Hjer er selur og sauður í sambandi.
Við selum er að sjá.
Hann er svo nótvar sem selur.
Oft verður slíkt á sæ, kvað selur, var skotinn í auga (Fms. VIII 402).
Ekki er selur sjúkra fæða (S).
Sbr. refur, sauður.
**selveiði** Alt (Flest GJ) er safi hjá selveiði (S).
**sendíng** Meiri er virðíngin en sendíngin (K).
**sess** Oft er lágur sess hægur (S).
**sessunautur** Hver dregur dám af sínum sessunaut (S).
Sbr. hundur.
**seta** Ekki er til setunnar boðið.
**setja** Sá getur sett þig á bak.
**seyðir** Sami rýkur seyðirinn.
Af öllum seyðum rýkur nokkuð.
Ekki rjúka allar seyður (!) í senn (S).
(Þótt) sá seyðir rjúki, er þeir hafa hreyft (Fms. VI 105).
**sía** Þú vilda eg værir þvegin sía.
**siða** Sá þykir hæfur með ærlegum mönnum sem sig siðar vel.

**síða** Hann jafnar á honum síðurnar.
Sá jafnar síðurnar sem um hrygg veltir.
**síðastur** Það er ekki jafnan best að gánga síðast.
**siður** Sinn er siður í landi hverju.
Maður skal sið fylgja, flýja land ella.
Lýttur er sá sem ekki fylgir lands siðnum (S).
Nýjir siðir koma með nýjum herrum (A).
Siðirnir sæma manninn (K).
Af vondum lögum versna siðir (S).
Sbr. dámur.
**sifjar** Saman sækir sifja blóð.
**sig** Sjer er hver næstur.
Hvað verður sínu fram að fara.
**sigla** Vant er að sigla milli skers og báru (Fms. II 268).
Fleiri verða að sigla en þeir sem sumarveðrið hafa.
Ílt er að sigla í ógjörðu veðri.
Sbr. byr.
**sigur** Fleira ræður sigri en sveina fjöld (S).
Oft vinst sigur í seinni ferð.
Með flótta fær enginn sigur.
Engi sefur sjer sigurinn í hendur (S).
Sá mun hafa sigur er fyrstur kemur á mót (Rjemundars.).
**sigurfat** Verði mjer að sigurfati.
**sigurlaus** Framsækinn er hinn sigurlausi.
**sigurtafl** Svart er sigurtaflið sjaldan þeim sem á heldur.
**síld** Þú værir betur sendur eftir síld.
**silfur** Sínum augum lítur hver á silfrið.
Þeir elda grátt silfur.
Hvítnar silfur við hverja bræðslu.
**silfurker** Silfurkerin sökkva í sjó en soðbollarnir fljóta.
**sínkur** Sínkum er ekki um svánga menn (S).
**sinn** 1 Hverjum kemur sitt.
Engum þykir sitt ofmikið (S).

Hver vill halda sínu (S).
Hver vill sitt fyllist (S).
Sá hefur alt sitt sem engum miðlar (S).
Sitt geðjast hverjum best (S).
Sitt hentar hverjum.
Að sínu hyggja flestir best (fyrst GJ; A).
Síns er hver maklegastur.
Leyfis er hver verður að sínu.
Hann á ekki á sínu að taka.
Hver er sínum sinnandi.
Hverjum er sárt til sinna (S).
= Hverjum er sinn sár.
Það er sitt hvort: steypir eða styður (S).
Sitt er hvað: ramleikur og ráðkænska (S).
Sitt er hvort: gæfa og gjörvileiki (S).
Sitt er hvað: að hafa, fá og halda (S).
Sitt kemur upp með hverju nýinu.
Sitt segir hver hið sljettasta.
Sbr. sitja, sæll.

**sinn** 2 Svo er lengi sinnið sem skinnið.

**sitja** Sá situr sem sitja má, sá skipar sem skipa má (S).
Jeg má sitja svo skör lægra að mjer sje hægra.
Sitt á því arna, það særir þig ekki.
Eigi hjekk úti hinn er sat á (K).
Setið er meðan sætt er (Eyrb. 102 og o.).
Vel hefur hinn er situr of sitt (M).
Hann situr eftir með sárt ennið.
Hann situr heima með kopp hinn sama.
Hann situr á hlustunum þó hann standi upp á fæturna.
Hann situr á sjer (strák sínum).
Þú situr mjer fyrir sólu.
Sbr. bekkur, saga.

**sjá** Fleiri mega sjá en þreifa á.
Hann sjer jafnlángt nefi sínu.

Það sjer á hverjum sem hann hefur.
Það sjá augun síst sem nefinu er næst.
Þú sjer það síst sem augunum er næst.
Það er sem hver sjái sjálfan sig.
Enginn sjer sjálfan sig.
Vandsjenir eru margir (Grett. 155).
Ekki sakar ef ekki sjer á.
Eigi er hver slíkur sem hann er sjeður (Sex sög. 53).
Eigi má við öllu sjá (Grett. 119).
Ekki verður í alt sjeð (S).
Hann sjer eftir því sjö augunum.
Verður hver fyrir sjer að sjá.
Látum sjá hvað segir.
Öllum kann yfir að sjást.
Sbr. allur.

**sjálfbirgur** Betra er að vera sjálfbirgur en sjálfráður.

**sjálfdæmi** Illa gefast sjálfdæmin (Vallalj. 153).

**sjálfræði** sjá agi.

**sjálfstolið** Sjálfstolið er hverjum verst.

**sjálfur** Hver situr (er) sjálfum sjer næst (S).
Sjálfum sjer trúir hver best (S).
Flestir vilja sjer best sjálfum.
Enginn er öðrum sjálfur.
Betra er að taka hjá sjálfum sjer en öðrum (en bróður sinn biðja) (S).
Sjálfum koma sjálfs verk.
Það er alt gott sem sjálfum semur (S).
Aðra kantu að forðast en ekki sjálfan þig.
Sjálfur veit best hvar að honum kreppir skórinn (S).
Oft er sjálfum vjel verst (S).
Sjálfur ber eg mína bagga.

**sjerviska** Sjerviskan er óviti verri.

**sjóða** Sá þarf mikið að sjóða sem mörgum vill bjóða.

**sjóður** Þar á hver heima sem hans sjóður er.
Fáum þykir sinn sjóður ofþúngur.

**sjófáng** Öllum er sjófáng sameiginlegt (S).
= Allir eiga sjóföng saman.
**sjóferð** Það á ekki saman síngur og sjóferðir (S).
**sjóhraktur** Fögur er sjóhröktum fold (A).
**sjón** Sjón er sögu ríkari (Hkr. II 398 og o.). Sbr. blindur.
**sjór** Seint mun sjórinn eyðast.
Lengi tekur sjórinn við.
Ekki missir sjór seltu af vatnsföllum.
Dregur sjór til sín (S).
Bármikill sjór blekkir margan en við logn em eg hálfur hræddari.
Nú er sjór að logni orðinn.
Afli of deilir síst við sjá (M).
Engi drekkur þurran sjó (S).
Ekki er sjórinn sekur þó syndi ei allir fuglar.
Allir renna blint í sjóinn.
Svikul er sjávar gjöf.
Svipull er sjávar afli (er sjóar gjöf K).
**sjúkur** Sjúkur getur sjúkum næst.
Flest er sjúkum súrt.
Bera skal sjúkum en bjóða ekki.
Sbr. selur, sofa, söl.
**skaði** Betra er hálfur skaði en allur.
Hirða má við hálfum skaða.
**skaf** Betra er að hafa á skafinu skamt (S).
**skafa** Betra er sljett skafið en illa grafið.
**skafl** Oft er skjól undir skafli.
**skák** Skýst um skák hverja. Sbr. auður.
**skaka** Sá má taka við er digra hefur skökuna (S).
**skáka** Þú skákar fyr en þú mátar.
Hann skákar í hróks valdi.
**skáld** Sjaldan er það gott skáld sem gamalt yrkir (S).
Margur er skáld þó hann yrki ekki (S).
Kveðið hafa skáld um minna.

Ekki skal skáld erta (S).
Böguskáld ei breyta óði.
Mart færa skáldin í ýkjur.
Mörg eru skáld skröksöm.
Þar hittust skáldin.
**skáldmæli** Mart er skjal í skáldmælum.
**Skálholt** Munur er Skálholts og Bolholts.
**skáli** Hægt er að skelfa skálann minn.
**skálkur** Einn skálkur veit annars þel.
Heiðraðu skálkinn svo hann skaði þig ekki
**skalli** Á skallanum er skinnið nertast.
**skamrif** Böggull (Bógur) fylgir hverju skamrifi.
**skamtur** Alt hefur sinn skamt.
**skap** Allir hafa eitthvert skap (S).
Vant er að geta fyrir annars skap.
Lítið (böl) er litlu skapi raun (S).
Ilt er að egna ilt skap.
**skapa** Engi maður skapar sig sjálfur (Grett. 97).
Engi má renna undan því, sem honum er skapað (Grett. 159).
Látum þá skeika að sköpuðu (Egilss. 63).
**skapadægur** Engi kemst (má komast) fyrir (yfir) sitt skapadægur (Vatnsd. 39 og o.).
**skapari** Jeg á ekki skuld á skaparann.
**skaphnoðri** Oft er skaphnoðrinn ljettur í skautinu.
**skarð** Skarð og barð skal hvort öðru mæta.
**skarn** Oft kann að loða skarn við skál.
Skamt er skarns á milli.
Skarnið skal við skarnið binda.
Illa skartar skarn á snót.
Sá sem kastar skarni (saur) á aðra, kámar (atar) sjálfan sig (S).
**skart** Fleira skín í augum en skartið eitt (S).
**skarta** Það skartar mest sem skitnast er.

**skass** Aldrei þykir skassinu skömm að sjer (S).
Að engu þykir skassinu skömm nema falda illa og fara vel.
**skata** Sjaldan liggur skata efst á skut.
Það skriplar á skötunni.
Sbr. þyrill.
**skattur** Sá er skatturinn bestur, með skilum er fenginn (K).
**skaut** Sá kann að haga skautinu eftir veðrinu.
**skegg** Skylt er skeggið hökunni.
Það er skömm skeggi ef haka ein hlýtur að dansa.
**skeið** Hann fer skakt á skeiðinu.
**skeina** 1 Skeindu mig, Skúli, og skafðu úr mjer að attan.
**skeina** 2 Legðu rækt við litla skeinu (A).
**skel** Hæfir skel kjafti.
= Hæfir kjafti skörðug skel (S).
= Þar hæfir spónn múla en skel kjafti.
**skelfiskur** Þá er skelfiskasoðið ef ei er annað.
**skella** Skall þar einum og skyldi brátt meir.
**skellur** Sá hlaut skellinn er skyldi (Nj. 467).
Skamt er skells að bíða.
**skemta** Ekki skemtir skepnan skítur dauð.
**skemtan** Það er einum skemtan sem öðrum er ángur (S).
**skemtinn** Skemtinn maður er vagn á veg.
**skifta** Skifta má jafnara.
**skil** Engi tekur þar skil sem ekki eru til (S).
**skildíngur** Margur sparar skildínginn en sóar dalnum.
**skilja** Skil jeg fyrr en skellur í tönnunum.
Fyrr má skilja en fulltalað sje.
Hann skildist við stafn og stýri.
**skin** Hamlar skúr skini. Sbr. Oft er skin fyrir skúr.
**skína** Skein þá skúrlegar leist.
**skinn** Lengi tognar hrátt skinn.
Nær er skinnið en skyrtan.

**skip** Hver hleður sitt skip allra mest.
Eg þekki skipið, eg hef á því róið.
Skammar ro skips ráar (Hávam.).
Muna far alt í sundi (Sig. sk.).
**skipa** Skipist ei nema versni (K).
Skipast má á skemri tíma.
Skipast mörgum við góðan búníng.
**skipbrot** Alment skipbrot gerir mörgum hugfró.
**skipmaður** Skömm er skipmanna reiði (S).
**skitinn** sjá skarta.
**skítur** Skíts er von úr rassi (K).
Skítur á engan skildaga.
**skjal** Altjend verður eitthvað til skjalanna.
**skjár** Samt þýtur í þeim skjá sem gatið er á (S; þó ekkert sje gatið á GJ).
**skjól** Fokið er í flest skjól.
Þá fokið er í eitt skjól, er ófent í annað (S).
Ef ekki er undir einum skjól annan stein má finna.
**skjóla** Þángað til fer skjólan til vatns að hún brotnar.
**skjóta** Skýtur í tvö horn með okkur.
**skjöldur** Tveim skjöldum ljek eg aldri (Eyvindr skáld.).
Hjer er skarð fyrir skildi.
**skófir** Illa skarta skófirnar við pottinn.
**skólabróðir** Sjaldan eldast skólabræður.
**skolli** Ilt er að veiða gamlan skolla í gildrunni.
Ekki er að hafa af skollanum nema skinnið.
Lofaðu ekki skinnið fyrr en skollinn er veiddur.
Auðkend er ólykt skolla (S).
Hvað skal gömlum skolla skeifur stórar.
Þar leikur ekki skollinn við lambið.
Hver hann hefur skifti við skollann fær skaðann í laun.
Hann skellir við því skollaeyrunum.
Hann sker að því skollavetlíngana.
Sbr. batna.

**skór** Af vondu leðri gerast ei góðir skór.
Gamlir skór falla best að fæti (JÓl.).
Þörf er að bleyta þurra skó.
Skömm eru skólýti.
Skömm er að skógerð.
Haf þökk og þrjá skó alla upp á einn fót.
Nú ætlar að skorpna skór að fæti mjer.
Fyrr verður skórinn armur en fóturinn varmur.
Hver veit best hvar að honum kreppir skórinn (S).
Svo slít eg skóm bónda, kvað smalinn.
Af annars lengju er hægt að sníða skó.
**skortur** Skortur eltir skamsýni (S).
**skot** Ýmsir eiga skot í reyðinni (S).
**skrafa** Þú skrafar ei skyn frá mjer.
Þú skrafar þig drukkinn.
Þú skrökvar fyrr en þú skrafir ekki.
**skrápur** Það er kominn út á honum skrápurinn.
**skrið** Skrið er á skepnunni.
**skriða** Þar er von skriðunnar sem hún rennur (K).
Sbr. Þar er skriðunnar von sem hún hefur fyr fallið.
**skríða** Skríður af það er hljóp á.
**skrum** Mörgum hefur skrumið til skaða komið.
**skröggur** Nú kemur skröggur í leik.
**skrökva** Skrökvað er skemra.
Ekki er öllu skrökvað sem skrafað er (S).
**skuggi** Engin er skepna án skugga.
Ekki skýlir skugginn þá skinið er bjart (S).
Þú sjer ei skuggann fyrir skreppunni sem á bakinu hángir.
Hann greip í skottið á skugganum.
**skuld** Fyrri er skuld fjegjöfum (S).
Gamlar skuldir ryðga ei.
Betra er að heimta litla skuld en gjalda mikla.
Gleymd er goldin skuld.

Margur borgar skuld með skuld.
Betri er goldin skuld en gefin (PS).
**skuldadagar** Kemur að skuldadögunum.
**skuldseigur** Ilt er að eiga eftirkaup hjá skuldseigum (S).
**skúr** Oft kemur skúr eftir skin.
**skúti** Lengi hlífir lágur skúti.
Það er lakur skúti að ei sje betra en úti.
**skutill** Skammur er skutill minn (Fóstbr. 20).
**skutla** Ekki á skutla (hnulla) ef eyrun má tutla.
**skutur** Ekki skal skuturinn eftir verða ef allvel er róið frammí.
**skútyrði** Ekki er vert að bera skjöld fyrir hvert skútyrði.
**ský** Dimm ský eru sjaldan án skúra.
Lítast þjer þessi ský skúrlaus.
Ský á engan skildaga (S).
**skyldur** Með skyldum er að skifta.
Skaplegt er þó skyldir finnist.
**skyndiráð** Skaðleg eru skyndiráð.
**skyndiþvottur** Skjaldan er góður skyndiþvottur (S).
**skyr** Þeir mega sletta skyrinu sem það eiga.
**skýr** (Mörgum S) skýst þó að skýr sje (K).
Skotist hefur skýrari.
**skyrta** Hann þvær skyrtu sína með skitnum höndum.
Skyldari er mjer skyrtan en hökullinn.
**skyrtunna** sjá drjúgur.
**skæði** Það er skylt fyrir skæðin.
Bæði eru skæðin góð (PM).
**skæla** Skæl þig skapfeldlegar og skjót í norður.
**skæri** Rata skærin götu sína.
Skjót eru skæra lýtin.
**sköllóttur** Eitt hár og annað gerir húsbóndann sköllóttan.
**skömm** Fornrar skammar skal fyrst hefna (S).
Þar skall skömm er skyldi (S).

Verri er skömm en skaði (S).
Það bætir á skömmina að bíta af henni höfuðið (S).
Ilt er að þiggja skömm á sjálfum sjer.
Ljótt er það að skömm vill skarta.
Margur dregur skýlu yfir skömm sína.
**sköp** Eigi má sköpum renna (Ísl.s. II 106).
Sköpum vinnur mangi (Atlamál).
Eigi má við sköpum sporna (Vatnsd. 26; gera GJ).
Fátt er sköpum ríkara (Vatnsd. 23).
Margs fýsa sköp manna (Þórð. Kolb.).
Fár gengur of sköp norna (Krákumál).
Mæla verður einn hver skapanna málum (Gísl. Súrs. 17).
**skör** 1 Lýtin þykja skammæ skarar (M).
Ekki geri eg skör mína eftir skarntíkunum (því).
Sbr. skæri.
**skör** 2 Nú ætlar skörin að fara upp í bekkinn.
**slátur** Með ný slátur er hjer að höndla.
**sláttur** Hann lagði frá sjer slátt og útróður.
**sleði** Það er ekki gott (er ilt) að sleppa sleðanum fram fyrir eykina (S).
Hann sletti sleðanum fram fyrir eykina.
**sleikja** Varat af vöru, sleikti um þvöru (Flóam. 159).
**sleikjukona** Sleikjukona safnar aldrei súrri mjólk.
**sleppa** Eg veit hverju jeg sleppi en ei hvað eg hreppi.
Einhvern veginn slúnginn sleppur (S).
**slettireka** Mörg er slettirekan.
Slettireka verður að vera á hverjum bæ.
**slinni** Oft er slinni slyppifengur (S).
**slyðruorð** Hann rak af sjer slyðruorðið.
**slys** Fæstum verða sín slys að happi.
**slægur** Slægur etur slægs mat (S).
Ilt er að beitast brögðum við slægan.
**Slöttólfur** Vel má Slöttólfur slæki eiga.

**smali** Sjer eignar smali fje þó engan eigi sauðinn (A).
Margur er smala krókurinn.
**smámenni** Ekki er smámennið lengi að eta sig upp (S).
**smár** Smátt markar stórt.
Mart smátt gerir eitt stórt.
Betri er smár fenginn en stór enginn.
Fletja verður þó smátt sje.
Mart er smátt það er til ber á síðkveldum (Grett. 38).
Smátt gefur hún enn.
Sbr. fár.
**smekkur** Smekkurinn sá sem kemst í ker keiminn lengi eftir ber.
**smeykjast** Hann smeykist ekki við smáskammirnar.
**smíð** Aðra tíð, annað smíð.
Betra er smíðið en smíðkornið.
Ekki eru dásmíðir áhlaupaverk.
**smíða** Best er að smíða meðan járnið er heitt.
Ilt er að smíða þá tólin vantar (PS).
**smiður** Fáir eru smiðir í fyrsta sinn.
Sjá smiðs augu.
Það er smiðsins rjettur að orna sjer við spænina.
**smjaðra** Sá kemst lengst sem smjaðra kann (A).
**smjör** Þar er ei smjörsins vant sem fleskið er feitt.
Margur er smjörs voðinn (S).
Hver sem hefur gnægð af smjöri kastar sumu í kál.
Ekki (Þá) er smjörs vant þá smæri er fenginn.
Til smjörs er að vinna en ei til sölva (S).
Sbr. fiskur.
**snáfa** Betra er aftur að snáfa en órjett að ráfa (A).
**snagi** Hann fær seint þann snaga sem hann vill á hánga.
**snauður** Snauður má löngum að litlu lúta (A).
Hvað skal snauður fyrirgefa (S).
**sníða** Enginn sníður vítt og sítt úr engu.
**sníkinn** Oft kemur sníkinn þá etið er (S).

**snjór** Sjaldan er ísíng efst á snjó (S).
**snotur** Oft er snotur seinn til svars (S).
**snýta** Það er fljótgert að snýta þeim sem nefið er af (S).
Ekki er hægt að snýta þá af er nefið.
**snælda** Sá kann að snúa snældunni sinni.
**soðbolli** Betur er fært soðbolla á saurpolli en herskipi á hafi úti. Sbr. silfur.
**sofa** Ekki sofa allir sem augun byrgja (G).
Skemt er þeim sem sefur.
Ekki sef jeg svo hátt sem jeg hrýt.
Ilt er sofandi manni og sjúkum að trúa (S).
Sjaldan vegur (hlýtur) sofandi maður sigur (nje húkandi happ) (Vápnf. 25).
Ekki tjáir að sofa til sæfara (S).
**sól** Bjartast skín í heiði sól (M).
Ljós er nóg þá sólin skín (S).
Neyta skal sólar meðan skín.
Sólunni fagna flestar kindir nema draugar og dísir.
Það er mjer sól sem mjer skín.
Honum kemur sól upp í heiði.
Ekki neytir ljóss þegar lýsir sól.
Hann hefur sól í höndum sjer.
Hann sjer ekki sólina fyrir henni.
**sóma** Sómir það hverjum er sjálfur vill hafa.
**sonur** Hann er sinnar móður sonur.
Sætur er sonar aflinn.
Úlfur er í ungum syni (Sigurdríf.).
Sitt er að hverjum sonanna minna.
Mangi getur sonar iðgjöld nema sjálfur ali (Egill).
**sorg** Fyrnist sorg þá frá líður (S).
Enda fær sorg um síðir.
Oft slökkur ein sorg aðra.
Allir menn finna sorg í sjálfs barmi.
Sorgfullur hugur gerir sár augu og svíðandi brá (S).

**sorphaugur** Enginn sækir á sorphauginn. Sbr. hundur.
**sótraftur** Nú eru flestir sótraftar á sjó dregnir.
**sótt** Oft kemur löng sótt af litlu fári.
Sótt elur sjúkan.
Ekki leiða allar sóttir til bana (S).
Ekki er það sótt sem ei sjer á.
Jeg hef líka legið í þeirri sótt.
**spá, spakur** Spá er spaks geta (Grett. 72).
Það er spáð er spakir mæla (Bisk. I 89).
Á mörgu henda spakir menn mið (Flóam. 140 og o.).
Mörgu getur spakur maður nærri.
Hver sem spáir, lýgur eða segir satt.
Ekki tjáir að hræðast allar spár.
Spurn fræðir spakan (S).
Sparast tala spakir menn (S).
**spara** Það verður að spara sem lengi á að vara (S).
Seint er að spara þá bylur á botni (S).
Margur sparar sitt en níðist á annara (S).
Eigi veit hverjum sparir (K).
Flestur mun sig til nokkurs spara (M).
**speki** Engi vill heita hálfviti speki sinnar.
**sperðill** Þú þeytir þó sperðlunum.
**spil** Áhætt spil misjafnt gengur til.
**spje** Sest spje í sjálfs knje (A).
**spjót** Þau tíðkast en breiðu spjótin (Grett. 103).
**spónn** Spónn hæfir þar munni.
Það er ilt að ljá (Heimskur ljær) spóninn en lepja (lepur) sjálfur (S).
Spónasmiða börn eiga oft versta spæni (S).
**spor** Eg rek sporin ef eg rata ekki öðruvísi.
**sporður** Ekki er hann sporður margorður og þó gleður hann börnin (S).
Eg er ei svo þurr í sporðinn eg standist ei orðin.
Eftir er sporður þó af sje höfuð.

**spori** Ekki járn er drottinholt sem spori (Þiðr. I 219).
**spurn** Ein spurníng leysir aðra.
Frjáls er spökum spurnin.
Engi hefur (fær) á spurninni (S).
Spjeleg spurníng fær spottlegt andsvar (G).
**spyrða** Gefst í gjörðar spyrður.
**spyrja** Spyr sá sem ekki veit.
Sá sem margs spyr, gengur margs villur.
Spurðu margs en segðu fátt.
Alt spyrst og einnig þetta.
Seint er um langan veg að spyrja tíðinda (SnE. I 152).
Spyrja mun þjer best þykja við hann að eiga (Grett. 133).
Spyrja er best til válegra þegna (Ísl.s. II 142).
**spörun** Spilla má með spöruninni.
**staður** Alt finnur sinn stað um síðir.
Alt kemur í einum stað niður.
**stafkarl** Oft leiðir ilt af illum stafkörlum.
Seint fyllist stafkarls skreppan (S).
**stafnbúi** Nú er skift um stafnbúana.
**stafur** Við rángan staf má styðjast, eigi við engan (K).
Stafur er stráks keyri.
Ekki stendur það sem stafur á bók.
(= Það stendur osfrv.)
**staga** Þú kant að staga þótt stutt sje í spunanum.
**stakka** Það var vel að stakka fekk ekki hala (S).
**stakkur** Af sama er stakkur, kápa og hetta.
Sníddu þjer stakk eftir vexti (A).
Engi veit hvað undir annars stakki býr (S).
Gefandi væri stakkur með strák.
Nú er stakkur af oflæti.
**stál** Aftur rjettist stál ef ei er ofbeygt.
Nú skal láta sverfa til stáls.
**stálbugur** Stökkur er stálbugur.
**standa** Enginn stendur lengur en hann getur.

Stattu kyr meðan stökt er úr þjer [segja mjaltakonur].
Það stendur upp á bælið hans.
Hann stendur á því eins og hundur á roði.
Það stenst á endum strokkurinn og mjaltirnar.

**stara** Þú starir sem naut á nývirki.

**steðji** Ekki reiðist steðji stórhöggunum (S).

**steik** Af feitri steik drjúpa feitir dropar.
Aldrei er svo mögur steik að ei drjúpi nokkuð af.
Eg þoli ei reyk af þrárri steik.
Sbr. borða.

**steinbítur** Nær er um steinbíta kjakið.

**steinn** Steinn er stafs auki.
Harðir steinar tveir mala sjaldan smátt.
Illa (Seint) grær um hrærðan stein (S).
= Um veltan stein vex trauðla gras (S).
Ilt er stórum steini lángt að kasta (S).
Hann tekur ekki stein í staðinn.
Hann hefur lengi steininn klappað.
Steinninn tekur höggum best (PS).
Nú tekur steininn úr.

**stela** Sá kann ekki að stela sem ekki kann að fela.
Sá sem einu sinni stelur má altíð heita þjófur.
Sá sem stelur kálfinum horfir ei í að stela kúnni.
Sá á fæst sem flestu stelur.
Það er ilt (seinast GJ), kvað þjófsi, að stela ekki (K).
Nú er ekki svo statt að stolið verði.
Steldu ekki úr hjallinum, stóri maður.

**sterkur** Allir eru jafnsterkir á svellinu (K).
Fáir verða sterkir af steintaki.
Sbr. bryti.

**stíga** Einn stje og einn kvað og einn gerði alt að.
Betur stíga tveir en einn.
Eg vil ei stíga við þann sem mjer er sterkari.
Sbr. kveða.

**stígur** Ekki gagnar alla stígi að rekja.
**stíngur** Lítill stíngur eyðir oft stórum kröftum.
**stjaki** Eg sá stofninn áður en stjakinn var sniðinn.
**stjett** Stilla verður á stjettunum.
**stjúpmóðir** Stirð er stjúpmóður höndin.
Þunn er stjúpmóður sneiðin (A).
**stór** Stórt á við stórt.
= Stórt hæfir stórum.
Stórt skal stórum bjóða.
Stórt er um þá stórir ríða.
Margur er stór áður mál hreyfist.
Bágt er að troða tveimur stórum í einn sekk (S).
**stórlæti** Það steypir honum ekki stórlætið.
**stormur** Í stormi skal kæru kasta (S).
Stormur birtir stýrimensku (S).
**strá** Oft stendur strá þegar stórt trje falla má (A).
Þar æpir hvert stráið til annars sem þunnskipað er.
Strálaust er fyrir stokkum (Fas. II 38).
Öll strá vilja oss stánga Noregsmenn (Fms. XI 155) (Flest strá vilja stínga oss Norðmenn GJ).
**strákur** Það er ilt að heita strákur og vinna ekki til (S).
Ilt er að heita strákur en þó er verra að vera það (A).
Strákur gerir stráks verk.
Ekki verður stakinn á stráka verkum.
Ilt er strákinn að stæla.
Vondur er hálfs mánaðar strákurinn en verri viku stelpan (S).
Stika stráknum spönn, hann stikar sjer aðra sjálfur.
Að ljúga og sverja er stráks verja.
Samt er strákur þó stýri auð (S).
Ekki smeykist strákurinn við smáskammirnar.
Sá kaupir ekki strákinn sem þekkir hann (S).
Betra er að leigja strákinn en eiga.

Gott er að hafa strákinn í ferðinni og kenna honum alla klækina.
Strákar hafa stærsta lukku.
Annaðhvort styður lukkan strákinn eða hún steypir honum.
Oft sigrar lángt stríð strákslund (S).
Nú kemur upp um strákinn Tuma.
Hann á sjálfur strákinn þó hann strýki hann.
Oft er strákur í dánumanns ætt (PS).
Sjaldan skilst að strákur og hnakki (S).
Sbr. happ, læra, sitja, stakkur.

**straumur** Það verður mörgum að fylgja straumnum.

**streigja** Ilt er að streigja ómaklegan.

**strengur** Ójafnir strengir tvinnast aldrei vel.
Oft hafa stríðir strengir hrokkið.

**strokkur** Nú er komið annað hljóð í strokk. Sbr. standa.

**stúdent** Það eru alt stúdentar sem hárið hafa.

**stuldur** Ekki verður stoð að stuldi nema stafur sje (eða band).

**stúlka** Margar láta stúlkur sig á gullinu ginna.

**stund** Lítil er líðandis stund en löng matmáls stund (Hkr. I 209).
Ein stund kann skemma alla æfi.
Sbr. bíða.

**styðja** Hægra er að styðja en reisa (A).

**stykki** Leiðasta stykki liggur lengst á diski.

**styrkur** Enginn stelur í sig styrkinum.

**stæltur** sjá bíta.

**stæra** Stærðu þig ekki stórum af strigaþurkunni (S).

**stöðubein** Þjer eru stinn stöðubeinin.

**stökkva** Stöktu ekki svo hátt þú stígir í skeggið.

**stöpla** Nú stöplar stórum yfir.

**suður** Nú sortnar í suðrinu.

**sultur** Sultur gerir sætan mat (S).

Oft er sultur í selbúi (S).
Ekki hentar sult að sjóða þá mörgum skal bjóða (S).
Þar er sultur sem hann er sagður.
Oft er sultur í sjálfræði (S).
**sumar** sjá vetur.
**sund** Nú eru öll sund lokin.
**sundmagi** Sár er sundmagabólan.
**sundurleitt** Ekki er því saman að koma sem sundurleitast er.
**sundurþykki** Sundurþykki er gæfugrand (S).
**súpa** Eigi er sopið þótt í ausuna sje komið (Grett. 130).
Sætt er að súpa en sárt að gjalda.
**súr** Sá kann ekki að segja af súru sem aldrei sýpur nema sætt.
**súrna** Það súrnar gjarnan (löngum GJ) sem sætt kemur saman (K).
**sút** Sárt er sút að bíða (K).
**svalur** Alloft verður í hreggi svalt (M).
**svángur** Svángur er maður á hverju nóni (K).
= Svángur maður er á máli hverju.
Flest má svöngum bjóða (S).
Mart þykir svöngum sætt er söddum þykir óætt (S).
Flest er svöngum sætt.
Flest vinnur svángur maður til saðníngs (S).
Oft svelgist svöngum á sætum bita.
Ekki er kyn þó kvarti svángur (S).
Enginn fer (gerir) það svángur.
Í sæng skal svengd þola (S).
Betri er svángur vís en fullur óvís.
Seigt er svöngum að skruma (Þorl. Þ. 122).
**svar** Enginn má tveimur senn svar veita.
**svara** Hver hann blífur varlega sá má svara djarflega (K).
Allir svöruðu eins og sá (S).
**svartur** Svart á við svart.

Ekki sjer skarn á svörtu.
= Seint sjer á svörtu.
Betri er svartur svinnlegur en bjartur heimsklegur.
**svefn** Vinna gerir væran svefn (S).
Lángir svefnar löstum safna.
Svefn er sjálfs (sjúks) geta.
Svefn er barna matur (PS).
Svipull er svefn á sjó (S).
Þúngur er synda svefn (S).
Svefn og losti setja þúnga kosti.
Svefn tefur sáttargerð.
**svei** Svei báðum svo hvorugur óvirðist.
Svei því sem engu er nýtt.
**svelgjast** Þeim svelgist oft á sem stórum gleypa.
**svell** Markar svell í miðgóu (S).
**sverð** Eitt sverð dregur annað úr skeiðum (S).
Oft er í vondum skeiðum vænt sverð (S).
Ótraust sverð er tveggja manna hræða.
Ilt er góðu sverði í grjót höggva.
Margur ofrar mæki sjer til óhapps.
Ilt er að eiga sverð sitt í annars slíðrum (A).
Nú reið sverð að svíra (Bisk. II 74).
Sá kann hvast sverð hunángi smyrja.
Margur hrósar sverði en ekki sigri.
Sárt er sverð í nýrum.
**sverja** Engum er leyft að sverja fyrir huga sinn (S).
Ekki er svo sannur svarinn að ei sje betri ósvarinn.
Sá sem sver þykir lítið fyrir að ljúga.
**Sverrir** Ekki á Sverrir sök við alla.
**svið** Ekki verður annað jafndrjúgt sem sviðin.
**sviði** Oft kemur sviði eftir sáran kláða.
**svik** Ekki er hægt við svikum að sjá (S).
Upp koma svik um síðir.

**svíkja** Illa hefir sás annan sýkr (= svíkur) (M).
Margur verður svikinn í sæti en síður á fæti (S).
**svín** Á saurnum verða svínin feitust.
Það svelgja svín sem í drafi dylst.
Oft (Sama GJ) er svín á soðinu brent (K).
Sjö sinnum brennir svín sig á sama soði.
Dreymir svín um draf og kerlíngu um sinn krókstaf (S).
Sækir svín í sama tún (PM).
Oft eð sama svín í akri (Fms. VIII 233).
Ilt er að venja svín þaðan vant er.
Sjaldsjeð er gull á svíni.
Samt er svín með silfur á grönum (S).
Svín fór yfir Rín, kom aftur svín (S).
Þvegið svín veltir sjer í sama saur.
Ilt er að reka svört svín í myrkri.
Þegar eitt svínið rýtir, rýta þau öll.
Sá kemur dagur að svínið þarf síns hala.
Ekki jórtra svín þó jeti.
Sjer (Veit) svín hvað sjer sóma þykir.
Sbr. úlfur.
**svinna** Ekki er það svinna sem á þarf að minna.
**svinnur** Sá er svinnur er sig kann (Hrafnk. 10).
Sjaldan situr svinnur maður í dyrum (K).
Eftir koma ósvinnum manni ráð í hug (Vápnf. 17).
Sbr. verða.
**svipa** Svipar hverjum til sinna (S).
**svipur** Oft verður svipur (sveipur) í svefni (Sturl. I 519).
Alt er svipur nema (hjá) sjón.
Ekki er öllum svip eins að trúa (S).
**syfjaður** Ekki eru allir syfjaðir sem ilt kveld skulu þola.
**sýkn** Ilt er að pína sýknan til sagna.
**synd** Hverjum er sín synd sæt.
Sár eru synda gjöld (S).

Synd kemur með hlátri en fer með gráti (S).
Forn synd gerir nýja skömm (Bæríngss.).
**syndga** Öllum er ættgengt að syndga.
**sýngja** Sýngur hver með sínu nefi.
**synja** Sá skal synja er fyrir sök verður.
**sýslun** Hver er sinni sýslun samur.
**systkin** Sátt (Sótt GJ) er systkina reiði (gleði GJ; S).
Oft er fimm álna munur systkinanna (systranna).
**sækja** Þig má sækja með söðulhesti.
Sækist flest um síðir (S).
**sæla** Vandsjen er hverjum annars sæla (S).
Margföld er sitjandi sæla.
**sæll** Sá er sæll er sínu ann.
Sæll er sá sem sínu unir.
Enginn er sæll fyrir sitt endadægur.
Sæll er hver sig góðan geymir (S).
Seint koma sælir og koma þó (S).
= Seint fara (koma) sælir.
Engi veit hvar sæls manns efni situr (S).
Jeg var sæll áður en jeg sá þig.
Sæll er sjódauður en vesall vatnsdauður (S).
Sæll er sá holt hús hittir (S).
Sælla er að veita en vola (S).
Sbr. sterkur.
**sæmd** Drep ei hendinni móti sæmdinni.
**sæti** Hættulegt er í ljúfu sæti að lifa.
**sætt** Engi ræður sættum sjálfur (Sól.).
**sætur** Sætt er sjaldætið (S).
Sætt er alt sem sjálfum líkar (S).
Mart er sætt í dag sem súrt er á morgun.
**söðulhestur** sjá sækja.
**sögn** Á sögnum verður síst skortur.
Nú saltast sagnirnar.
**sögubiti** Sætur er sögubitinn.

**sök** Sök bítur sekan (S).
Bera skal sök til sátta og bóta.
Betra er að játa sannri sök en neita.
Margur gerir mislita sökina.
Oft ýfist sök til ógagns.
Í salti liggur sök ef sækjendur duga (Norg. lov. I 24).
Ljett fellur login sök (S).
= Lítt bítur login sök.
Login sök er ljettbær (S).
= Sjaldan bítur login sök.
Brixla engum um bætta sök.
Óvænt er að snúa sök á óvalda (PS).
Sbr. gjald.
**söl** Ekki er sjúkum söl að bjóða (S).

# T

**tá** Dugir meðan á tánum tollir (S).
Þú nær ekki þángað tánum sem hann hefur hælana.
**tafl** Brögð eru í tafli.
Fiplar hönd á feigu tafli.
Hjá honum er taflið og teníngurinn.
Mjer er annað tíðara en um tafl að ræða.
Treyst ei tafli hálfunnu.
**tagl** Sá hefur ráð sem tagli (reipi) heldur.
Hann hefur bæði töglin og hagldirnar.
**táið** Það finst í laup sem illa er táið (S).
**taka** Það er ekki að taka sem ekki er til (S).
= Ekki er að taka af sem ei er til.
Eigi þarf til að taka nema þurfi (K).
Til þess tekur hver sem hann á að sjer (S).
Tekst þar ei í torfureit á (S).
Mörgum tekst ver en vill (Hrafnk. 15).
Ekki tekst öllum eins.

Hægt er að taka við þá að er rjett.
Vandsjeð er hvað við tekur ef vissu sleppir (S).
Þá tók ekki betra við.
Tekst þá tveir vilja.
Engi tekur af sjálfum sjer (S).
Undan er tekið einart (K).
Alt tekst ef að er verið.

**tala** Hægt er að tala þá enginn talar á móti.
Mart er talað og misjafnt satt.
Svo talar hver sem honum er tamast.
Margur talar litla stund og iðrast eftir lengi (S).
Þar tjáir ekki að tala sem enginn heyrir.
Ekki er undir hvað um er talað (Gísl. Súrs. 17).
Hægra er um að tala en í að komast.

**tálkn** Hún gefur ekki tvö tálknin með einu höfðinu.

**tamur** Það verður tamast sem í æskunni nemur (Grett. 174).

**tefla** Hægt er að tefla þá vel fellur.
Teflir hver um tvo kosti að tapa eða vinna.

**Teitur** Títtnefndur er Teitur bóndi.

**telja** Það má telja sem til ber.
Það tel eg mjer sem eg tek við.

**teníngur** Hann lýgur á annan tenínginn en stelur á annan.
Ýmist er uppi á teníngnum.
Sbr. leika, tafl.

**tíð** Allar eru tíðir trúar.
Tvennar eru tíðirnar (S).
Ekki eru allar tíðir fyrir eina.
Honum eru allar tíðir jafntamar.
Misjafnt er tíðin traust.

**tíður** Það er hverjum títt sem hann temur (PS).

**tík** Í tönnum er tík römmust.
Líka bítur sú tíkin sem undir liggur (S).
Ein er tíkin og kann ei að gelta.

Tíkur tvær um eitt bein og píkur tvær um einn svein verða sjaldan samlyndar í þeirri grein (S).

**tími** Ýmsum skiftir tímunum (S).

**tin** Elta má tinið til þess það brotnar.

**tíska** Þú tollir í tískunni að hafa grasið í skónum.

**tjalda** Tjalda verður til einnar nætur.

Því er að tjalda sem til er.

**tjara** Engi tekur sá í tjöruna er eigi loði við.

**tjörn** Engi tekur sá í tjörnina að eigi verði votur af (Bisk. I 578).

**tó** Mjer er ei svo títt um tóið eg tæti á næturnar.

**tóa** Aldrei (Seint) verður tóa tryggð (þó tekin sje úr henni róa GJ; S).

Ekki verður um tóu tælt (S).

Þú biður tóu að taka fjárgeymslu.

**tóbak** sjá mettur.

**Tófa** Til er eg, kvað hún Tófa á Gili.

**tog** Lengi má teygja tog til garns.

**toga** Eg á ekki að venjast því að af mjer sje togað.

**tól** Hver er sínum tólum tamur.

Hentug tól gera mann hagan.

**tolla** Það tollir við hann sem hann tæptir á.

**tollur** Þar fylgir tollur meti.

**toti** Hver vill sínum tota fram ota.

**traf** sjá falda.

**trana** Gamlar trönur er ei gott að fánga.

**traust** Traust lætur tíðum laust.

**tregi** Svo linna tregar sem tíðir.

**treiníngur** Betri er treiníngur en traðgjöf (stór forsneiðíngur) (S).

**treysta** Fátt er það að fulltreysta má (K).

**trje** Það trje er betra sem bognar en hitt sem brestur.

Falls er von af (at) fornu trje (Ísl.s. II 415, M og o.).

Betra er að veifa röngu trje en öngu.

Frá tagli skal trje telgja en rótum rífa.
Nú ætlar að verða (er orðið) minna trje úr meira.
Eigi fellur trje við hið fyrsta högg (Nj. 544 og o.).
Enginn stíngi fíngri í uppklofið trje.
Af beisku trje rennur beiskur ávöxtur (Flóv. 169).
Sæt epli falla af sætu trje (Sig. þögl.).
Bágt er að rjetta það trje sem bogið er vaxið.
Brák er að bera trje til skógar.
Sjer tálgar trje líkt.
Hann hrekst eins og trje fyrir straumi.
Svo bregðast krosstrje sem önnur trje.

**trú** Betri er trú en tent járn.

**trúa** Öllum trúa ekki er gott en engum hálfu verra (A).
Ekki er öllum (konum, vinum) eins að trúa (S).
Margur mundi trúa ef lyginn stæði hjá.
Hann trúir honum eins og nýju neti.
Sjer trúir hver best.
Sbr. fláráður, vjela.

**trúgjarn** Hægt er að tæla trúgjarnan (S).
= Oft verður sá tældur er trúgjarn er.

**tryggð** Ilt er táli í tryggð að smeygja (A).
Margur er trauður til tryggða.
Nú tekur tryggð að kvölda.
Þeir hafa verr er tryggðum slitu (M).

**tröll** Ekki mart er verra en tröll (M).
Ekki gánga tröll á griðin.
Tröll eru í tryggðum best.
Enn mun tröll verða jafnslægt flagði (Griplur V 40).
Hvert tröllið tryllir annað.
Sbr. Ekki tryllir eitt tröllið annað.
Það er tröllagángur þegar hvert tröllið tryllir annað.
Ilt er það að tröll skuli manna njóta (K).
Hann horfir eins og tröll á himnaríki.

Loftur Bjarnason
Sólvallagötu 14
Rvík Ísland
(Iceland)
19/4/31

Tröll toga túngu úr höfði (Reykd. 78).
Tröll vísa hrossum að haga (K).
Trautt mun jeg trúa þjer tröll, kvað Höskollur (Sturl. I 438).

**tuðra** Tóm er nú tuðran þín, Lúsa-Loftur.

**tugga** Ólystug er annars tugga.

**túlkur** Á tali skal túlk merkja.

**túnga** Það er túngunni tamast sem hjartanu er kærast (S).
Betri er klók túnga en kembt hár.
Enginn skyldi hafa (Margur hefur) tvær túngur í einu höfði.
Gott er að hafa túngur tvær og tala sitt með hvorri.
Bregð þú túngunni sitt sinn í hvorn (Þ. stáng. 50).
Oftast er túngutrúr tíðindafár (S).
Túnga er höfuðs bani (Hávam.).
Ekki er túngan bein en oft brýtur hún stein.
Ill er spillandi túnga.
Ill túnga orkar meiru en öflug hönd.
Illrar túngu sár er óhægt að græða.
Vond túnga er verst komin í hvoftinum.
Hvað túngan meiðir er torvelt að lækna.
Vegur túnga þó vopn bresti (S).
Skamt nær túngan.
Þú teygir ei lengra túngu mína en eg vil láta hana.
Ilt er að eiga túngu í annars höfði.
Hann hefur hvekkstúngu.
Sá er ekki túnguspar sem kirnir um kálfsróuna (S).
Þar er ekki von á góðu sem tvær túngur eru í einu höfði (S).
Túngan leikur við tanna sár (M).
Sbr. hugur.

**túngl** Hafðu heldur vinskap við túngl en aðrar stjörnur.

**tveir** Betur mega tveir en einn (S).

**tvennur** Tvent kann til að bera.
Margur hefur tvent í takinu.
**tvíbytna** Alt verður til að tína í tvíbytnu jukkið.
Nú gengur tvíbytna að grunni.
**tvímæli** Alt (Flest) orkar tvímælis þá er gjört er (Nj. 460 og o.).
Jafnan orkar tvímælis þótt hefnt sje (Nj. 190).
Nú má taka af tvímælin ef duga skal.
**tvöfaldur** Hann er tvöfaldur í roðinu.
**tyrrinn** Trautt á tyrrinn trúan þjón (S).
**tönn** Oft hljóta góðar tennur ilt að tyggja.
Hann kemur ei við tönn nje jaxl.
Honum verður alt úr tönnum að toga.
Engi tyggur tannlaus (S).
Ilt er að bíta tönnum í sjálfs kjaft (PS).
Sbr. túnga.
**tötur** Hlífir hángandi tötur.

## U

**ufsi** Sjaldan er ufsi í asfiski (ördeyðu).
**ugla** Ein situr ugla á kvisti.
**úlfur** Von er að úlfur fæðist af ylgju.
Ilt er kyn í úlfi hverjum.
Úlfur er sá með úlfum venst.
Þar er mjer úlfs von er jeg eyrun sá (Fáfn.).
Það ýlfrar alt sem af úlfi er komið (S).
Auðþektur er úlfur í röð.
Ekki tjáir úlfs hár að gylla.
Fángs er von að (af) frekum úlfi (Eyrb. 90 og o.).
Úlfs er helst að illu getið.
Oft ræður vargur með úlfi.
Oft etur úlfur (tóa) talda sauði.
= Tekur úlfur af töldum sauðum (S).

Úlfur er svína sættir (S).
Sjaldan liggjandi úlfur lær of getr (Hávam.).
Sjaldan kemur liggjandi úlfi lamb (vargi matur) í munn (S).
Enginn úlfur etur upp annan.
Svengd kennir vargi að sækja bráð (S).
Sjálfir ýfast úlfar ef eiga sjer ei kálfa (bráð).
Úlfar eta (reka) annars erindi (Laxd. 81, K).
Sjaldan rekur einn úlfur vel annars erindi (S).
Það kemur ei alt óskatt af úlfs munni sem í kemur (S).
Engi af úlfi bitinn er að vargi orðinn.
Þjer hafið lengi úlfs munni af etist (Ísl.s. II 165).
Úlfur breytir hárum en ei háttum (S).
Úlfur er í úngum syni.
Þú hefur þar úlf að fæða er hann er (Bisk. I 655).
Margur hylur úlfinn undir sauðargærunni.
Skalat úlf ala úngan lengi (Sig. sk.).
Sbr. gíll.

**ull** Alt er ullu blautara. Sbr. geitarhús.

**ullsjóður** Ekki verður ullsjóður að silki þó gull hann geymi (S).

**umkeypi** Það eru ill umkeypi að taka högg fyrir hörð orð (S).

**una** Allur er þar sem unir.
Best er að una við orðinn hag.
Sæll er hinn er unir sínu (Refr skáld).
= Sæll er sá sem sínu ann.
Sbr. allur.

**úngur** Upp að eins er úngum vegar (M).
Allir hafa úngir verið.
Flest er úngum ónumið (S; Fátt . . al- GJ).
Úngt á við úngan.
Allítið er úngs manns gaman (M).
Dátt er úngra yndi.

(Hvað) úngur nemur gamall fremur (S).
Lengi man það er úngur getur (Ísl.s. II 248).
Arta má úngan í tíma.
Bráðger verða úngmenni (Fms. VI 195).
Óstöðugt (Úngt GJ) er úngra ráð (S).
Úngur má en gamall skal (A).
Eigi er allur í senn úngur og gamall (Norg. lov.).
Sbr. gamall.

**unna** Ann hver sínu, sagði karl, hann kysti fjalhögg (saum-) sitt.
Fátt er það sem enginn ann.
Sbr. auga.

**uppeldi** Sjaldan er gott uppeldi oflaunað nema illu sje (S).

**upphaf** Sjaldan er upphaf endíngu líkt (S).

**Urður** Urðar orði kveður engi maður (Fjölsv.mál).

**útigángur** Aldrei er svo góður útigángur, að ei sje inni betra (S).

**útlendur** sjá orð.

**útlenskur** Brigð eru útlenskra orð (K).

**útsker** Útsker verða af bárum þvegin (M).

**útundan** Sá verður útundan sem fjærst situr fati (S).

**uxi** Enginn uxi er með okinu borinn.
Einatt hvílist uxi þá öðrum er ekið.
Uxa skal með arði reyna.
Vel gerði guð, hann gaf ei ægum uxa horn.
Hann gaf kálf og keypti við uxa.
Feitur uxi hefur fulla sök.
Fyrr á gömlum uxanum að bæsa en kálfinum (Fms. VI 28).
Uxinn fór í England, kom aftur naut.
Sbr. guð, kálfur.

# V

**vá** Ærið þykir viðkvæm vá (M).
Þá er öðrum vá fyrir dyrum er öðrum er inn um komið (Grett. 82).
**vað** Hann hefur vaðið fyrir neðan sig.
Sá kennir öðrum vaðið sem undan ríður.
**vaða** Hann veður í öllu sem mús í skolum.
**vafagepill** Vafagepillinn verður að manni (S).
**vagga** Vel gengur vaggan.
**vagn** Gott (Best) heilum vagni heim að aka (Egilss. 119 og o.).
Ilt er að fá vagn þar allir aka.
**vaka** Sá verður að vaka sem öðrum á að halda vakandi (S).
**vakna** Seint vaknar sá sem aldrei vaknar.
Hver vaknar til sinna leifa (S).
**vakur** Ekki er vakurt nema vel sje riðið (S).
Ekki er vakurt, sagði hann Vati (S; þó riðið sje GJ).
**vald** Oft verður strítt vald endamjótt (S).
Ætíð vill valdið sinn vilja hafa.
**valda** Miklu veldur sá upphafinu veldur (A).
Sjaldan veldur einn þegar tveir deila.
Einn veldur, annar geldur.
Veldur hver á heldur (S).
**vamm** Fár er vamma vanur (var) (Hugsv.m. og o.).
Ekki er vammi að verma.
Sbr. annar.
**van** Van og of fær sjaldan lof (A).
**vanda** Ekki verður til als vandað.
Það skal vanda sem lengi á að standa.
**vandfarinn** Vandfarið er milli skers og báru.
**vandhittur** Vandhitt er skjól í vandræðum (S).
**vandi** Það er lítill vandi að leysa poka úr bandi (S).

**vandræði** Af verður að ráða nokkuð úr hverju vandræði (Ljósv. 160).
= Úr hverjum vandræðum verður nokkuð að ráða (S).
Sbr. vandhittur.
**vandur** Eitthvað verður (Vant er) úr vöndu að ráða (S).
**vani** Vaninn gefur listina (K).
Mikið kennir vaninn (S).
Þá er verst ef vananum bregður.
Vont er vana að kasta (S).
Láttu ekki vanann villa þig (A).
Fyrir sannindum á vaninn að víkja (A).
Innifastur er illur vani (S).
Oft aflagar illur vani góða náttúru (S).
Illur vani er því rengri sem hann er lengri.
**vansi** Oft verður ofsað til vansa (S).
**vant** Sjaldan er einskis vant (S).
**vanta** Hvað vantar þann er alt hefur.
Það vantar ekki nema nítján merkur upp á fjórðúnginn.
Það vantar sem við á að jeta.
**var** Sjaldan verður víti vörum (Hávam.).
Einn er var og vöknar þó í pollum.
Oft verður var um sig veiddur.
**vara** 1 Veldrat (Ekki veldur) sá er varar (varir) (Nj. 171 og o.).
Sjaldan varast ef votur er (Part. 33).
Það verður mörgum hann varast helst.
Þar er mart að varast sem mart er um (S).
Ei má ilt (er stundum slept) varast nema viti (Hirðskrá).
**vara** 2 Margan hendir það er minst varir (Orkn. 83 og o.).
Verður það er varir og svo hitt er eigi varir (Grett. 26).
Mart gengur ver en varir (Hávam.).

**vara** 3 Hver fær sína vöru selda.
**varamaður** Verður á fyrir varamönnunum líka.
**várar** Armur er vára vargur (Sigurdríf.).
**vargur** Ekki eru vargar vinsælir.
Ekki (Engu GJ) vægir vargurinn (S).
Víða kemur vargi bráð (S).
Sjaldan velur vargur sjer það versta.
Hann er vargur undir sauð (Flat. I 324).
Vargur sætir þeim sauð sem úr kvíum villist (K).
Vargur bítur ei þar borinn er.
Oft er vargs höfuð á vormorni.
Sbr. úlfur, várar.
**vari** Tak þjer vara fyrir teygjubitum og tálgresi.
Allur er varinn góður.
Ekki er lengi varinn sagður.
**varníngur** Allur er nýr varníngurinn góður.
Hver varníngur lofar sig sjálfur.
Góðan varníng vantar sjaldan kaupanda (S).
Nýr varníngur er drussum dýr.
Þeim er nýtt um varnínginn sem sjaldan fá hann.
Sbr. vita.
**varygð** Alt skal með varygð vinna.
**vaskur** Hver er vaskur er sig ver (Nj. 445; við hvern sem hann á GJ).
Oft má vaskur víkja þá vondur skal ríkja (A).
**vatn** Æ vill vatn til strandar (S).
= Öll vötn renna til sjávar (S).
Altíð rennur vatn sem verið hefur.
Hvert vatn fellur til sinna æða.
Djúp vötn gjálpa minst.
= Djúp vötn falla fram með minstum gný.
Í lygnu vatni er oft lángt til botns.
Í dimmu vatni eru verstu ormar.
Þú vísar mjer vatnið en ætlar mjer eldinn.

Vinst að bera vatn á stöngum (S).
Vesall er vatnsdauði (S).
**vaxa** Vex hver við vel kveðin orð.
**veður** Á skamri stund (Skjótt) skipast veður í lofti (S).
Vandsjeð er veður að morni.
Brigðult er veður þó blítt sýnist.
Saman liggja veður og óveður.
Það mætist oft kalt veður og kollhetta (S).
Byljum fer batnandi veður.
**vefa** Svo skal vefa sem vefnum gegnir.
**vefur** Þrár er þriðjudagsvefur.
**vega** Ekki verður alt vegið í skálum.
**vegamót** Víða liggja vegamót.
Víð eru vegamót, sæll er sá er vel gerir.
**vegandi** Sjaldan brestur veganda vopn.
**veggur** Nálægur veggur hitnar þá er hinn næsti brennur (Bisk. I 744).
Hver veggur vinnur upp sína mold (S).
**vegsemd** Vandi fylgir vegsemd hverri.
**vegur** Lagður vegur segir leiðina.
Lagður vegur er ljettfarnastur (S).
Trúr er tregalaus vegur.
Þeir segja til vegarins er næstir búa.
Stuttur er vegurinn góður að fara.
Flest verður ókunnugum að vegi.
Á hrísi og háu grasi er augna vegur en ekki fóta.
**veiði** Það var sýnd veiðin en ekki gefin.
Nú ber vel í veiði.
Veita skal þeim er veldi hafa (S).
Fleiri eru góðir veiðidagar en veðurdagar (S).
**veikur** Veikt og sterkt á valla saman.
**veisla** Sú er veislan best að hver hafi sinn vilja (PS).
**veisubragð** Höfum nú veisubragð (Ljósv. 212).
**veita** Fyrr er veitt en alt sje veitt.

Nú er fleira veitt en beitt.
Nú er flest að vilja veitt.
Það er sjaldan vel veitt sem lengi er matreitt (S).
Illa veitist það með óvilja er gert (S).
Ekki veitir af þó alt sje við haft (þó vel sje rotað).

**vel** Alt er vel sem vel skipast (S). Sbr. fara.

**velgjörð** Ekkert fyrnist fljótar en velgjörðir.

**velta** Þángað veltur hvað sem vera vill (Draumaj.s.).
= Veltur þángað sem vera vill um flesta hluti (Ísl.s. II 201).

**venja** Því er að venjast sem vera skal.

**ver** Allir látast ókvæntir (eru ógiftir) í verinu (S).

**vera** 1 Ekki er alt sem sýnist.
Alt verður einhvern veginn að vera.
Er á meðan er.
Svo er hvað sem reynist (sem virt er).
Svo er margur sem heitir.
Verið er nú meðan vært er (Eyrb. 102).
Nú er það af sem áður var (S).
Það sem verður að vera, viljugur skal hver bera.
Margur veit hvað hann er en ekki hvað hann verður.
Svo er hver sem hann vill (S).
Betra er að vera góður en þykjast.
Að er nokkuð þó vel fari.
Betra er að eitt sje að en alt.
Vertu að, þá vinst þjer um síðir.
Til er það, tala má það.
Það sem ekki er til verður ekki veitt.

**vera** 2 Hver vottar sína veru.

**verða** Einu sinni verður alt fyrst.
Ætíð dregur nokkuð til þess er verða vill (S).
Verður hvert að vera skal.
Verður það er varir og ekki varir.
Verður þrátt það varir síst.

Veitkat víst hvat verða kann (M).
Verður hver það verða skal (S).
Það sem verður að vera viljugur skal hver bera.
Mart verður annan veg en maðurinn ætlar (Jómsv. 1875 s. 76).
Svo verður á svinnum sem ósvinnum.
Sbr. vara, vera.

**verður** Það hefur hver er verður er loks (M).

**verja** Hann á í vök að verjast.
Ekki þarf að verjast ef enginn sækir á.
Þann er hægt að verja sem enginn vill berja (S).
Nýsir fjarri en ver sjaldan (Heiðarv. 58).
Sbr. vaskur.

**verk** Verkið lofar meistarann.
Verkin sýna merkin.
Sinna verka nýtur hver (S).
Sjerhver þekkist af sínum verkum (S).
Hvert verk lofar sig sjálft (S).
Fyrra verkið vinnur hið seinna (S).
Auðvelt þykir verk í annars hendi (S).
Ekki er sama verkið eins virt fyrir öllum (S).
Kalt verk karlmannlegt.
Skjótt er skitið verk.
Skitin hönd gerir skitin verk.
Bata má verk þó ei bætt verði.
Af góðum huga koma góð verk.
Hálfnað er verk þá hafið er.
Hvílast býður unnið verk (S).

**verkalaun** Eftir vinnunni fara verkalaunin (S).

**verkamaður** Verður er verkamaðurinn launanna.

**verkur** Ekki batnar Birni enn banakríngluverkurinn (S).

**verkþjófur** Ilt er verkþjófur að vera.

**vermir** Það er skammgóður vermir að pissa í skó sinn.

**veröld** Margan hefur veröldin vilt.

Veröldin er viljadrjúg.
Ekki leikur veröldin eins við alla.
Völt er veraldar blíðan (A).
Valt er veraldar hjólið.
**vesall** Oft verður vesall að manni (S).
Einu gildir hvar vesall vafrar.
Fátt þykir vesælum vel gefið.
Venst vesall vosi (sbr. aumur).
Flest (Lítið) er vesals vandræði.
Sjaldan á vesall völ á nægtum.
Flest (Lítið) dregur vesælan.
= Vesælan dregur fisið flest.
Lítill er vesæls manns fiskur.
Vesæll er vesælum verstur.
Fátt er svo vesælt að ekki sjái sjer vesalla (S).
= Sjer hvað sjer vesalla.
Sjer stríðir vesæll maður þó mat hafni (sbr. St. Hom. 164).
Sbr. æfi.
**vetlíngur** Lin (Stirð) eru vetlínga tökin.
**vetrarlíf** Vandstilt eru vetrarlífin.
**vetrarþoka** Trúðu aldrei vetrarþoku.
**vetrúngur** Sjálfir eiga vetrúngar verk sitt.
**vetur** Að því spyr veturinn hvað sumarið aflar (S).
Snemma gýtur góður vetur kálfi (S).
**viðleitni** Viðleitnin er engum bönnuð (S).
**viðmót** Á viðmóti má merkja manninn.
**viðsjálsgripur** Margur er viðsjálsgripurinn.
**viður** Gott kemur aldin af góðum viði (Parc. 14).
Í vindi skal við höggva (Hávam.).
Við skal þjökkva með hrísi (Sigvatr).
**viðurmæli** Viðurmælis er hver maður verður.
**víf** sjá kona.
**víkíngur** Ekki fara víkíngar að lögum.

**vikumaður** Vikumaðurinn (-strákurinn) er bestur.
**vilja** Það er annað að vilja, annað að kunna.
Gjörla má sá vel vill.
**vilji** Vex vilji ef vel gengur (K).
Sigursæll er góður vilji (Bisk. I 746).
Viljinn dregur hálft hlass.
Ekki er viljinn einhlítur.
Taka skal viljann fyrir verkið.
Viljann er að virða þó vanti máttinn (S).
Eiginn vilji brennur í helju.
Oft vantar þann viljann sem efnin hefur nóg (S).
**viljugur** Viljugan er hvern best að kaupa.
**villa** Enginn er svo ramviltur að ei rati í munninn.
Margur villist þó vís þykist.
**villur** sjá geta.
**vín** Hvert vín hefur sinn smekk.
Vín skal til vinar drekka.
Arta má vínber ef vaxa skulu.
Sbr. reiði.
**vinátta** Illa eldist sviplyndra vinátta (S).
Ilt er að binda vináttu við illa ræmdan (S).
Sum vinátta er svikum næst (S).
Úti er vinskapurinn þá ölið er af könnunni.
Fyrnist vinskapur sem fundir (Fms. II 162).
Keypt vinátta kólnar gjarna (Guðbr. Brjb. 103).
**vindur** Vindur er tornæmastur (S).
Vindur er veðra galli.
Sbr. viður.
**vinfengi** Vinfengin eru (rj. verða) misjöfn (M).
**vinna** 1 Vinna verður hver það ætlað er.
Vinnur hver það vanur er.
Ekki vinst alt með orku er þó vinst með lagi (S).
Oft vinnur sá sem undan lætur.
Enginn vinnur nema vogi (A).
Volaður verður sá ei vinna má.

**vinna** 2 Vinna er lasta vörn (S).
Vinna verður keypt en dyggðin aldrei (A).
Sbr. dyggð.
**vinníngur** Jafn er vinníngurinn þá upp er staðið.
**vinnukona** Vinnukona er vinnukonu verri.
**vinskapur** sjá vinátta.
**vinur** Vinur er sá vörnuð býður (Sigvatr).
Vinur er sá annars er ils varnar (Grett. 23).
Era sá vinur er vilt eitt segir (Hávam.).
Allir eru vinir (Ekki vantar vini GJ) meðan vel gengur (S).
Það er vinur sem vel í vanda (raun) reynist (S).
Vinur er sá er til vamma segir (S).
Að hafa vin er annars að vera.
Hver er sinn vildasti vinur.
Hver velur sjer vini eftir viti.
Sá er vinur sem veita kann.
Í þörf skal vin reyna (S).
Skal vinar í þörf neyta (Heiðarv. 71 og o.).
Segjanda er alt sínum vin (Egilss. 182).
Enginn skyldi góðan vin ofmjög þreyta.
Fágætur er góður vinur (G).
Vini skal varlega reyna.
Oft er snauður vinur auðgum betri (S).
Bágt (Vant) er að vera (Þögull skyldi) beggja vin og báðum trúr (S).
Ekki eru alt vinir sem í eyrun hlæja.
Völt er vina stoðin.
Betri er vinur í nánd en bróðir í fjarlægð.
Lángt þykir þeim sem vinar væntir (A).
Hver á sjer vin með óvinum (Hkr. II 128 og o.).
Vörm er vina senna (Saml. til no. folks hist. V).
Segðu mjer vininn þinn, þá veit jeg vitið þitt (K).
Vandfenginn er vinur í nauð (S).

Illa hefur sá ótrúan vin hefur (Svarfd. 81).
Votur er vinakossinn.
Vín skal til vinar drekka (Sturl. II 326).
Vinar gjöf skal virða og vel hirða (A).
Vildust er vina gjöf.
Flest vellur í vinakatlinum.
Ekki skyldu vina brek heiftum hlíta.
Væg fyrir vinum og verri mönnum (A).
Dauður er dauðs manns vinur.
Sbr. eldhús, eldur, frændi.

**virða** Svo er hver virtur sem hann er gyrtur (S).
Fátt er betur virt en vert er.
Það virða sumir mest er sjaldan skeður.

**vís** Ekki er vísara en víst.
Vísast er það í hendi hefur (S).
Betra er að lúta að litlu vísu en leita að miklu óvísu.
Þar er ekki á vísan að róa.
Sá verður margs vís sem árla rís.
Spyr oft vís þó viti.

**vísa** Líka þarf (Hægt er) að skilja hálfkveðna vísu (S).
Aldrei er góð vísa of oft kveðin.
Hverjum þóknast sín vísa vel.
Margur syngur vísuna eftir annara nótum.
Hver gerir sína vísu.
Sbr. barn.

**vísdómur** Skýst þeim mörgum vísdómurinn er betri von er að (Grett. 25).

**vísir** Fyrst er vísirinn, svo er berið (S). Sbr. ber, nýjár.

**viska** Viskan er mentanna móðir.
Viska er afli betri (S).
Viska er betri en vænleikur (S).
Oft dylst viska undir vondri kápu (S).

**vissa** Ilt er fyr von vissu að selja (A).

**vit** Vitið er verði betra (K).

Vitið er vinsælast.
Fer vit eftir vænleik (Laxd. 169; vexti GJ).
Æ kemur vit með vetri (S).
Ekki er vitið meira en guð gaf, þó tók hrafninn það hálft af (S).
Vits er þörf í vangæfu (S).
Meira vinnur vit en stríð (S).
Betur vinnur vit en strit.
Löngum hlær lítið vit (K).
Sá hefur lítið vit sem gengst fyrir lit (S).
Löngum er hefnigjarnt lítið vit (S).
Mörgum verður vitið að vandræði.
Engan vantar meir en vitið.
Hann skildi eftir vitið á veggnum.
Þegar vínið gengur inn gengur vitið út (S).
Seint er að sækja vitið í vasann (S).
Hann hefur vitið í vasanum.
Enginn frýr þjer vits en grunaður ertu um græsku.
Þú kemur þar með tólfkóngavitið.
Sbr. vinur.

**vita** Sá einn veit sem reynir.
= Sá veit gerst sem reynir.
Fátt veit fyrr en reynt er (Fms. VI 155).
Fleira veit sá er fleira reynir (Grett. 23).
Hvað veit sá er einskis freistar (Errekss. 37).
Engi veit hvað verða kann (S).
Engan varðar alt að vita.
Betra er að vita rjett en hyggja rángt.
Margur veit og varast ekki.
Eigi veit fyr en svarað er (Eir. rauð. 23).
= Engi veit ófreistað (S).
Hver veit ef enginn segir.
Eg veit nokkuð þó aðrir viti meira.
Betra er ekki að vita en ilt að heyra.

Fátt veit sá er sefur (Mork. 36).
Sjálfur veit gjörst hverjum varníngi verja á (Sturl. I 455).
Eigi veit til hvers happs hætti (Sturl. II 251).
Þar kemur sá sem það veit, hvað margar eru meyjarnar í Melasveit (S).
Það vissi eg að þessi spræna mundi renna í meginána.
Hann veit ekki meira af því en kálfur af krossmarki.
Þú veist ei meira af því en naut kyssir kú í norðanveðri.

**vítaverður** Engi er að vítaverðari þó varlega fari (S).

**víti** (Engi) lætur sjer annars víti að varnaði verða (Nj. 149).
Gott er annars víti hafa at varnaði (Sól. og o.).
Sjálfs eru vítin verst (A).
Sbr. var.

**vitlaus** Betra er að vera vitlaus en ugglaus.

**vitsmunir** sjá ágirnd.

**vitna** Sá vitnar sjaldan rjett sem reiður er.
Oft vitnast sem ei varast (S).

**vitni** Eitt vitni sem ekkert, tvö sem tíu.
Enginn rekur sig sjálfan úr vitni.
Sjer bera flestir saklaust vitni.
Margur verður öðrum valt vitni.
Betra er sumra vitni en velgjörðir.

**vitur** Fár er svo vitur að alt sjái sem er (Orkn. 205).
Sá er vitur sem í tíma þegir.
Oft er vitur maður seinn til svars.
Ekki mun vitur um óvíst þrátta (A).
Hinn vitrari vægir (skal vægja) (Hkr. III 114).
= Jafnan vægir enn vitrari (Fms. II 33).

**vjela** Betra er vjeltum að vera en engum að trúa.

**voði** Mart (Margur) er kviks voði (K).

Margur er óviss voðinn (S).
Voðinn er oft næst þá varir minst.
Nærri er voði ef illa vill til (S).
**vofa** Braut kann að villa vofa.
**vog** Nú er jafnt á báðar vogir.
**voga** Hver ei vogar hann vinnur ei.
**vogun** Vogun vinnur og vogun tapar.
**volaður** Fáir eru vinir hins volaða (S).
= Fár á volaður vini (A).
**von** Von er vakandi manns draumur (A).
Lengi væntir vonin.
Von er bagabót.
Vonin hefur vakið margan.
Bregðast kann til beggja vona.
Oft hafa litlar vonir að góðu orðið.
Brugðist hefur betri von (K; vonir GJ).
Vant (Ilt) er úr vísu von að kaupa (K og o.).
Ilt er óvissa von að kaupa.
Völt er von þar á er.
Löng er von í kotru.
Eigi er hins verra eftir von er slíkur fer fyrir (Nj. 90).
Nú er ekki von á verra.
**vondur** Sjaldan verður vondum á vömmum bil.
Oft verður vondur verri ef vegs er leitað.
Fyrri er vondur en verstur sje (S).
Oft verður vondur verstur sjálfum sjer.
Formælíngin gerir vondan enn verri.
Versnar ei þó vondur lofi.
Flest er vondum varboðið.
Sjaldan skilja vondir vel.
Það kemur oft vel á vondan.
Vondir oftast vinna leik.
Oft vegnar vondum best (S).
Vondir menn drekka um síðir dreggjar sínar.

Einhverstaðar verða vondir að vera.
Svo má lengi vondu venjast að vont þyki gott (S).
Lengi má vont versna (S).
Það verður vont um síðir sem versnandi fer (S).
Vant er við vondum að sjá (Hrafnkelss.).
Á ilt fýsir æ hinn vondi.
Enginn er verri en Ormur á Hnerri.

**vopn** Sjaldan vantar veganda vopn (S).
Þrýtra veganda vopn nema hugur bili.
= Fæst veganda vopn ef hugur bilar eigi (Karl. 406).
Seint er til þeirra vopna að taka sem heima eru (PS).
Duga vopn ef ei bilar hugur nje hendur.
Ilt er að fá geig af sínum eigin vopnum.

**vor** Vorið kemur eftir veturinn.

**vorhugi** sjá hausthugi.

**vorís** Valt er að treysta vorísum (S).

**vorvatn** Vorvatn og vöðuselur hefur ófeigum manni í hel komið (K).

**vos** Löngum er vos í vetrarferð (S).

**vottur** Þegjandi votturinn lýgur síst.

**votur** Ekki þarf að hella þar niður sem nóg er vott.

**vægja** Sá skal vægja sem vitið hefur meira.
Betra er að vægjast til góðs en bægjast til ils (S).
Sbr. góður.

**vænleikur** sjá vit.

**vænn** Alt er það vænt sem vel er grænt (S).
Fyrr er vænt en valið sje.
Vænu er best í að hætta.

**vættur** Fljúga fótlausar vættir.
Þar er örg vættur sem hún er nefnd (S).
Sbr. argur.

**Vöggur** Litlu verður Vöggur feginn.

**vökna** Enginn er verri þó hann vökni.

**völva** Sjaldan vegnar völu vel (S).

**vöndur** Nýjir vendir sópa best.
Margur brýtur vönd yfir eigin hönd.
**vörnuður** sjá víti.

## Y

**yfirbætur** Yfirbætur eru (liggja) til als (Sturl. II 30 og o.).
**yfirvald** Betra er ilt yfirvald en ekkert.
**ýmis** Ýmist er best gott eða ljótt (K).
Ýmsar verður ef margar fer (Egilss. 119).
Ýmsir bjóða öðrum fár (M).
Verða kann á ýmsa halt (M).
**yndi** Betra er að hafa yndi en auð.
Yndið láta engir falt (M).
Illa fer einatt yndi með lyndi (K).
Betri er einn með yndi en tveir með trega (K).
**yrkja** Mart er ort sem ekki er gert.

## Þ

**þagmælska** Þagmælska er þarfleg eign (S).
**þakka** Það er ekki að þakka sem ekki er veitt (S).
Ekki er vert að þakka áður en maður smakkar (S). .
Sá þakkar öðrum sem betur kann (A).
**þakklátur** Þakklátur maður er þekkur guði (K).
**þakklæti** Margur gleymir þakklætinu þegar þegið er (A).
**þarfur** Sá mun þrífast sem þarfur er.
**þauf** Sá þolir þaufið.
**þefur** Sá á þef (lykt) sem fyrst finnur (S).
**þegja** Að geta þagað er ágæt íþrótt.
Enginn er alheimskur ef þegja kann.
Þeim er list er þegja kann.
Sá sem ekki kann að þegja kann ekki heldur rjett að tala.

Betra er að þegja en þræta.
Betra er þagað en þarflaust sagað (S).
Ekki er altíð einhlítt að þegja.
Jeg þegi ekki af því að jeg sje svaranna þrotinn.
Þegja mátt þú, þagað hafa betri sveinar.
Fár hyggur þegjanda þörf (Sól.).
Sbr. heimskur.

**þekkja** Hver þekkir sjálfan sig best.

**þerrir** Sjaldan er lángvinnur laugardags þerrir (S).

**þeyr** Drjúgur er dags þeyrinn.
Oft er óveðurlegt í öndverðum þey.

**þiggja** Hægra er að þiggja en gefa.
Alt er það vænt sem vel er þegið.
Betra er að þiggja boðin hús en beiðast annara.
Þú kant ekki gott að þiggja.
Gott er þeim sem ekki þá (K).

**þíng** Oft er galli á góðu þíngi.
Oft er þras á þíngum.

**þinn** Jeg var ekki þinn þegar þú beist af mjer nefið.
Þá er jeg þinn er þú vilt mjer nokkuð.

**þjóð** Missæl er þjóðin (Grett. 203).
Þjóð spyr alt það er þrír menn vita (M).

**þjófur** Oft er þjófur seint á ferð (S).
Það er þjófsins verja að ljúga og sverja (S).
Margir eru heims þjófar (Ævint. 155).
Þjófurinn þrífst en þjófsnauturinn aldrei.
Það ætlar hvinn að hver muni stela (S).
Sá er þjófurinn verstur sem úr sjálfs síns hendi stelur (A).
Ekki stelur þjófurinn altjend.
Þegir þegar þjófanna er getið (S).
Aldrei er þjófurinn óhræddur (PS).
Tíminn tælir þjófinn (S).
Við heimahvinnum er verst að sjá (S).

Ekki er hægt að hvinska þar sem heimabóndinn er þjófur (S).
Ekki verður þjófum við myrkur meint.
Engir geyma betur en þjófar.
Ilt er að stela þar sem þjófur er húsbóndi.
Ilt er að vera þjófur þjófsins.
Oft hengja gráþjófar bláþjófa.
Ýmist er þjófs dögg eða þjófs þerrir.
Hætta er að leysa úr höftum (bundinn) þjóf (S).
Þessir geta það þjófar og ríkismenn (PM).
Sbr. hvinn, stela.

**þjóna** Vant er tveimur herrum að þjóna og vera báðum trúr (S).
= Það er ekki gott að þjóna tveimur herrum (S).
Enginn er ofgóður sjálfum sjer að þjóna.

**þjónn** Dyggum þjón launa fáir líkt.

**þjónusta** Boðin þjónusta verður oft forsmáð (K).

**þjóta** Nú kná í hömrum hóts annan veg þjóta (Sturl. I 364 og o.).

**þjótur** Það skal á þjót þorna sem á þræl völknar (S).
Til þess er þjótur að þurka á (S).

**þófi** Hann kann að klóra úr þófanum sínum.

**þoka** Sjáðu við þokunni sem situr á fjöllunum.
Mart er það sem í þokunni býr (S).

**þóknast** Einum að þóknast ekki er gott, öllum hálfu verra (S).

**þola** sjá þreyttur.

**þolinmæði** Þolinmæði í þrautum vex (A).
Þolinmæði þrautir vinnur allar.

**þor** Margur hefur tvö þorin.

**Þór** Ólíkur er þinn Þór mínum Þór.

**Þórður** Þú þektir ekki hann Þórð í Krók (karlinn Björn á Brekku).

**þorri** Brigðular eru þorra þíðurnar.
Kemur þorri í annan tíma.
**þorskur** Þegjandi kemur þorskur í ála.
**þorsti** Ekki er þorstinn vatnsvandur (S).
**þrá** 1 Ekki skal lengi þrá til þess er þó skal ekki tjá (Gísl. Súrs. 99).
Það kemur aldrei ofsnemma sem eftir er þráð (S).
Það þráir enginn sem hann þekkir ei.
**þrá** 2 Ekki er manni verra en þrá (M).
**þrár** Sá hefur sitt mál sem þrástur er (S).
**þraut** Af (Úti) er þraut þá unnin er.
Margar eru þrautir þúngar.
**þrekinn** Þolað hefur þrekinn maður meira.
**þrent** sjá allur.
**þreyja** Hægt er að þreyja þorrann og góuna.
**þreyttur** Hægt er þreyttum að þola.
Lengi þrammar þreyttur.
**þrír** sjá þjóð.
**þrisvar** Þá er þreytt að þrisvar er (K).
Þrisvar hefur alt orðið forðum (Grett. 200).
**þrjótur** Ilt er að eiga þrá við þrjót.
Ekki eru þrjótar þokkasælir.
**þræll** Samur er þræll saurugum verkum.
Þybbið er þrælaliðið.
Þræll ber þrá í leik.
Varastu ekki vondan þræl að hirta.
Þrifinn þræll er bæjarbót.
Kýs þræll sjer indælla.
Í þörf er þrællinn þekkastur (PS).
Þiggja skal þræls ráð ef þörf reynast.
Þræll vill eiga sjer þræl.
Sjaldan er (verður) þræll happasæll (Ectorss.).
Ótrúr er óttalaus þræll (S).
Þræll einn þegar hefnist en argur aldrei (Grett. 28).

Seigt er þræl að snotra (S).
Aðrir ráða þræls förum en þræll ei sjálfur.
Árla skal etja þræl en síð svæfa.
Þræll þráir næturkomu en bandíngi dagsbrún (S).
Sjer sparar þræll þrínætta (-mælta) mykju.
Oft er þá í þræls för.
Oft er ragn (blót) í þræls reiði (S).
Illur þræll er allvel þó svelti.
Ilt er í þörfum þræl að streigja.
Ilt er að þjóna í þræls sökum.
Ilt er að eiga þræl fyrir einkavin (Nj. 223 og o.).

**þröskuldur** Lágur þröskuldur hefur lángan mann felt.

**þúfa** Oft veltir (veldur) lítil þúfa miklu (þúngu) hlassi (Sturl. I 394 og o.).

**þúngi** Hverjum dregur um sinn þúnga.

**þunnur** Jeg er ekki svo þunnur í sporðinn að eg standist ekki orðin.

**þurfa** Als þarf við ef ei skal skorta.
Als þurfandi er aumt að vera.
Sjerhver þarf sinna muna með.

**þurft** Einn (Hver) kveður allra (sinnar) þurftar (S).

**þurs** Bráður er þurs að brydda á reiði (S).
Þrá er þursa einkunn.
Eins er þurs þó allir óski honum virta.
Þurs þykist þrífast fullur.
Kynni þurs þegja þá væri hann vitur haldinn.
Segja skal þursi ef hann situr nökkviður við eld (Heiðarv. 58).
Lát þursinum þögn svara (S).
Þurs gefur skip en liggur sjálfur í landi (S).
Þar er sjaldan þurt sem þussarnir sitja (S).

**þurt** Það er þurt að eta hverja kökuna við annari.
Sbr. þurs.

**þvengur** Hægt er að rista breiðan þveng af annars skinni.

**þvo** Skemur er verið að þvo en þurka (S).
Það er mart þvegið sem ei er hreint gert.
Þvegið skal þerris bíða.
**Þyrill** Rekur enn skötu á Þyrli.
**þyrstur** Sá vakar ís sem þyrstur er.
**þögn** Betri er þögn en óþörf ræða (heimsk orð).
Engi hefur á þögninni (S).
Með þögn má þögn svara.
Þögn er ekki á þíng færð (S; nema þrjóska valdi GJ).
Af illu kemur þrályndis þögn.
**þörf** Hver er sinna þarfa fullur.
Oft er þörf en nú er nauðsyn.
Þörf kennir þjóð að biðja.
Mart er það er þörf þjár (Reginsmál).
Bæði er þörfin bráð og löng.
Bráða þörf er mest að meta (S).
Ekki kefur þörfin ofneysluna.
Sbr. nauðsyn.

## Æ

**æð** Ekki eru æðar þurrar meðan í þeim er lífið.
**æfi** Ýmsar (Margar) verða (manns) æfirnar.
Honum eru misgefnar æfirnar.
Um skiftir æfi manns (K).
Misjöfn æfi er best (S).
Mart verður (skipast) á manns æfinni (Hkr. II 302).
Engin er æfi án sorga.
Sá er ekki alla æfi vesall sem einn dag á góðan (S).
Önnur var þá æfin.
Engi veit sína æfi fyr en öll er (K).
Nú er æfin úti, óvart kom það mörgum kropp.
**æpa** Ilt er þeim að æpa sem enginn huggar (S).
**ær** 1 Það er vond ær sem ekki veldur fati sínu (S).

**ær** 2 Ærum verður alt að orðum.
Ær er ófeilnastur.
**ærast** Enginn ærist lengi einn.
Margur ærist og springur ekki.
Það má æra óstöðugan.
**ærinn** Mjög fár er sjer ærinn einn (M).
**ærsl** Fyrst eru ærslin til óranna (S).
**æska** Engin er æska án breka.
Æskan er flestum óstýrilát.
Ódul er æskan (S).
Æskunnar dáð er ellinnar ráð.
Á ómenskuna er æskan fús.
Hlátur æskunnar veldur oft tárum ellinnar.
Sbr. tamur.
**ætla** Margur ætlar mig sig og mátulega dyggan.
Þeim skal lítið ætla sem lítið geta.
Það verður að vinna er ætlað er (Nj. 22).
Það mun verða fram að koma sem ætlað (v. l. auðið) er (Nj. 59).
Ekki fer alt sem ætlað er (S).
**ætt** Allir menn eiga tvær ættir.
Allir eiga ætt til Adams að telja.
Hverjum bregður í sína ætt.
Hvatvetna dregur í sína ætt (Parc. 4).
Er einn aukvisi ættar hverrar (Laxd. 201 og o.).
Örverpi er jafnan í ætt hverri (S).
Sbr. drengskapur, dyggð, göngumaður.

## Ö

**öfgar** 1 Örskamt er öfganna á milli.
**öfgar** 2 Öfgar um síðir (S).
Öllu öfgar.
**öflugur** Oft verður öflugum aflfátt.

**öfund** Öfund er árrisul (S).
= Árla rís öfund.
Öfund kefur alla dyggð (S).
Öfund dregur illan slóða (S).
Öfund fylgir orðstír góðum (S).
Lítils er verður öfundlaus maður (K).
Hinn öfundsjúki er sinn eiginn böðull.
Afgjarnt verður öfundarfje (Fas. II 332).
**ökli** Ýmist í ökla eða í eyra (S).
**öl** Við eld skal öl drekka (Hávam.).
Öl segir allan vilja (S).
Öl er annar maður (Grett. 43 og o.).
Ölvar þarf sá að vera sem lögunum á að stýra (S).
Betra er þykt (þunt GJ) öl en þunt (þykt GJ) skol (S).
Betri er ein tinta með öl en tóm tunna.
Slíkt öl sæmir slíku brauði.
Ekki er það öllum öl þó einn drekki glatt.
Ilt er ölið enda er það illa drukkið (K).
= Ilt öl og illa drukkið (S).
Gott öl, sagði refur, hann rauk út af.
Öls til veiða eru flestir fúsir.
Þykir eigi til öls boðið (Ljósv. 192).
**öld** Öld kemur eftir öld.
Öld er ójöfnust.
**öldúngur** Ei er öldúngur undirlagður þó aumínginn sje plægður.
**ölkona** Altíð rís kíf í ölkonu húsi.
**öndvegi** Ekki verður öllum í öndvegi skipað (S).
**öngull** Alt er betra en berir önglar (S).
Bítur á beittan öngul (S).
Fráleitur skyldi fiskimanns öngull.
Snögt er öngulbragðið.
**ör** Hægt er að vera ör af annars fje.
= Sá er illa ör sem á annars er.

**örbirgð** Örbirgð kennir illum klæki (S).
**örbirgur** Eitt vantar örbirgan þá annað er fengið.
**öreigi** Alt er rjetttækt af öreiganum.
**örgrannur** Örgranns erum vjer lengst á leit (M).
**örlátur** Örlátur auðlaus er sem kappi vopnlaus (S).
Eftir efnum skyldi hver örlátur vera.
Af annara er hver örlátastur (S).
**örlög** Eigi má við örlög bægjast (Ól. hvítaskáld).
Sbr. deyja.
**örn** Ramr er örn í sátri.
Sjaldan gerist örnin að einfætíngi.
Hvar helst sem hræjið er þángað munu ernirnir safnast.
Örn er á nesinu.
Öndverðir skulu ernir klóast (Hkr. II 406 og o.).
Sbr. agn, auga.
**örvasi** Örvasa mann og únga konu brestur sjaldan börn.
**öxl** Hann kann að bera á báðum öxlum.

---

## Viðbót.

**ábati** Sætur er ábata þefurinn (240).
Sbr. sæt er ávinníngs vonin (GJ).
Það er ekki gert upp á ábatann að láta hann Kára róa (300).

**ábreiða** Enginn rjettir sig lengra en ábreiðan nær (240).

**alþíngi** Hælum ei alþíngi fyrr en af því er riðið (300).

**amma** Það er ekki oft að hún amma mín deyr (300).

**arlaki** Ætt er arlaka engu nýt (240).

**ás** sjá ups.

**auðkendur** Alt er það auðkent úr því koti kemur (St.).

**bátur** Ofhlaða má hvern bát (300).

**binda** Þeim skal lítinn binda sem lítinn geta borið (300).

**blár** sjá ekkert.

**blindur** Blindur maður finnur líka hurðarhrínginn (403).

**blóta** Blótaðu ekki stóra Sigga (300).

**boli** Sjaldan er grátinn gammall boli (312).

**borð** Alt er betra en borðið bert (403).

**Breiðabólstaðir** Hann býr á Breiðabólstöðum (v. l. -stað; 240).

**brók** Hann færist í fornar brækur (240).

**byskup** Bauð eg byskupi (v. l. bóndanum) betri þótti mjer hann þá ekki (St.).

**dans** Það datt úr honum dansinn (300).

**dimmur** Dimt er þar sem dagur er enginn (403).

**Dóri** Fleiri eru gráir en Dóri (300).
**eftir** Fjandans mikið er eftir enn, sagði presturinn (St.).
**eilíft líf** Eitthvað verður til eilífs lífs (241).
**einvirki** Ant er einvirkjanum (403).
**ekkert** Betra blátt en ekkert (S, 225).
**fló** Þar tekur hver fló af öðrum (403). Sbr. lús.
**flot** Fyrir fleiru þarf að hugsa en flotinu einu, sagði karlinn (300).
**fógeti** Það er ekki oft að fógetinn kemur í Tálknafjörð (300).
**fólk** Fínt fólk, alt einsýnt (St.).
**fugl** Hver vill sínum fugli á flot koma (403).
Fáir verða feitir á fuglaveiði (300).
**gála** Margur er gálu gángur (300).
**Gauti** Ekki er Gauti gamall (300).
**geit** Eitt er blóð í öllum geitunum (225).
**Gíslagata** Allir vilja lifa og ríða Gíslagötu (300).
**góutúngl** Hátt ganar góutúnglið (300).
**grár** sjá Dóri.
**guð** Allir vilja guðir vera ef þeir gæti (403).
Altíð hjálpar einhver guð (312).
Altjend er eitthvað að því sem guð gefur, sagði kerlíng (SL).
**Gunna** Honum er géngin Gunna (312).
**hákall** Þúngt er hákalls hlassið (300).
**halda** Alt heldur h:unum herra minn, sagði karlinn sem fylgdi byskupinum (300).
**Hallgerður** Á Hallgerði bellur (St.).
**happ** Ekki er það alt heimahapp sem á höku klagar (300).
**heimabiti** Hollur er heimabitinn (300).
**heimskur** Margur er heimskur þó hár sje (300).
**helgast** Það helgast alt af henni Mela-Máríu (300).
**hey** Sjaldan fyrnast græn hey í garði (300).
Ekki er til heyvinnu að flýta sjer (300).

**hlass** Þar situr hlass sem því er hleypt (300).
**Hólar** Á fram Hóla lestin (300).
Það hefur aldrei verið saman tekið Hóla staður og hundaþúfa (300).
**hornklofi** Hann hángir í hornklofa (300).
**hundaþúfa** sjá Hólar.
**hundur** Hart bíta hundar kóngs (St.).
**hvinn** Hvöss eru hvinna járnin, sagði bóndinn hann brýndi hnífinn byskupsins (St.).
**jafngóður** Jafngóður er hinn sem heldur og hinn sem flær (rjettara en slær í S).
**jarl** Ilt er jarli úr ætt að stela (300).
**Jóhannes** Sánkti Jóhannes vísi þjer veg rjett ofan í sjóinn (300).
**kala** Kell það sem engi vermir (300).
Ekki kell þeim er kol brennir (300).
**kemba** Jeg hef átt um kúlur að kemba (St.).
**klerkur** Oft er krókur í klerks augum (300).
**kol** Lengi brennur í þurrakolunum (St.).
**konúngur** Konúngur er hver í klæðum (312).
**kosta** Það er ekki neitt sem ekkert kostar (300).
**Kúfskjóna** Það er eins og hún Kúfskjóna í Hvammi (300).
**kýr** Hann er á milli kýr og kirkju (241).
**kæsir** Vandstiltur er vetrarkæsirinn (300).
**lág** Kvíði jeg fyrir láginni, sagði stelpan (St.).
**lausamaður** Lausgirtir eru lausamenn (300).
**líf** Hálft er lífið á hestsbaki (300).
**Ljótur** Alt er barn hjá Ljóti (225).
**Loptur** Eitthvað þykir Lopti hinum ríka (403).
**Lúkas** Ekki skrifar Lúkas svo (300).
**lús** Lýsnar bíta en flónum er um kent (St.).
**lög** Það eru lög sem hann Lalli segir (St.).
**löngustykki** Hart, hart löngustykki (300).
**maður** Ástsæll er ólatur maður (403).

**Máríuveður** Nú er Máríuveður í Kjós (300).
**mjólk** Autt er mjólkurrúmið (300).
**moð** Meira fer í moðið en í kálfinn (300).
**nógur** Nóg er að gera í Görðum, ein er kýrin (300).
**oddaveiði** Opin er oddaveiði (300).
**ómagi** Alkeypt er ómagaverkið (300).
**pissa** sjá skemtun.
**pistill** Ekki er matur í pistlum Páls sem prestar þylja (300).
**prestur** Enginn kemur frá einum presti óskitinn (300).
**ríða** Á skeið átti að ríða en skítur varð úr (300).
Þú ríður ei svo hart þú rotir mig með dunum (St.).
**rif** Gengur á rifið bóndi (300).
**róa** Það er ekki róið í einum vörnum (300).
**sár** Enginn hefur sviða í annars sári (300).
**sáta** Ekki fýkur lengi til sátunnar (300).
**sax** Þar gengur alt á saxi og spæni (300).
**Signý** Engin er síðri en Signý (312).
**sjá** Ekki má í alt sjá þá mikið liggur við, kvað refur, hann beit fót sinn úr boga (300).
**Skálholt** Honum vildi til skyssan í Skálholtsreiðinni (300).
**skemtun** Það er skammvinn skemtun að pissa í skó sinn (300).
**skeyna** Ekki skeynir hann hnakka sinn á því (300).
**skimp** Jeg skil skimpið fyrr en skellur í tönnunum (St.).
**skinn** Lengi skrjálar á þurru skinninu, sagði kerlíng, hún klóraði sjer á maga (St.).
**skytta** Allar skyttur eiga eitt glappaskot (403).
**smjör** Sá ber smjör úr eldi (312).
**Sokka** Nú er lagið á henni Sokku (Látra-Gunnu; 300).
**spónn** sjá sax.
**standa** Stattu aldrei Steinn mágur (300).
**stela** Stundaglöggur er sá sem stela vill (300).
**sultur** Ekki verður súnginn úr sjer sulturinn (300).

